# HARMONIA EVANGELICA,
Pad Er

# Gudspiall aña Samhliod

A N,

Uñ Vors DRottens JEsu Christi Holldgan og Hijngadburd, hañs Framferde, Lærdoom, Kieñingar og Krapta-Verk, hañs Pijnu, Dauda, Upprisu og Uppstigning, so sem þeir Heilögu Gudspiallameñ,

Mattheus Marcus Lucas og Iohannes hafa uñ sierhvert skrifad.

Samañteken i Eitt af þeim Hꜳttupplystu Guds Moñum.

D. Martino Chemnitio D. Polycarpo Lysero og D. Iohanne Gerhardo.

Og nu epter þeirre Rod og Forme, sem þeir Hꜳlærdu Meñ hafa sett og samed, A Vort Jslendskt Tungumꜳl wtgeingen i Aña Siñ.

Selst Ament Jñbunden 28. Fiskum.

Prickt a Hoolum i Hialltadal,

Af Halldore Erikssyne, Anno 1749.



# Goodfwsum Lesara /

## Naad og Fridur af Gude Fodur og Drottne vorum JEsu Christo med Heilags Anda Hiaalpsod og Upplysingu.

Marger hafa Lyst til ad lesa Historiur og Søgu-Bækur, og eru giarnañ nalæger ſþar sem þvilijkt er uñ Hønd haft, hvad øngvañ veigeñ er Lastverdt eñ miklu framar Lofsverdt, þvi soddañ Sagna-Bækur eru ei alleinasta til Skiemtunar og Dægrastyttingar, helldur og svo til Froodleiks og Lærdooms. Eg meina þær Historiur sem med Rokum og Sañendum eru samañsettar, eñ ecke Skrøk-Søgur og Hiegoomleg Æfeñtijr.

Eñ a medal allra Fraasagna, er eingeñ agiætare Naudsynlegre og Nytsamlegre eñ Historia vors DRottens JEsu Christi, sem þeir Heilogu Gudspialla-Meñ, Mattheus Marcus Lucas og Iohannes hafa epter Heilags Anda Jñblæstre skrifad og samsett, þvi þar faaum vier og fiñum hañ riettu Froodleik er oss mest umvardar, sem er uñ Saaluhiaalp vora, hvør ed saleñ og foolgeñ er i riettre Peckingu JEsu Christi, so sem hañ siaalfur vottar hia Joh. 17. Cap. so seigiande; Pad er þad eilijfa Lijfed ad þeir þecke þig (Fodureñ) ad vera sañañ Gud og þañ þu sender JEsum Christum.

J Lijfs Historiu JEsu Christi faaum vier og fiñum allt þad sem oss er naudsynlegt ad vita, Trwa, giora og varast. Par fiñum vier Huggun i Mootlætenu, Glede i Medlætenu, og Lærdoom i Faafrædenu, so hvør Christeñ Madur sem hana vel kañ, og veit sier hana riettelega i Nyt ad færa, hañ maa laata sier þar med nægia, so sem þetta gamla Vers hlioodar.

Si

Si Christum bene scis, satis est si cætera nescis.
Si Christum nescis, nihil est si cætera discis.

Pad er, ef þu veitst og þecker Christum vel, þa ma þad duga, þo þu kuñer ecke añad fleyra; Eñ þecker þu ecke Christum riett, þa er þad øngvu nytt, hvad sem hellst þu lærer þar fyrer utañ.

Þessa Kuñattu hefur sa merkelege Guds Madur Postuleñ Paall so mikels acktad (jafnvel þo hañ være eirn Haalærdur Madur, uppfrædder i Gydingaña Speke til Foota Gamalielis, Act. 22.) ad hañ helldur allañ añañ Lærdoom og Kuñattu, sem ecke neitt þar hia ad reikna, hvors vegna hañ so til Ords tekur, 1. Cor. 2. Eg hiellt mig eckert vita ydar a medal, utañ JEsum Christum, hañ Krossfesta.

Þetta hafa eirneñ vel og vandlega athugad marger adrer gooder og Gudhrædder Meñ a ymsum Tijmum, a medal hvorra nockrer hafa sier fyrer Hendur teked, ad koma þeim fioorum Gudspiallamoñum i eitt, og giøra þar af eina samfleitta Historiu, so sem ad voru þesser, Tatianus hver ed lifde um þañ Tijma, þa lideñ voru fra Frelsarans Fæding, 170 Ar. Ammonius sem var a Døgum, Anno Christi 230. Evsebius Cæsariensis Anno. 320 Epiphanius, Anno 380. Augustinus, Anno 400. Petrus Commestor, Anno 1160. Ludolphus de Saxionia, Anno 1330. Iohannes Gerson, Anno 1400. Og þar epter Andreas Osiander, og adrer fleyre. Eñ med þvi ad sier hver þessara hefur sijna eigeñ Methodum og Adferd brwkad, fæster sønnu, og þeim kiemur ei allstadar samañ, bæde um Tijmañ og Rød Frasagnaña, þa hafa þeir þrijr Haalærdu Meñ, og Lærefedur i heilagre Ritningu, D. Martinus Chemnitius, D. Polycarpus Lyserus og D. Iohannes Gerhardus þvilijkt Verk



sier

fier fyrer Hendur teked, og sijdast allra Harmoniam Evangelicam, samanskrifad wt af þeim fioorum Gudspiallamoñum; Par med vandlega athugad Aariñ Hierviftareñar Herrans Christi og einkum hañs Predikunar Embættis, sem og eirneigeñ Rod Frasagnañа, hvad fyrre, edur hvad sijdar hefur tilbored; Hvort Merkelega Verk D. Chemnitius hefur fyrst uppbyriad og framkvæmt allt til 13. Capitula þridia Partz, þar ed gietur uñ Lækning eins Spitelsks Mañs. Pa hefur D. Lyserus vidteked, og uppbyrindu Verke framhallded allt til 12. Capitula þess 5. Parts, hvar ed gietur uñ Uppvakning Lazari af Dauda, Par fra og allt til Enda hefur D. Gerhardus Harmoniam Continuerad og farsællega fullkomnad, hvort þeirra Verk makleg maa kallast ollu Lofe og Hrooste meira og Ypparlegra.

Hefe eg nu i Nafne DRottens laated þessa Book a Prent wtgaanga, Riett epter þvi Forme og Rod, sem aadurgreinder Prijr Haalærder Meñ hafa sett og samed, uppaa þad sem flestum mætte kuñug verda Lijfs-Historia Vors DRottens JEsu Christi, hvor hier er oll iñfomeñ i Eitt wt af þeim Fioorum Gudspiallamoñum. Eñ hid Sierlegasta sem mier þootte ei Onaudsynlegt Lesaranum ad undervijsa, Er þetta.

1. Uñ Capitula Fiolldañ, hvorn mier syndest hentugra rookud ad samañdraga, þvi i þeirre Stoorn Harmonia, siñ aa Latinu er wtgeingeñ, med Utleggingu i Tveimur stoorum Portum i Folio, Eru alls 218. Capitular. Sumer miog stutter og ei meir eñ fææinar Lijnur, Hvor Capitula Fiollde mier syndest ei vel hlyda so lijtillre Book sem þesse er, Par syrer hafum vær samañsleiged i Eitt, Stundum Tveimur, Stundum Premur Capitulum, epter þvi sem hentugast synest, og best aa stoodst, Adru er hier engvu umbreitt.

2. Pad vidvijkur Utl.ggingu Gudspiallegrar Historiu, þa hafa þeir goodu Meñ, sem Harmoniam hafa samañteked, ecke nya Utlegging giørt, helldur epterfylgt Latinskre Versione Erasmi Roterodami so sem Chemnitius medkieñer i Formaalanum. Eñ vær høfum hier epterfylgt þeirre sijdare Editione Bibliuñar Islendsku, hvøria miñ Saaluge Fader Herra Thorlaakur Skwla son (blessadrar Miñingar) hefur Prenta laated, þvi bæde er hun algeingeñ hier i Lande og riett samhlioода Utlegging Lutheri, Hvørs vegna vær høfum oss vid hana stadfastlega hallded, og meir umhugad vered Bibliuñar eigeñ Ord ad brwka og eckert undañ fella, eñ ad umbreita nockru, edur ad koma Historiuñe i miwkare Stijl. Og so sem hier er eckert undañfellt af þvi sem Gudspialla-Meñeraer hafa skrifad, svo er hier og svo aungvu vidauked i Historiuna, nema sumstadar þar saaein Ord eru sett in Parenthesi til betra Skilnings, einkum þesse Ordakorn, og, eñ, þvi, hañ, edur oñur þvilijk.

Þess vil eg og so hier med gieta, ad sa Heidurleige og Haalærde Mañ, Sr. Paall Biørnson ad Selaardal, hefur epter Osk miñe og Forlæge sier fyrer Hendur teked, ad wtleggia Nya-Testamented sem næst ma komast þeim riettasta Høfud Texta er a Grisku er wtgeingeñ, hvad hañ hefur og so Kostgiæfelega giort og frañkvæmt, og vil eg med Hiaalp DRottens tilstiaa, ad þesse hañs Versio og Utlegging mætte med Tijdeñe aa Prent wtgaanga, ef Gude þocknast ad lijda mig nockra Stund, og giefur Lijf og Heilsu.

3. Er þad athugande ad stundum koma frañ i Harmonia miøg lijk Efne og nær eins ordud, eñ Krijngumstæðurnar kuña þo ad syna, ad þad sieu adgreind Efne. Pad er og ecke helldur olyklegt ad lijker Vidburder hafe skied optar eñ einusiñe, og ad DRotteñ vor JEsus Christus hafe af Asetninge sama Ordatiltæke brwkad tijdum, so þaug skylldu oss þvi helldur i Miñe loda.

4. Stundum skier þad ad eirn Gudspiallamadur hefur

 þa

þa Historiu edur Maals-Grein sijdar, sem añar setur fyrr, en þegar þeir eru aller samañborner, þa vijsar ætijd einhvør þeirra þa riettu Nød, hvad hid sama þeir Haalærdu Meñ Authores Harmoniæ hafa vel og vandlega athugad.

5. Pad ber og so opt til, ad Eirn Gudspiallamadur hefur þa Historiu edur þad Efne, sem Añar hefur ecke, Stundum hefur Eirn þar fleyre Ord, sem Añar hefur færre i Einu og sama Efne, Stundum brwka Gudspiallameñerner Tveir eda fleyre, Riett sömu Ord og sömu Meiningar. Þetta audsyna þeir litlu Latinsku Bookstafer, sem allvijda framkoma i þessare Book in Parenthesi, eñ þegar lesen er Bookeñ, þa skal hlaupa yfer þessa Smaa-Stafe, þvi þeir giøra ei añad eñ vijsa til hvad sierhvør Gudspiallamadur hefur skrifad, edur til-lagt, og hvar Tveir edur fleire brwka riett sömu Ord, ellegar þvi nærre, Hvad best kañ sjaast af þvi Tøblukorne, sem sett er næst epter þeñañ Formaala. Eñ þad er merkelegt i þessare Harmonia Evangelica, hvad ægiætlega Gudspiallamoñunum ber samañ, hvar af Eirn og Serhvør maa Lijoslega sjaa, æ hvad sierkum Stofne vor Christeleg Trw stendur, og hvad Oraskañlegur ad sie þeñar Grundvøllur.

6. Vid Harmoniam sjaalfa er auked Appendice, sem er Fyrst um Framgaang Evangelii, epter Christi Himnafør, wt af Fyrsta og Ødrum Capit. Actorum. Eñ þeir sem meira vilia þar um lesa, þeir lese framvegis Postulaña Giørninga-Book. Þar næst er vidauked stuttre Lijf-Søgu þeirra Toolf Postulaña og Gudspiallamañaña Marci og Lucæ, þvi þad syndest vel hlijda þessare Book, so sjaast mætte hvar þeir hafa kiendt og Predikad Guds Ord, og hvørneñ þeir hafe sijnar Kieñingar endad og um sijder Gud rækelega vidskiled. J Pridia Lage er vidauked Historin Nidurbrots og Foreydingar Jerusalems Borgar, um hvøria Christur hafde ædur Spaad og Fyrersagt, Sem Lesa maa i 14. og 20. Capitulum Fimta Partsins

7. Historiurnar sem framkoma i þessare Book eru settar med Smaa-Stijl, eñ Kieñingar og Lærdoomar Herrans

Christi

Christi med stærre Stijl, og þad sama til nockrar Adgreiningar; Eirneñ hefe eg allvijda iñsæra lated Figurur sem flestar eg hefe kuñad til ad sa, þvi Figurur giora ei alleinasta Prijde eirne Book helldur giefa þær og so Skilning, og gooda Eptertekt hess, sem þær uppahliooda.

Paneñ er nu þesse Book fyrer Hialp og Adstod DRottens fullkomnud, og hefe eg brwkad hier til Lidsemd Heidurlegs og Vel-lærds Kieñemañs, Sr. Odds Jonssonar, Kyrkiu-Prests i Skalhollte, og añra Priggia Erlegra ungra Karla Heimilis-Maña miña og Smaa-Sveina, einkum ad athuga vandlega Harmoniam edur Samhliood an Gudspiallamañaña, og samañbera hana vid þa Islendsku Biblinna, sem og eirneigeñ ad Corrigera og samañlesa þad sem þryckt hefur vered.

Eñ hafe nockud Ovilliande yfersiest, þa bidium vier God fwsañ Lesara þad ad Leidrietta og Lesa i Maaled.

Eilijfur Almaattugur Gud, i hvørs Nafne þetta lijted Verk, er Fyrst byriad og nu um sijder Farsællega Fullendad, hañ veite og giefe Naadarsamlega, ad þad mætte vera hañs Guddoomlegum Vilia Þocknanlegt og Þægelegt, hañs Heilagasta Nafne til Lofs og Dijrdar, Eñ Goodum Møñum og Guds Søfnude hier i Lande til Gagns og Goodrar Nytsemdar i JEsu Nafne.

Eñ lijka sem eg Dedicerade og tileinkade þa fyrstu Book sem prentud var hier i Skalhollte (sem var Paradijsar Lykell edur Meditationes Sanctorum Patrum) øllum goodum og Erlegum Møñum meire haattar og miñe, þessa Lands Jñbyggiurum, so vil eg og eirneñ þessa Book Dedicerat hafa øllum Gøfugum og Gudhræddum Matronum, samt Erlegum Dande-Kviñum og Meyum hier a Lande, til Gudrækelegrar Ydkunar, oskande þeim jafnframt Guds Fodurlegrar Naadar, JEsu Christi Asijsemdar, og heilags Anda Upplysingar, med allskonar Blessan Saalar og Lijkama bæde i Jñgaungu þessa nya Sumars sijn og eirneñ þess Framfør og Utgaungu, og ætijd end-

endrarnær, allt iñ i Eilijft Lijf, hvar ed vera muu Glede oan Hrygdar, Unadsemd oan Otta, Sæla oan Enda, þangad ad komast og þar ad vera uñ alla Eilijfd, uñe oss ollum og veite Gud Fader fyrer blessada Forþienustu sijns Elskúlegasta Sonar, vors DRottens JEsu Christi þess Krossfesta, Amen.

Skaalh. 16. Apr. Año 1687. Þordur Th. S.S.S.

N B. Þeña Formaala hafa Meñ laated hallda sier, svo ei brjaaludust Ord Auctoris i neinu, og kañ hvør Eiñ þar af ad sioa, hvilijk vered hefur su Fyrre Editio, og i hvøriu þesse fraa heñe mismunar, sem er ad Letre og Tijma alleinasta. Og Krossgaungu Christi hefur hier vered vidauked, epter Schematographia Sacra, (sem Meñ Almeñelega kalla Passional) er þryckt er i Skaalhollte Anno 1695.

Merking þeirra litlu Latinsku Bookstafa, er sumstadar framkoma i þessare Book, in Parentheſi.

[á] Mattheus.
[b] Marcus.
[c] Lucas.
[d] Johannes.
[e) Mattheus, Marcus.
[f] Mattheus, Lucas.
[g] Mattheus, Johañes.
[h] Marcus, Lucas.
[i] Marcus, Johannes.
[k] Lucas, Johannes.
[l] Mattheus, Marcus, Lucas.
[m] Mattheus, Marcus, Johannes.
[n] Mattheus, Lucas, Johannes.
[o] Marcus, Lucas, Johannes.
[p] Mattheus, Marcus, Lucas, Johañes.
[q] Acta Apostolorum (Postulaña Giørningar.)

# Historia
# Vors Herra

JEsu Christi, umm þann Tijma er hann syneleiga umgeckst hier a Jordu, samannskrifud af þeim fioorum Gudspiallamonnum Mattheo, Marco, Luca og Johanne.

Formaale hins Heilaga Johannis Gudspiallamans, inehalldande Grundvoll, Merg og Meining Gudspiallegrar Historiu.

## Johannes i Fyrsta Capitula.

Upphafe var Ord, og þad Ord var hiaa Gude, og Orded var GUD. Þad sama var i Upphafe hiaa Gude. Aller Hluter eru fyrer þad giorder, og aan þess er eckert giort hvad giort er. J honum var Lijfed, og Lijfed var Lioos Mannanna. Og Lioosed skein i Myrkrunum, og Myrkuren hafa þad eige hondlad. Þar var eirn Madur af Gude send-


ur,

ur, sa hiet Johañes: Hañ kom til Vitnisburdar, ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu, ad aller skylldu fyrer hañ trwa. Eige var hañ Lioosed, helldur ad hañ bære Vitnisburd af Lioosenu. Pad var pad sañа Lioos, hvørt ed upplyser alla Meñ, sem koma i peñañ Heim. Pad var i Heimenum, og Heimureñ var fyrer pad giørdur, og Heimureñ peckte pad eige. Hañ kom til siñar Eignar, og hañs eigeñ medtooku hañ eige. Eñ so marger sem hañ medtooku, pa gaf hañ peim Makt Guds Børnum ad verda, peim er ꜳ hañs Nafn trwa. Peim sem ecki af Bloodenu nie af Holldsens Villd, nie Mañsins Villa, helldur peim sem af Gude eru borner. Og Orded vard Holld, og Bygde med oss, og vier sꜳum hañs Dyrd, Dyrd so sem Eingietens Sonar, af Fedurnum fullañ Nꜳdar og Sañleika.





Fyrste Partur

# Bookareñar

Seiger frá Gietnadi og Fæding Johañis Skijrara, og hañs Predikun; Sømuleides Gietnadi og Fæding HErrans Christi, med ødru fleira sem Gudspiallameñerner skrifa, um̃ hañs Ungdøom og Uppvøxt, þar til hañ hoof sitt Predikunar Embætte.

## I. Capitule.

Um̃ Getnad Johañes Skijrara, Luc. 1.

I Tijd Herodis Juda Kongs, Var Eirn Prestur er Zacharias hiet af Skipte Abia og hañs Hwsfrw var af Døtrum Arons, su er hiet Elisabeth. Eñ þaug voru bæde Riettlaat fyrer Gude, og geingu i øllum Bodordum og Setningum DRott eñs Ostraffañlega. Þaug áttu eckert Barn, þvi ad Elisabeth var Obyria, og bæde þaug voru vel Aulldrud.

Eñ so bar til þa hañ flutte Prestlegt Embætte, fyrer Gude, at Tijma hañs Skiptes. Epter Sid veniu Kieñemañskaparens. Og er hønum hlotnadest ad hañ skyllde veifa Reykelsenu, gieck hañ iñ i Mustere DRottens. Og allur Foolks Fiølldeñ var fyrer utañ, og badst fyrer um Reykelses Veisunar Tijmañ.

Eñ hønum byrtest Eingell DRottens standande at hægra Veg Reykelses Alltaresens. Og Zacharias vard hræddur er hañ sa hañ, og Otte kom yfer hañ. Eñ Eingelleñ sagde til hañs; Ott ast þu ecke Zacharia, þviad þijn Bæn er heyrd, og Elisabeth Eigeñ-Kona þijn mun þier Son fæda, og hañ skalltu Johannes ad Nafne kalla. Og hañ mun verda mikell fyrer DRottne. Vijn og afeingañ Dryck mun hañ ei drecka, og þegar i Moodur-Kvide mun hañ uppfylltur verda af Heiløgum Anda. Og mørgum Israels Bornum mun hañ snwa til Guds DRottens þeirra. Og hñ mun fyrer hønum framgaanga i Anda og Krapte Eliæ, so ad hñ snwe Hiortum Fedrañа til Barnañа, og Vantrwudum til Kiænsku Riettlaatra, ad tilbwa so DRottne Reidubwed Foolk.

Og Zacharias sagde til Eingelsens, af hvøriu skal eg þad vita? Þviad er eg gamall, og Hwsfrw mijn er komeñ til Ara siña? Eingelleñ svarade og sagde til hañs, Eg em Gabriel, sa er frame fyrer Gude stendur, og eg em sendur ad tala vid þig, ad eg bode þier þetta. Og sia, ad þu munt

Maal-

Mallaus verda, og ei talad gieta, allt til þess Dags, þa þetta mun framkoma, fyrer þvi ad þu trwder eige mijnum Ordum, þau er upp skulu fyllast aa sijnum Tijma.

Og Foolked beid epter Zacharia, og undradest þad hañ dvalde so leinge i Musterenu. Eñ er hañ gieck wt, gat hañ eige talad vid þaa. Oa þeir formerktu, ad hañ munde Syn sied hafa i Musterenu. Og hañ bente þeim og var Maallaus. Pad skiede og, þa er lidner voru Dagar hañs Embættes, ad hañ gieck heim i sitt Hws. Eñ epter þaa Daga vard hañs Hwsfrw Elisabeth þwngud, og leinde sier Fim Maanude, oa sagde: Pañeñ giørde Drotteñ vid mig, aa þeim Døgum hañ aaleit mig, þa ed hañ villde burt taka mitt Hneixle, þad eg bar aa millum Maña.

# II. Capitule.

## Aettartala fraa Abraham til Josephs Festar-Mañs Mariu Meyar.

### Matth. 1.

Þesse er sw Book um Fæding JEsu Christi, Sonar Davids, Sonar Abrahams.
Abraham gat Isaac.
Isaac gat Iacob.
Iacob gat Iuda (og Brædur hañs).
Juda gat Phares og Saram af Thamar.
Phares gat Hezron.

| | |
|---|---|
| Hezron gat | Ram. |
| Ram gat | Aminadab. |
| Aminadab gat | Nahaſſon. |
| Nahaſſon gat | Salma. |
| Salma gat | Boas, af Rahab, |
| Boas gat | Obed, af Ruth, |
| Obed gat | Ieſſe. |
| Jeſſe gat Kongeñ | David, |
| David Kongur gat | Salomon, af þeirre ſem var Hwſfrw Uriæ. |
| Salomon gat | Roboam, |
| Roboam gat | Abia, |
| Abia gat | Aſa, |
| Aſſa gat | Ioſaphat, |
| Joſaphat gat | Ioram, |
| Joram gat | Oſia. |
| Oſia gat | Iotham, |
| Jotham gat | Achas, |
| Achas gat | Ezechia. |
| Ezechia gat | Manaſſe, |
| Manaſſe gat | Amon, |
| Amon gat | Ioſia. |
| Joſia gat | Iechonia og Brædur hañs, uñ Babyloniſkañ Herleidingar Tijma. Og epter Babyloniſka Herleiding, gat |
| Jechonia | Sealthiel, |
| Sealthiel gat | Zorobabel, |
| Zorobabel gat | Abiud, |
| Abiud gat | Eliachim, |

Eliachim

| | |
|---|---|
| Eliachim gat | Asor. |
| Asor gat | Zadoch, |
| Zadoch gat | Achin, |
| Achin gat | Eliud. |
| Eliud gat | Eleasar, |
| Eleasar gat | Mathan, |
| Mathan gat | Iacob. |
| Jacob gat | Ioseph Mañ Mariu, af |

hvørre ed fæddur er JEsus sæ er kallast Christur.

Aller Ætt-Lider fræ Abraham allt ad David eru Fioortan Lider. Og fræ David allt til Babyloniskrar Herleidingar, eru Fioortan Lider. Og fræ Babylonïskre Herleidingu allt til Christum, eru Fioortan Lider.



# III. Capitule.

## Um Gietnaden Christi Luc. 1.



ENN a hinum Siotta Manude (fraa Gietnade Johañes Skijrara) var Gabriel Eingell sendur af Gude i eina Borg i Galilæa, sem heiter Nazareth. Til eirnrar Meyar, er trwlofud var einum Mañe er Joseph hiet, af Hwse Davids, og Heite Meyareñar var Maria. Og Eingelleñ kom Jñ til heñar og sagde, Heil siertu Naadarfulla, DRotteñ er med þier, Blessud ertu aa medal Kveña. Eñ þa hun saa hañ, vard hun hrædd af hañs Ordum, og þeynkti, hvilijk Kvedia er þetta? Og Eingelleñ sagde til heñar, Ottast þu eige Maria, þviad þu fanst Naad hiaa Gude. Siaa þu munt Gietnad faa i Kvide þijnum, og munt Son fæda og hañs Nafn skalltu JEsus kalla. Hañ mun mikell verda og kallast Sonur hins Hædsta. Og GUD DRotteñ mun giefa hønum Stool sijns Fodurs Davids. Og hañ mun vera Kongur yfer Hwse Jacobs ad Eilijfu, Hañs Kongs-Rijkes mun og eingeñ Ender verda. Pa sagde Maria til Eingelsens, hvørneñ skal þad gaanga til, med þvi eg veit af øngvum Mañe? Eingelleñ

eñ svarade og sagde til heñar: Heilagur Ande mun koma yfer þig, og Krap:ur hins Hædsta mun yferskyggia þig, af þvi, ad þad hid Helga, sem af þier mun fædast, skal nefnast Sonur Guds. Og siaa þu, ad Elisabeth Frændkona þijn, geingur þwngud ad einum Syne i heñar Elle, og þesse er heñar Siötte Maanudur, sem hallden̄ var Obyria. Pviad hiaa Gude er eingen̄ Hlutur Omaattugur. Eñ Maria sagde, Siaa, eg em Ambaatt DRottens, verde mier so sem þu hefur sagt, og Eingellen̄ skilde vid hana.

# IV. Capitule.

## Um̄ Vitian Mariæ til Elisabetar

Luc. I.

ENN aa þeim Dögum stood Maria upp, og gieck med Flijter uppaa Fallbygder til Juda Borgar. Og kom i Hws Zachariæ, og heilsade Elisabeth. Og þad skiede so, þa ed Elisabeth heyrde Heilsun Mariu, ad Barned spratt upp i heñar Kvide. Og Elisabeth vard full af Heilögum Anda, kallade upp haarre Rödu og sagde: Blessud ertu aa medal Kveña, og blessadur er Avoxtur Kvidar þijns. Og hvad-

añ kiemur mier þetta, ad Mooder DRottens mijns kiemur til mijn? Siaa þu, þa ed Rodd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barned upp med Fognude i mijnum Kvide. Og sæl ertu sem trwder, þviad þad mun fullkomnast, hvad þier var sagt af DRottne. Og Maria sagde.



Saal mijn upphefur DRotteñ, og Ande miñ gledst j Gude Frelsara mijnum, Þviad hañ leit aa sijna aumu Ambaatt. Siaa, Hiedañ af munu mig Sæla prijsa allar Ætter. Þviad hañ giorde mykla Hlute vid mig, sa er Volldugur er, og hañs Nafn er Heilagt. Og hañs Myskunsemd varer aan Aflaats, Æ og alla Tijma hiaa þeim sem hañ Ottast. Hañ fremur Makt med sijnum Armlegg, og sundurdreifer Dramblaatum i Þonkum þeirra Hiarta. Volldugum hrinder hañ af Sto-

ole og upphefur Lijtelaata. Hwngraaa fyuer hañ Giædum, og Rijka lætur hañ faafeinga. Hañ miñest Myskunar, og hiaalpar a Fætur sijnum Pioon Israel. So sem hañ talade til Fedra vorra, Abrahams, og hañs Sædis ad Eilijfu.

Og Maria var hiaa heñe svo nær sem Priaa Maanude, og foor þar eptar aptur til sijns Heimkyñis.

## V. Capitule.

Uñ Fæding Johañis Skijrara, Luc. I.

OG Elisabethar Tijd kom, ad hun skyllde fæda, og hun fædde siñ Son. Og er Grañar heñar og Naafrændur heyrdu,



ad DRotteñ hafde giort mykla Myskun a heñe, Samglodduft þeir med heñe. Og þad skiede a

Attunda

Attunda Deige, þa þeir komu ad Umskiera Barned, og nefndu hañ epter sijnum Fødur, Zachariam. Eñ Mooder hañs svarade og sagde: Ongvaneigeñ, helldur skal hañ Johañes heita. Þeir sogdu til heñar: Þar er þo eingeñ i þiñe Ætt sem so heiter. Eñ þeir bendtu Fødur hañs, hvad hañ villde ad hañ hiete. Og hañ beiddest Knefa-Spiallds, skrifade og sagde: Hañ heiter Johañes. Og þeir undrudust aller. Og jafnskiott laukst upp hañs Muñur og Tunga, og hañ talade, Lofande Gud. Og Otte kom yfer alla hañs Nagraña, og allt þetta sm̃ skied var, vijdfrægdest um̃ allar Fiallbygder i Judea. Og aller þeir er þad heyrdu, lögdu þad uppa Hiartad og sögdu: Hvor grunar þig ad þetta Barn verde? Þviad Hond DRottens var med honum. Og Zacharias Fader hañs fyllltest af Heilogum Anda, Spaade og sagde.

Lofadur sie Gud DRotteñ Jsraels, þvi ad hañ vitiade og Frelsan giorde sijnu Foolke. Og hañ uppreiste oss Saaluhiaalpar Horn, i Hwse sijns Þioons Davids. So sem hañ talade Fordum fyrer Muñ siña Heilogu Spaamaña. Ad hañ frelsade oss i fraa vorum Ovinum, og af Hende allra þeirra sem oss hata. Og giorde Myskunsemd vid Fedur vora, og minntest aa siñ Heilagañ Saattmaala. Og aa þad Sære er hañ soor Fodur vorum Abraham, ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyst er af Hende vorra Ovina, Þioonudum honum aan Otta, alla vora Lijfdaga, J Heilagleika og Riett-

Riettlæte, sem honum þocknast. Og þu Barn-korn munt kalladur verda Spamadur hins Hæd-sta, þviad þu munt fyrer reña Auglite DRottens, ad tilbwa hañs Vegu. Og ad giefe hañs Foolke Skilning Saaluhiaalpareñar, sem er i Fyrergief-ningu Synda þeirra. Fyrer þa Hiartgroona Myskun Guds vors, i hvorre hañ vitiade vor, upp-runeñ af Hædum. Ad lijsa þeim i Myrkrum og i Daudans-Skugga sitia, til ad greida Fætur vora a Veg Fridarens.

Eñ Barned vox upp, og styrktest i Anda, og var a Eydemorkum, allt til þess er hañ skyllde ganga fram fyrer Israels Foolk.

# VI' Capitule.

## Vitran Josephs um Leindar-Doom Getnadarens Christi. Matth. I.

ENN JEsu Christi Fæding gieck til a þeñañ Haatt. Nær ed Maria hañs Mooder var trwlofud Joseph, adur eñ þau komu samañ, fañst hun Olett af Heilogum Anda. Eñ Joseph Madur heñar var Riettvijs og villde þyi eige Ofrægia hana, eñ þeinkte þo ley-nelega ad skilia vid hana. Eñ sem hañ huxade þetta. Sia: Pa vitradest honum Eingell Drott-ens i Draume, og sagde, Joseph Sonur Da-vids, þu skallt eige ottast ad taka Mariam þij-na Kviñu til þijn, þviad hvad med heñe fædt er,

þad

þad er af Heilögum Anda. Og hun mun Son̄ fæda, og hañs Nafn skalltu JEsus kalla; Þvi ad hañ mun frelsa sitt Foolk af þeirra Syndum. Eñ allt þetta skiede, svo ad uppfyllteſt hvad sagt er af DROttne fyrer Spaamañeñ, er seiger: Siaaed: ein Mey mun þwnguð verda, og Son fæda, og hañs Nafn skal kallast Emanuel, hvad er þijdest, Gud med oss. Eñ þa Joseph vaknade af Svefne, giorde hañ so sem Eingell DRottenis hafde hønum boded, og took sijna Eckta-Konu til sijn, og kiende heñar eige, þar til hun fædde Son siñ frumgieteñ, og kallade hañs Nafn JESUS.

# VII. Capitule.

## Um̄ Fæding og Um̄skurn Christi,

Luc. 2.

OG það bar til i þañ Tijma, ad það Bod gieck wt fraa Keisaranum Augusto, ad Heimureñ allur skyllde Skattskrifast. Og þesse Skattskrift var hin allra fyrsta, og skiede i þañ Tijma, þa Cyrenius var Landstioornare i Syria. Og aller foru ad laata skrifa sig nidur til Skatts, hver til siñar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilea wr Borgeñe Nazareth, upp i Judeam til Davids Borgar, su er kallast Bethlehem, af þvi ad hañ var af Hwse og Kyne Davids, ad hañ liete Skattskrifa sig, med Mariu

siñe

ſiñe trwlofadre Kviñu, ſem var Oliett.
Og er þaug voru þar, þa kom Tijmeñ ad hun



ſkyllde fæda. Og hun fædde ſiñ frumgieteñ Son, og vafde hañ i Reifum og lagde hañ nidur i Jøtunna, þviad þaug hofdu eckert Rwm i Gieſta-
Her-

Herbergenu. Og Fiarhirdarar voru þar i sama Bygdarlage um Grandana vakande, sem voktudu Hiord sijna um Noottena. Og sia: Ad Eingell DRottens giecк til þeirra, og DRottens Byrte lioomade i krijngum þa, og þeir urdu nærsta mioг Ottaslegner. Og Eingellen sagde til þeirra, hrædest ecke; Siaed: Eg boda ydur miken Fognud, þan er skie skal ollu Foolke. Þvi ad i Dag er ydur Frelsaren fæddur, sa ad er Christur DRotten i Borg Davids. Og hafed þad til Merkis, hier munud þiна Barned Reifum vafed, og lagt vera i Jotuna. Og jafnskiott þa var þar hia Einglenum Margfiolde himneskra Hersveita, sem lofudu Gud og sogdu. Dyrd sie Gude i Upphædum, og Fridur a Jordu, og Monum goodur Vilie.

Og þa er Einglarner fooru fra þeim til Himens, toludu Hirdararner hvor vid anan, gongum vær til Bethlehem og siaum þad Verk er þar er skied, sem DRotten hefur Openberad oss. Og þeir komu med Skunda, og fundu bæde Mariam og Joseph, og þar ad auk Barned liggia i Jotune, En þa þeir hofdu þad sied, vijdfrægdu þeir þad Ord wt, sem til þeirra var sagt af þessu Barne. Og aller þeir ed þad heyrdu, undrudust af þeim Ordum, sem þeim var sagt af Hirdurunum. En Maria vardveitte oll þesse Ord, og yfervo þau i sijnu Hiarta. Og Fiar-Hirdararner sneru aptur, Dyrkande og Lofande Gud,

fyrer allt þad, hvad þeir høfdu heyrt og sied, epter þvi sem þad var sagt til þeirra.

Og þa Atta Dagar voru lidner, ad Barned



skyllde umskierast, var hans Nafn kallad JEsus, hvad er kallad var af Einglenum, adur en han var gieten i Moodur-Kvide.

## VIII. Capitule.

### Um Vitringana af Austur-Veige,

Matth. 2.

NÆR JEsus var fæddur i Bethlehem a Gydinga Lande, i Tijd Herodis Kongs. Sia, Pa komu Vitringar af Austur-Lande til Jerusalem og søgdu. Hvar er sa Nijfædde Konungur Gydinga? Vier høfum sied hans Stiørnu i Austur-Lande, og erum komner ad tilbidia han.

En

Eñ er Herodes Kongur heyrde þad, skielfdest hañ og øll Jerusalem med honum. Og liet samañsafna øllum Kieñemaña Høfdingium, og Skr-



istlærdum Lydsins, og spurdest fyrer af þeim, hvar Christur skyllde fædast. Eñ þeir søgdu hon-

um: Til Bethlehem i Judea, hviad so er skrifad fyrer Spamañeñ. Og þu Bethlehem aa Juda-Lande, ert ongvaneigeñ hin minsta aa medal Hofdingia Juda, Þviad af þier mun koma Hertuge, saa er HErra skal vera yfer mitt Foolk Jsrael. Þa kallade Herodes Vitringana til siin Heimuglega, og iñelega adspurde þaa, aa hvorium Tijma ad Stiarnañ hefde laated siaa sig. Og viisade þeim til Bethlehem, og sagde: Fared þier og spyried Jñelega ad Barnenu, og nær þier fiñed þad, þa kuñgiored mier þad aptur, So eg kome eirneñ ad tilbidia þad.

Sem þeir høfdu nu Konungenum heyrt, fooru þeir af Stad, og siaa, ad Stiarnañ sem þeir høfdu sied i Austur-Lande gieck frame fyrer þeim, allt þar til hun kom, og stood þar uppyfer hvar Barned var. Eñ er þeir saau Stiornuna, gloddust þeir harla miøg. Og geingu i Hwsed iñ, og fundu þar Barned med Mariu Moodur siñe, fiellu frañ og Tilbaadu þad, Og ad opnudum sijnum Fiaarsioodum, Gaafu þeir þvi Gull, Reykelse og Myrru. Og Gud skipade þeim i Draume, ad þeir fære ei aptur til Herodem, Og fooru so añañ Veg aptur i sitt Land.

## IX. Capitule.

### Um Hreinsun Mariæ.

Luc. 2.

OG þa Dagar heñar Hreinsunar komu epter Moysis Løgum, hofdu þau hañ til Jerusalem, uppa þad þau lietu



hañ koma fyrer DRotteñ, so sem skrifad stendur

i Logmaale DRottens, ad allt Kallkyns, þad er fyrst opnade siñar Moodurkvid, þa skyllde kallast DRottne helaad. Og ad þaug giæfe Offrid, epter þvi sem seigest i Logmaale DRottens, tvær Turtildwfur, edur tvær ungar Dwfur.

Og siaa: Ad eirn Madur var i Jerusalem, sa er Simeon hiet, og þesse same Madur var Riettlaatur og Gudhræddur, væntande epter Huggun Jsraels, og Heilagur Ande var med honum. Og hañ hafde Andsvar feinged af Heilogum Anda, ad hañ skyllde eige Daudañ siaa, nema hañ sæe aadur fyrre Christ DRottens. Og hañ kom af Andans Tilladan i Mustered. Og þa er Forelldrarner hofdu Barned JEsum i Mustered, ad þaug giordu fyrer honum epter Sidvenju Logmaalsins, þa took hañ Hañ uppaa sijna Armlegge, lofade Gud og sagde.

Nu laatu DRotteñ Pioon þiñ, epter Ordum þijnum i Fride fara. Pviad mijn Augu hafa sied þitt Hiaalpraad. Pad þu tilreidder fyrer ollum Pioodum. Lioos til Uppbyrtinaar heidnum Pioodum, Og til Dyrdar þijns Foolks Jsraels.

Og Joseph og hañs Mooder undrudust þad hvad af honum sagdest, og Simeon blessade þaug, og sagde til Mariu hañs Moodur, siaa, þesse mun setiast til Falls og Upprisu margra i Jsrael, og til Merkes hvorium i moote mun mælast. Og eitt Sverd mun þreyngia sier i giegnum þijna

Saal,

Saal, so ad augliooser verde Hugskots Pænkar margra. Og þar var Aña Spækona, Doott-er Phanuels af Kyne Asser, hun var komeñ til siña Ara, og hafde lifad i Sio Ar med siinum Eignar-Mañe, epter siñ Meydoom. Og hun var nu ein Eckia, hafande Fioora Vetur um Att-rædt, hvor ed eige gieck wr Musterenu þioonande Gude Noott og Dag med Fostum og Bænahall-de. Þesse gieck og Samstundis þar ad, og prij-sade DRotteñ, og sagde af honum til allra þeirra sem Lausnareñar vonudu til Jerusalem. Og er þaug hofdu allt fullkomnad epter Logmaale DRot-teñs, Sneru þaug aptur i Galileam, til Borgar siñar Nazareth.

# X. Capitule.

## Um Flootta Christi i Egyptaland, og Barna-Mord Herodis Kongs.

Matth. 2.

EN þa þeir (Austurvegs Vitring-arner) voru i burt farner, Sia, ad Eing-ell DRotteñs Vitradest Joseph i Drau-me, og sagde: Statt upp, og tak Barned og Moodur þess til þijn, og fly i Egyptaland, og ver þar allt þangad til eg seige þier, Þviad þad er ept-erkomande, ad Herodes mun leita Barnsins ad fyrerfara þvi. Og hañ stood upp, took Barned og Moodur þess til sijn um Noott, og foor i Egyp-

Land. Og var þar allt til Dauda Herodis, Só



þad uppfylltest hvad sagdt er af DRottne fyrer Spamañen, Er seiger: Af Egyptalande kalladi eg Son miñ.

PA Herodes sa nu, ad hañ var gabbadur af Vitringunum, vard hañ Æfa-Reidur, og sende wt, og liet drepa oll Born til Bethlehem, og i ollum heñar Endemorkum, Tvævetur og þadañ af yngre, Epter þeim Tijma, sem hañ hafde wtspurt af Vitringunum. Þa uppfylltest hvad sagt er fyrer Jeremiam Spamañ, sem seiger: J Rama hefur heyrst Kall mikillrar Kveinunar, Oops og Ylfranar, Rachel æpte Born sijn, og villde ei huggast lata, Þviad þad var wtgiordt um þau.

EN Þa Herodes var Daudur, Sia, ad Eingell DROTTeñs byrtest Joseph i Draume

at Egyptalande, og sagde: Stattu upp, og tak Barned og Moodur þess til þijn, og far til Israels



els Jardar, Þviad þeir eru Dauder sem leitudu epter Lijfe Barnsins. Hañ stood upp, took

Barned og Moodur þeſs til ſijn, og kom i Iſraels-Land.

Eñ þa hañ heyrde, þad Archelaus Rijkte i Judea i Staden̄ Fødur ſijns Herodis, Ottadeſt hañ þangad ad fara, og i Draume fieck hañ Bijfalning af Gude, og foor i Alfur Galilea-Lands, og kom og bygde i þeirre Borg, ſem hiet Nazareth, So ad uppfyllteſt hvad ſagt er fyrer Spaamen̄ena, ad hañ ſkyllde Nazareus kallaſt.

# XI. Capitule.

## Um̄ Ungdoom og Uppvoxt JEſu Chriſti, frá þvi hañ var Fim̄ Ara til Prijtugs Alldurs.

Luc. 2.

BARNed JESUS voox upp, og ſtirkteſt i Anda, fullur Vijsdooms og Guds Naad var med hønum.

OG hañs Forelldrar geingu Arlega Ars til Jeruſalem á Paaſka-Haatijden̄e. Og þa hañ var Toolf Ara gamall, Fooru þau upp til Jeruſalem, epter Sidveniu Haatijdaren̄ar. Og er þeir Dagar voru lidner, og þaug fooru Heimleidis aptur, Bleif Barned JESus i Jeruſalem, og Joſeph og hañs Mooder viſſu þad eige. Og meintu þad hañ være hiá Selſkapnum, og þaug voru komen̄ Eina Dag-Ferd, og leitudu hañs á medal Frænda og Kun̄ingia. Og þa er þaug fundu

fundu hañ ei, Geingu þaug aptur til Jerusalem, og Leitudu ad honum. Og þad skiede so epter



Þriaa Daga, ad þaug fundu hañ i Musterenu, Sitiande midt aa millum Lærefedraña, heyrande

þeim

þeim og adspyriande þaa. En aller þeir er hañ heyrdu, undruduſt yfer hañs Skilninge og Andſvorum. Og er þaug ſaau hañ, braa þeim vid. Og hañs Mooder talade til hañs: Son miñ, Pvi breitter þu ſo vid ockur? Siaa þu, Fader þiñ og Eg, Leitudum Harmþrwngeñ ad þier. Og hañ ſagde til þeirra: Hvad er þad, ad þid leited ad mier? Vited þid eige ad mier byriar ad vera i þvi ſem mijns Fodurs er? Og þaug underſtoodu eige þad Ord, ſem hañ mællte til þeirra. Og hañ foor med þeim ofañ, og kom til Nazareth, og var þeim undergiefeñ. Og hañs Mooder geymde oll þeſſe Ord i ſijnu Hiarta. Og JESU jookſt Alldur og Vitſka, og Naad hiaa Gude og Moñum.

# XII. Capitule.

## Uñ Uppbyrian og Framfør Predikunar Johañis Skijrara.

Matth. 3. Marc. 1. Luc. 3.

Petta er (b) Upphaf Evangelij uñ JESum Chriſtum Guds Son, So ſem ſkrifad er hiaa Spaamoñunum: Siaa eg ſende miñ Eingel fyrer þijnu Auglite, ſaa ed tilreide þiñ Veg fyrer þier. Pad er Eins Hroopanda Rodd i Eydemorku, greide þier Veg DRottens, og giored hañs Stigu rietta.

(a) AF Fimtanda Aare Keysaradooms Tiberii Keysara, þa ed Pontius Pilatus var Landstioornare i Judea; Eñ Herodes Fioordungs Hofdingei Galilea, og Brooder hañs Philippus Fioordungs Hofdinge i Iturea, og uñ Trachonitidis Hierod. Og Lisanias Fioordungs Hofdinge til Abilene, þa þeir Annas og Caiphas voru Hofud-Prestar, skiede Guds Bijfalning til Johañem son Zachariæ i Eydemorku (c) Og hañ kom i allt Bygdar Land hiaa Jordan. (h) Predikande Ydranar-Skijrn, til Syndaña Fyrergiefningar, (a) og seigiande: Gioreð Ydran, þvi Himnarijke er nælægt.

(a) HEsse er sa, uñ hvorn ad sagde Esajas Spamadur, og (c) skrifad stendur i hañs Maala-Book, þar er eins Priedikara Rodd i Eydemorku, tilbwed hier Veg DROTTens, og giored hañs Stigu rietta. (c) Aller Daler munu fyllast, og oll Fioll og Haalsar munu lægiast og þad bogied er mun riettast, og hvad Osliett er mun snwast i rietta Vega, og allt Holld mun siaa Guds Hialpræd.

(a) Eñ Johañes hafde Klædnad af Ulfbalds-Haar um, og Olar-Bellte uñ sijnar Lendar, hñs Matur voru Eingesprettur og Skoogar-Hunang.

(e) ÞA gieck wt til hañs Stadureñ Jerusalem og allt Gydinga Land. (a) Og oll Lond hiaa Jordan (e) og lietu sig Skijra af honum i Añe Jordan, Jatande sijnar Synder

(a) ENN þa hañ ſaa nu maraa Phariſees og Saduceos koma til ſiñar Skijrnar, ſagde hañ til þeirra: (e) Og til Folkſins, þeſs er wtgieck



ad Skijraſt af honum. (f) Þier Nodru Kyn, Hvor kiende ydur ad flya fyrer tilkomañde Reide? Af þvi gioꝛed verduga Avoxtu Ydranar. Og (a) þeinked ecke ad þier villdud ſeigia med ſiaalfum ydur, ad Abraham hoſum vier fyrer Fodur, eg ſeige ydur: Mektugur er Gud ad vekia Abraham Born af Steinum þeſſum. Af þvi nu er Auxeñ allareidu ſett til Rootar Triaaña, þvi mun hvort þad Trie, ſem ecke gioꝛer goodañ Avoxt, Uppho ggvaſt og i Elld kaſtaſt.

(c) OG Foolked ſpurde hañ ad og ſagde, Hvad ſkulum vier þa giora? Eñ hañ ſvarade og ſagde til þeirra, Hvor ſem hefur Tvo Kyrtla, hañ

hañ giefe þeim er øngvañ hefur, og ſaa er Viſter hefur, giøre hañ ſlijkt hid ſama. Tollheimtu-Meñ komu og til hañs ad laata Skijra ſig, og ſøgdu til hañs, Meyſtare, Hvad ſkulum vier þa giøra? Eñ hañ ſagde til þeirra, krefied ei meira eñ ydur er fyrerſett. Þa ſpurdu hañ Strijds-Meñ ad og ſøgdu: Hvad ſkulum vier þa giøra? Hañ ſagde til þeirra, kwgied øngvañ nie giøred Oriett, og laated ydur nægia ydar Kaup-Gialld.

EN Þa Foolked grunade og aller þeinktu i ſijnum Hiørtum, ef verda mætte þad Johañes være Chriſtur, ſvarade Johañes og ſagde til allra. (f) Eg Skijre ydur med Vatne, til Ydrunar, eñ ſaa ſem epter mig kiemur er mier ſterkare, hvørs Sko eg em ei verdugur ad bera, nie (b) Framfallande (h) hañs Sko-Þveinge ad uppleyſa, (f) hañ mun Skijra ydur med Heiløgum Anda og Ellde. Hvørs Vind-Skufla er i hañs Hende, og hañ mun hreinſa ſiñ Laafa, og Hveitenu ſafna i ſijna Kornhlødu, eñ Agnernar breña i Oſlockvanlegum Ellde. (c) Og margt añad meira undervijſade hañ og bodade Foolkenu.



2. Partur

# Annar Partur,

## Um þa Adburde er Skiedu a Fyrsta Aare Predikunar Embættis vors DRottens JEsu Christi.

## I. Capitule.

### Ættar-Tala til Adams af Moodur-Ætt Christi.

Luc. 3.

OG JESUS hoof upp ad vera nær Þrætijger Ara, og var halldeñ Sonur Iosephs,

Sa ed var Sonur Eli;
Sa ed var Sonur Mathath,
Sa ed var Sonur Levi,
Sa ed var Sonur Melchi,
Sa ed var Sonur Ianna,
Sa ed var Sonur Iosephs.
Sa ed var Sonur Mathathias;
Sa ed var Sonur Amos,
Sa ed var Sonur Nahum,
Sa ed var Sonur Essi,

Sa

Sat ed var Sonur Nagge,
Sat ed var Sonur Maathz.
Sat ed var Sonur Mathathias,
Sat ed var Sonur Semei,
Sat ed var Sonur Ioseph,
Sat ed var Sonur Iuda,
Sat ed var Sonur Iohanna,
Sat ed var Sonur Resa,
Sat ed var Sonur Zorobabel,
Sat ed var Sonur Salathiel,
Sat ed var Sonur Neri,
Sat ed var Sonur Melchi,
Sat ed var Sonur Addi,
Sat ed var Sonur Kosam,
Sat ed var Sonur Elmadam,
Sat ed var Sonur Her.
Sat ed var Sonur Iesse,
Sat ed var Sonur Eliezer,
Sat ed var Sonur Iorem,
Sat ed var Sonur Mattha,
Sat ed var Sonur Levi,
Sat ed var Sonur Simeon,
Sat ed var Sonur Iuda.
Sat ed var Sonur Iosephs,
Sat ed var Sonur Ionam,
Sat ed var Sonur Eliachim,
Sat ed var Sonur Melea,
Sat ed var Sonur Menam,
Sat ed var Sonur Mathathan,

Sa ed var Sonur Nathan,
Sa ed var Sonur Davids,
Sa ed var Sonur Ieſſe,
Sa ed var Sonur Obed,
Sa ed var Sonur Boos,
Sa ed var Sonur Salmon,
Sa ed var Sonur Nahaſſon,
Sa ed var Sonur Aminadab,
Sa ed var Sonur Aram,
Sa ed var Sonur Eſrom,
Sa ed var Sonur Phares,
Sa ed var Sonur Iuda,
Sa ed var Sonur Iacobs,
Sa ed var Sonur Iſaachs,
Sa ed var Sonur Abrahams,
Sa ed var Sonur Thara,
Sa ed var Sonur Nachor,
Sa ed var Sonur Saruch,
Sa ed var Sonur Ragahu,
Sa ed var Sonur Phaleg,
Sa ed var Sonur Eber,
Sa ed var Sonur Sala,
Sa ed var Sonur Cainan,
Sa ed var Sonur Arphaxad,
Sa ed var Sonur Sem,
Sa ed var Sonur Noe,
Sa ed var Sonur Lamech,
Sa ed var Sonur Mathuſalah,
Sa ed var Sonur Enoch,

Sa ed var Sonur Iared,
Sa ed var Sonur Maleleel,
Sa ed var Sonur Cainan,
Sa ed var Sonur Enos,
Sa ed var Sonur Seth,
Sa ed var Sonur Adams,
Sa ed var GUDS.

# II. Capitule.

## Umm Skijrn JESU Christi og Freisting af Cydemorkuñe.

Matth. 3. og 4. Marc. 1. Luc. 3. og 4.

Og þad skiede (b) at beim Dogum, ad JEsus kom af Galilæa frá Nazareth (a) ad Jordan, til Johañem, ad hañ Skijrdest af honum. Eñ Johañes varnade honum þess og sagde, mier er Þorf ad eg Skijrest af þier, og þu kiemur til mijn? JEsus sagde til hañs laat þu nu so vera, þviad so hæfer oss allt Riettlæte upp ad fylla, og þa liet hañ þad epter honum. (b) Og hañ Skijrdest af Johañe i Jordan. (a) Eñ er JEsus var Skijrdur, stie hañ jafnskiott upp wr Vatnenu. (c) Og þad skiede þa ed JEsus var Skijrdur, og badst fyrer, ad Himeneñ opnadest (a) yfer honum, (e) og Heilagur Ande stie Ofañ i Lijkamlegre

Mynd sem Dwfa, og ein Rødd kom af Himne og saade. (b) Þesse er Sonur miñ Elskulegur, ad hvørium mier velþocknast.



(e) ERR JEsus fullur af Heilsaum Anda, kom aptur fra Jordan, og (b) þa strax (a) var

var hañ leiddur af Anda a Eydemorku, uppa þad, hañ freystadur yrde af Dioflenum, (a) þar var hañ i Fiorutijger Daga i Eydemorku. (h)



Og freystadest af Sathan, (b) og var med Villudyrum, (c) og neytte einkis a þeim Døgum.

Og ad þeim lidnum, (a) þa hañ hafdefastad Fiorutijger Daga og Fiorutijger Nætta, hwngrade hañ um ſijder. Og Freiſtareñ gieck til hañs og ſagde, Ef ad þu ert Sonur Guds, ſeig ad Steinar þeſſer verde ad Braudum. Eñ hañ ſvarade og ſagde, (f) ſkrifad ſtendur, Madureñ lifer eige af einu ſamañ Braude, helldur af ſierhvoriu Orde, ſem framgeingur af Guds Muñe.

(a) ÞA took Diofulleñ hañ med ſier i Borgena Helgu, (c) Jeruſalem, (f) og ſette hañ upp æ Buſt Muſtereſins og ſagde til hañs, Ef þu ert Guds Sonur, ſleig þier hier ofañ af, þvi ad Skrifad er, hañ mun biooda ſijnum Einglum uñ þig, (c) ad þeir vardveite þig. (f) Og æ Hondum bere þeir þig, ſo þu ſteiter ei Foot þiñ vid nockrum Steine. JEſus ſvarade og ſagde til hañs, eñ aptur ſtendur ſkrifad, Eige ſkalltu freiſta DRottens Guds þijns.

OG eñ aptur flutte Diofulleñ hañ med ſier uppæ eitt ofurhætt Fiall, og ſijnde honum (e) æ Augabragde oll Rijke Veralldareñar, ſo og þeirra Dyrd, (f) og ſagde til hañs, (c) allt þetta Vellde og þeſs Dyrd mun eg giefa þier, þvi ad þaug eru mier i Hendur feingeñ, og hvorium eg vil, honum gief eg þaug. (f) Ef þu framfallande tilbidur mig, ſkulu þaug oll þijn vera. Þa ſaade JEſus til hañs, Far burt fra mier Sathan, þvi ſkrifad er, DRotteñ Gud þiñ ſkalltu tilbidia, og honum einum þioona. Og þa (e) ad endudum

ollum

øllum þessum Freistingum (a) forliet Diøfullen̄ han̄, (c) og veik fra hønum um̄ Stundar Saker, (a) og sia ad Einglar komu (c) og þiønudu hønum.

# III. Capitule.

## Tveñer Vitnisburder Johan̄es af Christo a medan̄ han̄ dvaldest i Eydemørkun̄e.

Iohannis I.

Johan̄es vitnade af hønum, kallade og sagde, þesse var sa, um̄ hvørn eg sagde, ad epter mig skyllde koma, sa sem fyrer mig var, þviad han̄ var fyrr en̄ eg. Og af han̄s Fyllingu, høfum vær aller teked Naad fyrer Naad. Þviad Løgmaaled er fyrer Moysen wtgiefed, en̄ Naad og San̄leikur er fyrer JEsum Christum vordin̄. Eingen̄ hefur nockurn Tijma Gud sienan̄, sa Eingietne Sonuren̄ sem i Fødursins Skaute er, han̄ hefur oss þetta kun̄giort.

Og þetta er Vitnisburdur Johan̄is, þa þeir Judar sendu af Jerusalem Presta og Levita ad þeir skylldu spyria han̄, Hvør ert þu? Og han̄ kiendest, og neitade eige. Og han̄ kiendest eige em eg Christur. Þeir spurdu han̄ ad, Hvad þa? Ertu Elias? Han̄ sagde, eige em eg, Ertu þa Spaamadur? En̄ han̄ ansade Nei. Þa søgdu þeir vid han̄, Hvad ertu þa? So ad vier meigum Andsvar giefa þeim er oss wtsendu,

Hvad seiger þu af siaalfum þier? Hañ sagde, Eg em eins Predikara Rodd i Eydemørku, greide



þier Vegu DRottens, so sem sagde Esajas Spa-madur. Og þeir sem wtsenduft, voru af Phar-iseis. Þeir adspurdu hañ og sogdu honum:
Þvi

Þvi ſkijrer þu þa, ef þu ert eige Chriſtur, eiðe Elias, og eige Spaamadur? Johañes ſvarade þeim og ſagde, eg ſkijre med Vatne, eñ hañ er geingeñ midt aa medal ydar, hvorn þier þeckeð ei= ge. Hañ er ſaa ſem epter mig mun koma, ſaa ed fyrer mig heſur vered, hvørs eg em ei verdur ad uppleyſa Skoo Þveinge. Þetta ſkiede i Bethabara hinumeigeñ Jordanar, þar Johañes Skijrde.

# IV. Capitule.

Adrer Tveir Vitnisburder Johañis, af Chriſto, þegar hañ var apturkomeñ wr Eydemørkuñe, til Jordanar. Item uñi Kollun Philippi.

Iohannis 1.

ENN Añars Dagsþar epter, ſier Johañes JEſum komande til ſijn, og mællte. Siaaed, þar er þad Lambed Guds, hvørt ed ber Heimſins Synder. Saa er af hvørium eg ſagde ydur, epter mig kiemur Madur, ſaa fyrer mig var, þviad hañ var fyrr eñ eg. Og eg þeckte hañ eige, Helldur ad hañ yrde opeñber i Jſrael, fyrer þvikom eg ad Skijra med Vatne. Og Johañes vitnade, og ſagde, eg ſaa Andañ ofañ ſtijga af Himnum i Dwfu Lijke, og hañ ſtadnæmdeſt yfer honum. Og eg þeckte hañ ei; Eñ ſaa mig ſende ad Skijra med Vatne, hañ ſagde mier, yfer hvørn þu ſier Andañ Nidur=ſtijga

og yfer honum vera, hañ er sa sem Skyrer med Heilogum Anda. Og eg sa þad, og vitnade, ad sa er Guds Sonur.

ENN Añars Dags epter, stood Johañes eñ og Tveir af hañs Læresveinum. Og sem hañ leit JEsum gaanga, seiger hañ: Siaaed, þad er Lamb Guds. Og þeir Tveir Læresveinar heyrdu hañ tala, og fylgdu JEsu epter. Eñ JEsus snere aptur, og leit þaa sier fylgiande og sagde þeim: Ad hvorium leited þier? Þeir sogdu honum, Rabbi, (hvad ad þijdest Meistare) Hvar aattu heima? Hañ sagde þeim: Komed og siaaed, þeir komu og saau þad, og voru hiaa honum þañ Dag, eñ þad var nær Tijundu Stundu. Eirn af þessum Tveimur, sem heyrde af Johañe, og JEsu epterfylgde, var Andreas Brooder Simonar Petri. Hañ fañ þa aadur siñ Broodur Simon, og sagde til hañs: Vier hofum funded Messiam (hvad wtleggst, Smurdur) og fylgde honum til JEsu. Þa JEsus leit hañ, mællte hañ: Þu ert Simon Sonur Jonas, þu skallt kallast Cephas, þad wtleggst Hellu-Steirn.

ANNars Dags þar epter, villde JEsus ferdast til Galileam, og fiñur Philippum og sagde til hañs: Fylg þu mier epter. Eñ Philippus var af Bethsaida, wr þeirre Borg Andresar og Peturs. Philippus fañ Nathanael, og sagde honum: Vier hofum þañ funded, uñ hvorn Moyses i Logmaalenu og Spaameñerner hafa skrifad: JEsum

SUM Josephs Son af Nazareth. Nathanael sagde til hañs: Hvad mꜳ af Nazareth Gott koma? Philippus sagde hønum; Kom og siꜳ þad. JEsus sꜳ Nathanael koma til sijn, og sagde af hønum: Siꜳed eirn sañañ Jsraelita, i hvørium eingeñ Svik eru. Nathanael sagde vid hañ: Hvar af þecker þu mig? JEsus svarade og sagde til hañs: Adur eñ Philippus kallade ꜳ þig, þa þu varst under Fijkiu-Trienu sꜳ eg þig. Nathanael svarade og sagde til hañs: Rabbi, Þu ert Guds Sonur. Þu ert Kongur Jsraels. JEsus svarade og sagde vid hañ: Þu trwder af þvi eg sagde þier, ad eg hefde sied þig under Fijkiu-Trienu, siꜳ muntu ėñ þessu meira. Og hañ sagde hønum: Sañlega, Sañlega seige eg ydur: Upp frꜳ þessu muñud þier siꜳ Hiñneneñ opeñ, og Eingla Guds stijga upp og ofañ yfer Mañsins Son.

# V. Capitule.

## Uñ Fyrsta Krapta-Verk JESU Christi sem hañ giørde i Cana Galileæ, umsnwande Vatur i Vijn, hvad merkia er skied hafe ꜳ Pridia Deige epter þad hañ apturkomeñ var frꜳ Jordan i Galileam.

Iohannes 2.

OG ꜳ Pridia Deige, vard Brwdkaup til Cana i Galilea, og þar var Mooder JEsu. Eñ JEsus var bodeñ og hañs Læresveinar til Brwdkaupsins. Og er þꜳ þraut

Vijned, sagde Mooder JEsu til hañs: Þeir hafa eige Vijn. JEsus sagde til heñar: Þu Kona,



Hvad hef eg med þig ad giøra? Mijn Stund er ei eñ komeñ. Mooder hañs sagde til Þienarañe, hvad helst hañ seiger ydur, þad giøred. Eñ þar

voru

voru Sex Vatns-Kier af Steine, sett epter Venju Gydingaña Hreinsunar, og hvort þeirra took Tvo eda Þriaa Mælera. JEsus talade til þeirra: Fylled upp Vatns-Kiereñ af Vatne, og þeir fylltu þau allt aa Barma. Og hañ sagde þeim: Auſed nu upp, og færed Kiæmeiſtaranum, og þeir færdu honum. Eñ þa Kiæmeiſtareñ ſmackade



Vijned, þad Vatn hafde vered, og viſſe ecke hvadañ þad kom, eñ Þioonuſtu-Meñerner ſem Vatned juſu viſſu þad, þa kallar Kiæmeiſtareñ aa Brwdgumañ og ſeiger honum: Aller Meñ giefa i Fyrſtu þad gooda Vijned, og nær þeir gioraſt olvader, þa þad hid liettara. Eñ þu hefur geymt hid gooda Vijned allt til þeſſa. Þetta er hid Fyrſta Jardteikn þad JEſus giørde ſem ſkiede i Cana i Galilea, og hañ Opeñberade ſijna Dijrd, og hañs Læreſveinar trwdu aa hañ. VI.

# VI. Capitule.

## Um̃ þaa Fyrstu Paaska sem JEsus hiellt i Jerusalem, epter þad hañ auglystur var, og uppbyriad hafde sitt Predikunar-Embætte, og hvad þar giørdest.

Iohann. 2.

HAr epter foor hañ ofañ til Capernaum, hañ og Mooder hañs, Brædur hañs og Læresveinar, og voru þar ecke leinge. Pa voru nalæger Paaskar Gydinga.



OG JEsus foor upp til Jerusalem. Og fañ i Musterenu sitiande, þaa sem høfdu til Kaups, Naut, Saude, Dwfur, og þaa sem Um̃skipte giørdu aa Peningum. Pa giørde hañ sier Svipu af Streingium, og rak þaa alla wt af Musterenu, med

med Nautum og Saudum, og hratt nidur Peningum og Bordum þeirra er Umſkiptēn giordu. Og ſagde vid þa sem Dwfurnar ſelldu: Bere þier þetta burt hiedañ, og giored eige mijns Foðurs Hws ad Solu-Hwſe. Hañs Læreſveinar hugudu þa um̄, hvad ſkrifad er: Vandlæting Hwſs þijns at mig. Þa ſvaredu Judar og ſogdu honum: Hvort Teikn ſyner þu oſs ad þu meiger þetta giora? JEſus ſvarade og ſagde þeim: Brioted þetta Muſtere, eñ eg vil a Pridia Deige það uppreiſa. Þa ſogdu Gydingar: Þetta Muſtereer uppbygt i Sex og Fiorutiige Ar, eñ þu villt uppreiſa það a Premur Dogum? Eñ hañ talade um̄ Muſtere ſijns Lijkama. Og þa hañ var af Dauda uppriſeñ, Hugleiddu hañs Læreſveinar, ad hañ hafde þetta mællt, og trwdu Ritningune, og þeim Ordum er JEſus hafde talad.

EN̄ ſem hañ var i Jeruſalem, a Paaſka Hatijdeñe, þa trwdu marger a hañs Nafn, þa þeir ſau þaug Takn er hañ giorde. Eñ JEſus trwde þeim eige til ſijn, af þvi hañ þeckte þa alla, og þurfte ei vid ad nockur bære af Mañenum Vitne, þviad hañ ſialfur viſſe hvad med Mañenum var.

# VII. Capitule.

## Um̄ Samtal Chriſti vid Nicodemum.

Iohannes 3.

HAr var Eirn Mañ medal Phariſeaña, Nicodemus ad Nafne, hañ var Eirn af Hofdingium Gydinga. Hañ kom til

JEsu um̃ Noott, og sagde til hañs: Meistare,



Vier vitum ad þu ert Eirn Lære-Fader af Gude komeñ, þviad eingeñ gietur giort þaug Tæikn, sem þu giører, nema Gud sie með hønum. JEsus svarade og sagde til hañs: Sañlega, Sañlega seige eg þier: Nema svo sie ad nockur verde ad nyu Fæddur, hañ kañ eige ad siaa Guds Rijke. Þa sagde Nicodemus til hañs: Hvorneñ kañ Madureñ ad fædast þa hañ er gamall? Eda fær hañ stijged aptur i siñar Moodur-Kvid, og fædst so? JEsus svarade: Sañlega, Sañlega seige eg þier, Nema so sie ad nockur verde Fæddur af Vatne og af Anda, þa gietur hañ ei Iñgeinged i Guds Rijke. Hvad af Holldenu er fædt, þad er Holld, og hvad af Andanum er fædt, þad er Ande. Undrast þu eige, þo eg seige þier, ad ydur byriade ad nyu ad

ad fædast. Vindureñ blæs hvar hañ vill, og þu heyrer hañs Pyt, eñ ei veitstu hvadañ hañ kiemur eda hvørt hañ fer: So er hvør saa sem af Andanum er Fæddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs: Hvørneñ maa slijkt skie? JEsus svarade og sagde til hañs: Ertu Meistare i Israel og veitst ecke þetta? Sañlega, Sañlega seige eg þier, ad vier segium þad vier vitum, og vitnum þad vier sied høfum, og vort Vitne medtake þier eige. Og ef þier trwed eige þa eg seige ydur af Jardneskum Hlutum, Hvørneñ munud þier trwa meiga, ef eg seige ydur af Himneskum Hlutum? Og eingeñ mun fara til Himna, nema saa sem ofañ af Himne hijngad er komeñ sem er Mañsins Sonur, saa sem er aa Himne. Og so sem Moyses upphafde Hogg ormeñ i Eydemørku, Lijka byriar Mañsins Syne ad upphefiast. Ad aller þeir aa hañ trwa fortapest eige, helldur ad þeir hafe Eilijft Lijf.

SO Elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ Eingieteñ Son til þess, ad aller þeir sem aa hañ trwa, Fyrerfarest eige, helldur ad þeir hafe Eilijft Lijf. Þvi eige sende Gud siñ Son i Heimeñ, ad hañ dæmde Heimeñ, helldur ad Heimureñ frelsest fyrer hañ. Hvør aa hañ trwer, dæmest eige, eñ hvør hañ trwer eige, hañ er nu þegar Dæmdur, þviad hañ trwde eige aa Nafn Eingietens Guds Sonar. Eñ þesse er Doomureñ, Liooſed kom i Heimeñ, og Meñerner elskudu meir Myrkred eñ Liooſed, þvi þeirra Verk voru vond. Hvør illa

giorer, sa hatar Liooſed, hañ kiemur og eige til Liooſſens, ad eige ſtraffeſt hañs Verk. Eñ hvør Sañleikeñ giorer, hañ kiemur til Liooſſens, ſo ad hañs Giorder verde augliooſar, þviad þær eru i Gude giordar.

# VIII. Capitule.

Uñ þad vidbar, Epter þad JEſus foor fra Jeruſalem til Judeam, og Siidaſte Vitnisburdur Johañis uñ hañ.

Iohannes 3.

EPter þetta kom JEſus og hañs Læreſveinar til Gydingalands, og hafde ſitt Adſetur þar hia þeim og Skiirde. Eñ Johañes ſkiirde og ſo vid Enon nærre Salim, þviad þar voru Votn morg, þeir komu þangad, og lietu Skiira ſig. Þviad Johañes var eige þa iñlaateñ i Myrkvaſtofu. Eñ þa hooſt ein Spurning af Læreſveinum Johañis vid Gydinga, uñ Hreinſunena.

OG þeir komu til Johañem, og ſogdu hønum: Meyſtare, Sa ſem hia þier var hinumeigeñ Jordanar, af hvørium þu barſt Vitne, Sie, hañ Skiirer, og hvør Madur kiemur til hañs.

JOhañes ſvarade og ſagde: Madur fær ei medteked nockud, nema hønum verde þad af Himnum giefed. Þier erud ſialfer miin Vitne, þad eg ſagde, ad eg være ei Chriſtur, helldur þad eg være

re fyrer honum sendur. Hvor ed Brwdina hef-
ur, sa er Brwdgumeñ, eñ Vinur Brwdgumans
er sa sem stendur og hlijder honum, og gledur sig
yfer Brwdgumans Rodd, sa same miñ Fognud-
ur er nu uppfylldur. Honum ber ad vaxa, eñ mi-
er ad mijnka. Sa sem ad ofañ kiemur, hañ er
yfer ollum: Hvor hañ er af Jordu, hañ er af
Jordu, og um̃ Jordena talar hañ. Eñ sa sem
kiemur af Himne, hañ er yfer ollum. Og hvad
hañ sa og heyrde, þad Vitnar hañ, og eingeñ tek-
ur hañs Vitnisburd. Eñ hvor hañ medtekur,
sa Jñsiglar þad ad Gud sie sañur. Þvi hañ sem
Gud sender, sa talar Guds Ord, þviad eige giefur
Gud Anda af Skamte. Faderen elskar Soneñ,
og allt gaf hañ i hañs Hendur. Hvor hañ trwer
a Soneñ, sa hefur Eilijft Lijf. Eñ hvor hañ
trwer ecke a Soneñ, hañ mun eige sia Lijfed, helld
ur blijfur Guds Reide yfer honum.

# IX. Capitule.

## Um̃ Faangelse Johañis Skijrara.

Matth. 14 Marc. 6. Luc. 3

ANN (c) er Herodes Fioordungs-
Hofdinge straffadest af Johañe fyrer Her-
odiadem Broodur-Konu sijna, og fyrer
allt añad Jllt er Herodes giorde, þa lagde hañ þad
ofañ a þetta allt (b) ad hañ sende wt ad grijpa Jo-
hañem, (a) batt hañ og sette i Faangelse, (e) fyr-

er Saker Herodias Hwsfrwr Philippi Broodur sijns, (b) þvi hañ hafde giptst heñe. (e) Eñ Johañes hafde sagt til Herodem: Ei er þad riett ad þu hafer Broodur-Konu þijna. (b) Pvi veitte Herodias honum Umsaat: Og villde laata aflijfa hañ, eñ gat þo eige. Pvi Herodes Ottadest Johañem, þvi hañ visse hañ ad vera Riettlaatañ og Helgañ Mañ, og vardveitte hañ og hlijdde honum i mørgum Greinum, og heyrde honum giarnañ. (a) Og hañ hefde giarnañ aflijfad hañ, eñ Ottadest Foolked, þviad þad hiellt hañ fyrer eirn Spamañ.

# X. Capitule.

## Uñ Reisu Christi fraa Judea i Galileam i giegnum Samariam, og hañs Samtal vid Samverska Konuna.

Matth. 4. Iohann. 4.

ENN (a) er JEsus heyrde, ad Johañes var gripeñ, (d) og hañ fornam ad Pharisei hofdu heyrt, þad hañ giorde fleyre Læresveina eñ Johañes, og skijrde (þoott JEsus skijrde ei sialfur, helldur hañs Læresveinar) þa forliet hañ Gydingaland, og foor aptur i Galileam. Eñ hañ atte ad reisa uñ Samariam.

ÞA kom hañ i eina Samverska Borg, þa Sichar heiter, nærre þvi Akurlende, er Jacob gaf Syne sijnum Joseph. Og þar var Bruñur Jacobs. Sem JEsus var nu orden Vegmoodur, þa sat hañ aa Bruñenum, þad var nærre

uṁ ſiottu Stund. Pa kom ein Kona wt af Samaria Vatn ad auſa. JEſus ſagde til heñar: Gief þu mier ad drecka. Þvi hañs Læreſveinar voru geingner iñ i Borgena, Fædſlu ad kaupa. Pa ſeiger ſu Samverſka Konañ til hñs, Hvorneñ beider þu mig Dryckiar, þar þu ert eirn Jude, eñ eg em ein Samverſk Kona? Þvi ad ecke hafa Judar neina Uṁgeingne med Samverſkum Meñum. JEſus ſvarade og ſagde til heñar, Ef þu þeckter Guds Giof, og (viſſer) hvør hañ være, ſa hier ſeiger, gief mier ad Drecka, þa beidder þu hañ, og hañ giæfe þier Lifande Vatn. Pa ſagde Konañ til hañs: HErra þu hefur eige þad ſem þu gietur auſed med; Eñ hꝏtt er ofañ i Bruñeñ, eda hvadañ hefur þu Lifanda Vatn? Edur ertu meire Fodur vorum Jacob, ſa ed gaf oſs þeñañ Bruñ? Hañ Drack af hønum og Børn hañs, og hañs Fienadur. JEſus ſvarade og ſagde heñe; Hvør ſem dreckur af þeſſu Vatne, hañ þyrſter aptur. Eñ hvør hañ dreckur af þvi Vatne ſem eg mun giefa hønum, hañ ſkal ei þyrſta eiliiflega, helldur þad Vatn ſem eg gief hønum, mun verda i hønum Vatns-Bruñur ſem ſliſtur til Eilijfs Lijfs. Konañ ſagde til hañs: HErra gief mier þetta Vatn ſo mig þyrſte ei, og ad eg ſkule ei koma hijngad til Vatns-Auſtrar. JEſus ſagde til heñar: Far þu og kalla a Mañ þiñ, og kom hijngad. Konañ ſvarade og ſagde: Eige hef eg Mañ, JEſus ſagde til heñar: Þu ſeiger riett, eige hef eg Mañ. Þvi

ad þu hefur fiñ Meñ haft, og þañ þu hefur nu, er eige þiñ Madur, þetta sagder þu satt. Konañ sagde til hañs, Herra eg sie ad þu ert eirn Spamadur. Fedur vorer hafa a þessu Fialle tilbeded, eñ þier seiged, til Jerusalem sie sa Stadur þar Meñ eige ad tilbidia. JEsus sagde heñe: Kona trw mier, su Stund kiemur, ad hvorke a þessu Fialle, nie til Jerusalem munu þeir tilbidia Fødureñ. Pier tilbidied þad þier vited ei, eñ vier vitum hvad vier tilbidium, þviad Heilleñ er af Judum. Eñ sa Tijme kiemur, og er nu þegar, ad sañer Tilbidiendur munu tilbidia Fødureñ i Anda og Sañleika, af þvi ad Fadereñ vill hafa þa, er hañ svo tilbidia. Gud er Ande, og hvorier hañ tilbidia, þeir skulu tilbidia hañ i Anda og Sañleika. Konañ sagde til hañs: Eg veit ad Messias kiemur, sa sem Christur kallast, og nær hañ kiemur, þa mun hañ undervijsa oss allt. JEsus sagde heñe: Eg em hañ, sa sem vid þig talar. Og i þvi Bile komu hañs Læresveinar ad, og undrudust þvi hañ talade vid eina Kviñu. Po sagde eingeñ, ad hvøriu spyr þu, edur hvad mæler þu vid hana. Eñ Konañ skildest þar vid sijna Krws, og gieck iñ i Stadeñ, og sagde til Fooksins. Komed og siaed eirn Mañ, er mier sagde allt þad eg hefe giort, hvort ad hañ er eige Christur. Pa geingu þeir wt af Stadnum og komu til hañs.

Eñ

ENN þess a mille miutu hans Lærėsveinar hañ at og sögdu: Rabbi, neyt þu. Eñ hañ sagde til þeirra: Eg hefe þa Fædu til ad neyta, af hvörre þier vited eige. Þa sögdu Lærėsveinarner siin a mille, eda hefur nockur fært honum ad eta? JEsus sagde til þeirra: Miñ Matur er sa ad eg giöre hañs Vilia þess er mig hefur sendt, og fullkomne hañs Verk. Seiged þier eige sialfer, ad þad eru eñ fioorer Mánuder, þa kiemur Kornskieru-Tijmeñ? Sie, eg seige ydur, lijted upp Augum ydar, og siaed Akurlöndeñ, þad þau eru nu þegar hvijt til Kornskurdarens. Og hvör sem uppviñur, sa tekur Laun, og safnar Avexte til eilijfs Lijfs. So ad þar gledie sig hvor med ödrum, sa sem sáer, og sa er uppviñur. Þvi sañast hier þad Ordtak, ad añar sie sa sem sáer, eñ añar sa sem Uppviñur. Eg sende ydur upp ad viña, þad þier Ervidudud ecke, adrer hafa Ervidad, og þier erud komner iñ i þeirra Ervide.

MArger Samverskar Meñ af þeim sama Stad trwdu a hañ fyrer Konuñar Ord, er so vitnade, hañ sagde mier allt hvad eg giört hafde. Eñ þa hiner Samversku voru til hañs komner, badu þeir hañ, ad hañ være hia þeim, og hañ var þar tvo Daga. Og miklu fleyre trwdu fyrer hañs Ord. Og sögdu til Konuñar, ei trwum vier nu framar fyrer þijn Ord, þviad vier sialfer heyrdum og vitum ad þesse er sañarlega Christur, Lausnare Heimsins.

# XI. Capitule.

## Um̃ Apturkomu Christi i Galileam, hvar hañ læknade Son Konungsmañsens.

Iohannes 4.

ANN tveimur Dogum þar epter foor hañ þadañ, og reiste til Galileam. Þviad JEsus vitnade þad sialfur, ad eirn Spamadur er i ongvu Gyllde a sijnu eigeñ Fodurlande; Þa hañ kom i Galileam, medtooku hañ Galeisker Meñ, sem sied hofdu allt þad hañ giorde til JErusalem a Hatijdeñe, þvi þeir hofdu og komed til Hatijdardagsins. Og JEsus kom aptur til Cana i Galilea, þar hañ hafde giort Vatn ad Vijne.

Og þar vár eirn Konunglegur Madur, hvers



Sonur ad lá Siwkur til Capernaum. Þesse heyrde-

heyrde, ad JEsus var kumen af Gydingalande i Galileam, og foor til hañs, og bad hañ ad hañ fære ofañ og hiaalpade Syne hañs, þvi ad hañ være Daudsiwkur. Og JEsus sagde til hañs: Þegar þier siaaed ecke Teikn og stoormerke þa trwed þier ei Þa sagde sa Konunglege Madur til hañs, Herra far ofañ adur eñ mitt Barn andast. JEsus sagde honum, far þu, Sonur þiñ lifer, og Madureñ trwde þvi Orde er JEsus sagde honum, og gieck þadañ. Eñ i þvi hañ foor ofañ epter, mættu hañs Þienarar honum, og kuñgiordu honum segiande: Þitt Barn lifer. Þa spurde hañ upp þañ Tijma af þeim, a hvorium honum hefde batnad. Og þeir sogdu honum, i Giær uñ Sioundu Stund, yfergaf Kalldañ hañ. Þa formerkte Fadereñ ad þad var uñ þañ Tijma, a hvorium JESUS sagde honum: Sonur þiñ lifer. Og hañ trwde og allt hañs Hws. Þetta er nu þad añad Jardteikn er JEsus giorde, þa hañ kom af Gydingalande til Galileam.



# Pridie Partur

Um̃ þad vidvar a Odru Are Predikunar Embættesins HErrans Christi.

## I. Capitule,

### Um̃ Upphaf Openberrar Predikunar Christi i Samkundu-Hwsum Galileæ, og hvorneñ hañ færde Bwstad siñ fra Nazareth til Capernaum.

Matth. 4. Marc. 1. Luc. 4.

EPter þad (b) Johañes var gripeñ, (c) Kom JEsus aptur i Anda-Krapte (f) til Galileam (b) og Predikade Evangelium Guds Rijkis (c) og Rikted um̃ hañ gieck wt i alla krijngumliggiande Stade, og hañ kiende i þeirra Samkundu-Hwsum, og af hvorium Mañe var hañ prijsadur.

OG hañ kom til Nazareth, þar hañ var uppaleñ, og gieck iñ epter Vana sijnum a Sabbaths-Deige i Samkundu-Hwsed, stood upp og villde lesa. Pa var honum feingeñ Book Esajæ Spamañs, og er hañ flette um̃ Bookeñe, fañ hañ þañ Stad hvar skrifad var.

ANDE DROTTENS er hia mier, og af þvi smurde hañ mig, og sende mig ad boda E-

van

vangelium Voludum, og ad grǽda þaug sundurknosudu Hiortu. Ad Predika þeim Herteknu, ad þeir skulu verda lauser, og þeim Blindu Syn, og þeim Fongudu ad þeir skulu vera frij og lauser, og ad predika þacknǽmelegt Ar DRottens.

OG þa hañ liet saman Bookena, fieck hañ hana Pienaranum, og sette sig, og aller þeir sem i Samkundu-Hwsenu voru, horfdu a hañ. Eñ hañ hoof ad seigia til þeirra: J Dag er þesse Ritning uppfylld fyrer ydrum Eyrum. Og aller gaafu Vitnisburd af honum, og undrudust þau Nadarsamlegu Ord, sem geingu fram̃ af hañs Muñe, og sogdu: Er þesse eige Sonur Josephs? Hañ sagde til þeirra: Pier munud fullkomlega til mijn seigia þeñañ Ordskvid: Lǽkner biarga sialfum þier, þvi hvad myked hofum vier heyrt ad giort var til Capernaum, gior þu og eins hier a þiñe Fooſtur-Jordu. Eñ hañ sagde: Sañlega seige eg ydur, ad eingeñ Spaamadur er þacknǽmur a siñe Fooſtur-Jordu. Eñ i Sañleik seige eg ydur: Margar Eckiur voru i Tijd Eliǽ, i Jsrael, þa Himeneñ var lucktur i Prju Ar, og Sex Maanude, þa ed giordest mikel Dijr-Tijd um̃ allt Landed. Og til ongra þeirra var Elias sendur, nema i Sarepta þeirra Sidona til eirnrar Eckiu. Og marger Lijkþraaer voru i Jsrael i Tijd Elisei Spaamañs, og eingeñ þeirra vard hreinsadur, nema alleina Naaman af Syria. Og aller fylltust þeir Reide sem i Samkundu-Hwsenu voru, er

þeir

þeir heyrdu þad, stoodu upp og hneptu hañ wt af Borgeñe, og leiddu hañ allt uppa Fialls-Gnijpuna, þar ed þeirra Borg var yferbygd, ad þeir hrinde hønum þar af-fram. Eñ hañ gieck burt midt a millum þeirra.

(a) OG JEsus forliet Borgena Nazareth, kom og bido i Capernaum, hvor ed liggur vid Siafar-Sijdu i Eydemørku Zabulon og Neptha lim, so þad uppfylltest hvad sagt er fyrer Esajam Spamañ, sem seiger: Landed Zabulon og Land ed Nepthalim vid Siafar-Gotu hinumeigeñ Jordanar, og Galilea hin Heidna, Lijdur sa er sat i Myrkrunum, hañ sa Lioos miked, og þeir sem satu i Daudans-Stad og Skugga, þeim er Eitt Lioos uppruñed. Þadañ i fra took JEsus ad Predika (b) Evangelium Guds Rijkis, (a) Og seigia: (b) Sa Tijme er nu uppfylltur og Guds Rijke nalægest, (c) Ydrest þvi, (b) og trwed Evangelio.

## II. Capitule.

### Um hañ Furdañlega Fiskedraatt, og Køllun Peturs, Andresar, Jacobs og Johañis.

Matth. 4. Marc. 1. Luc. 5.

ANN (c) er JEsus gieck med Sioonum i Galilea, leit hañ (a) Tvo Brædur Simon sa er kallast Petrus, og Andream Broodur hañs, hvorier ad voru ad varpa Nete i

Siooeñ

Sioveñ, þviad þeir voru Fiske-Meñ.

(c) ENN þad skiede þa Foolked þreyngde fram til hañs ad heyra Guds Ord, og hañ stood vid Sioveñ Genezareth, ad hañ saa Tvo Skip standa vid Sioveñ, eñ Fiskemeñerner voru stigner af Skipe, og þvodu Net sijn. Pa stie hañ aa Eitt Skiped, sem Simonar var, og bad hañ ad leggia lijted fraa Lande, og hañ setteft nidur og kiende Foolkenu af Skipenu. Og sem hañ gaf upp ad tala, Sagde hañ til Simonar: Far þu wt aa Diwped, og kasted Nete ydar wt, so ad þier draged Eirn Draatt. Simon svarade og sagde til hañs: Meystare, J alla Noott høfum vær Ervidad, og feingum eckert, Eñ uppaa þitt Ord vil eg Netenu wt kasta. Og þa þeir høfdu þad giort, Jñelucktu þeir mikla Mergd Fiska, og þeirra Net Rifnade. Og þeir bentu sijnum Fielogum, sem voru aa ødru Skipe, þad þeir kiæme og hiaalpudu þeim ad draga, og þeir komu og hloodu bæde Skipeñ full, So þaug suckv ad mestu.

ÞA Simon Petrus saa þad, Fiell hañ til Kniañna JEsu og sagde: Gack fraa mier HErra, Þvi eg em Madur Syndugur. Af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ, og yfer þaa alla sem med hønum voru, af þeim Fiskedrætte er þeir feingu til samans. Lijka yfer Jacobum og Johañem Sonu Zebedei Lagsmeñ Simonar. Og JEsus sagde til Simonar: Ottast þu eige, þviad hiedañ af skalltu Meñ veida. Og þeir droou sijn Skip ad

Lande. (o). Og JEsus sagde til þeirra (Simonar og Andresar:) Fylged mier epter, og eg vil giøra ydur ad Fiskurum Maña, þeir forlietu jafnsnart sijn Net og (c) alla Hlute, (l) og fylgdu honum epter. (e) Og þa hañ var skamt burt þadañ geing eñ, sa hañ (a) adra Tvo Brædur (e) Jacob Son Zebedei, og Johañem Broodur hañs, og þeir voru a Skipe (a) med Fødur sijnum Zebedeo [e] ad bæta Net sijn, og [b] strax [e] kallade hañ þa, [a] eñ þeir forlietu strax Skiped [e] og Fødur siñ [b] Zebedeum i Skipenu hia Leigulidunum, [e]. og fylgdu honum epter.

# III. Capitule,

## Uñ Utrekning Ohreins Anda i Samkundu-Hwsenu i Capernaum, Item uñ Lækning

### Moodur-Konu Peturs, og añara fleire Siwkra, er ad Kvollde þess sama Sabbaths-Dags Læknader voru.

Matth. 8. Marc. 1. Luc. 4.

Þeir (b) geingu þa i Capernaum (c) Borg i Galilea, [b] og strax uñ Sabbathsdageñ gieck hañ iñ i Samkundu-Hwsed og kiende, [h] og þeir undrudust hañs Kieñing, [b] þviad hañ kiende þeim [e] sem af Vallde Myndugleika, [b] eñ eige sem hiner Skriptlærdu.

[h] OG Eirn Madur var þar i þeirra Samkundu-Hwse, [b]. halldeñ af Ohreinum [e]

[e] Diofuls [b] Anda, [h] sa kallade [c] hærre Roddu [h] og sagde: Hei, hvad hofum vær med þig ad giora JEsus af Nazareth? Komstu ad glata oss? Eg veit hvør þu ert, sem er hiñ Heilage Guds, JEsus straffade hañ og sagde: Þeige þu, og far wt af honum, [c] og Diofulleñ fleygde honum midt fram i millum þeirra, [b] og sa Ohreine Ande hreif hañ og kallade upp hærre Rodd, [h] foor wt af honum [c] og grandade honum øngvu. [h] Og Otta sloo yfer alla, so þeir spurdu ad og toludu sijn a mille, seigiande: [b] Hvad er þetta? Edur hvør er þesse hin nya Kieñing? Þvi af [h] Vallde og Myndugleika skipar hañ Ohreinum Aundum, [b] og þeir hlijda honum, [c] og fara wt. [b] Og hañs Rikte gieck strax wt um Galileæ Hierud, [c] og allstadar i þvi umliggiande Lande.

(c) OG hañ stood upp af Samkunduñe, og kom i Hws Simonar [b] og Andreæ, med Jacobo og Johañe, [h] eñ Mooder Hwsfreyu Simonar [b] la þar krenk, [c] og var hallden af mikellri Kølldu, [b] og strax þa sogdu þeir hon um til heñar [c] og badu hñ fyrer heñe, [b] hñ gieck þa til heñar [c] took um Hond heñar [b] og reiste hana upp [c] hastade a Køldu-Sottina, [l] og Kaldañ forliet hana [b] strax [f] og hun stood upp [l] og þioonade þeim.

[a] ENN um Kvollded [h] þa Soolsett var, [c] fluttu aller þeir sem hofdu siwka af allskyns

allskins Siwkdoome þa til hañs, [a] og færdu marga Diofulsooda til hañs, og allur Stadureñ safnadest fyrer Dyrunum, [c] eñ hañ [a] rak Andana wt med Orde [b] og hiaalpade morgum Siwkum sim þiaader voru af ymsum Sootum [c] og lagde Hendur yfer sierhvorn þeirra. [a] So ad uppfylltest hvad sagt er fyrer Esajam Spaamañ, sem seiger, hañ took vorn Veikleika uppaa sig, og vora Siwkdooma bar hañ. [e] Dioflar fooru og wt af morgum, kallande upp og sogdu: Þu ert Christur Sonur Guds, og hañ hastade a þaa, og liet þaa ecke mæla, þviad þeir vissu þad hañ var Christur.

[b] OG ad Morgne fyrer Dogun stood hañ upp, [h] gieck wt og foor burt i eirn Eyde Stad [b] og badst þar fyrer, eñ Simon og þeir med honum voru skundudu epter honum, og þa þeir fundu hañ, sogdu þeir honum, hvor Madur leitar ad þier, hañ sagde til þeirra: Gongum vær i þessar næstu Borger, so eg Predike og þar, þvi til þess kom eg. [c] Og Foolked leitade ad honum og kom til hañs, og þeir hielldu honum, ad hañ fære ei fra þeim, hvorium hañ sagde, mier byriar og i odrum Borgum ad boda Evangelium wt af Guds Rijke; Þviad til þess er eg sendur.



# IV Capitule

## Yferferd Christi um̃ Galileam og Lækning þess Lijkþraa Mañs.

Matth. 4. Marc. 1. Luc. 5.

OG JEsus [a] foor i krynguin allt Galilea Land, kieñande i þeirra Samkundu Hwsum, og predikade Evangelium Rijkesins, og læknade oll Soottarferle, og oll Kraankdæme med Foolkenu (b) wtrekande Diofla, (a) og hañs Ricfte barst wt um̃ allt Syrland, og þeir færdu honum alla þaa, sem Kraanker voru af margvijslegum Soottarferlum og Pijslum, og þaa er Diosful hofdu, Twngla-Mein, eda Ycktsiwker voru, og hañ læknade þa alla; og margt Foolk fylgde honum epter wr Galilea, wr þeim tiju Borgum, fraa Jerusalem wr Judea, og wr þeim Hierudum er voru hinumeigeñ Jordanar.

(c) HAd skiede þa hañ var i eirnre Borg, Sia, þar var Madur fullur af Spitelsku (b) er kom til hñs, (c) og er hañ saa JEsum fiell hañ fram̃ aa sijna Asioonu, bad hañ og sagde: DRott: ñ (h) ef þu villt þa kantu ad hreinsa mig, (b) eñ JEsus saa aumur aa honum, (h) riette wt sijna Hond, aahrærde hañ og sagde til hañs. Eg vil vertu hreirn. (h) Og er hañ sagde so, hvarf strax Lijkþraañ af honum, og hañ vard hreirn. JEsus hastade a hañ, liet hañ strax fra sier og sa de honum, (h) Sia þu ad þu seiger þad ongvum,

helldur far-þu og syn þig Prestinum, og foorna fyrer þijna Hreinsun (b) þvi, (h) sem Moses baud til Vitnisburdar fyrer þeim. (b) eñ þa hañ kom wt, hoof hañ upp og kuñgierde margt þar wt af, og vidfrægde þessa Rædu, (c) og



Rikted uñ hañ kom æ leingra wt, (b) svo hañ mætte ei sijdañ Openberlega iñgænga i Borgena, helldur var hañ þar fyrer wtañ i Eydestødum, og þar kom til hañs wr øllum Alfum (c) margt Foolk, hønum ad heyra, og ad læknast fyrer hañ, af sijnum Soottum, eñ hañ veik sier burt i Eydemørk og badst fyrer.

# V. Capitule.

## Uñ þañ Icktsiwka Mañeñ og Køllun Matthei, Matth. 9. Marc. 2. Luc. 5.

DEs (b) nockrum Dogum þar epter gieck hañ aptur til Capernaum, og þad heyrdest, ad hañ var i Hwsenu, strax sofnuduust marger samañ, so þeir hofdu ecke Rwm, og eirneñ fyrer utañ Dyrnar:

(c) OG þad bar til a einum Deige er hañ kiende og þar satu Pharisei og Skriftlærder, sem kommer voru af ollum Kauptwnum wr Galilea og Judea og fra Jerusalem, (b) og hañ talade Ord ed fyrer þeim. (c) Og Kraptur DRottens giecck wt fra honum ad lækna þa. Og sia (b) ad nockrer komu til hañs, færande eirn Icktsiwkañ (c) Mañ a Sæng (b) hvor ed boreñ var af fioorum (c) og þeir leitudust vid ad koma honum iñ, og leggia hañ fram fyrer hañ, (b) og þa þeir gaatu ei komest til hañs fyrer Foolkenu, (c) nie fundsed hvar þeir skylldu flytia hañ iñ, fooru þeir uppa Hwsed, [b] opnudu Þekiuna upp yfer honum, og groofu þar i giegn, lietu so Sængena nidur siga sem hiñ Icktsiwke la i, [c] og undu hañ i giegnum Þaked med Sængeñe midt a millum þeirra, fram fyrer JEsum .[1] Eñ er JEsus leit þeirra Trw, sagde hañ til hiñs Icktsiwka, [a] vertu Hugshraustur [e] Sonur, (1) þijnar Synder eru hier fyrergiefnar. (a) Oa sia: (b) þar voru nockrer Skriptlærder [c] og Pharisei [b] er satu þar og hugsudu i sinum Hiortum, [a] og sogdu med sialfum sier, þesse Gudlastar, [b] þvi talar þesse Gudlastan? [b] Hvor ma Syndernar fyrer-

giefa nema Gud eirn; [b] en JEsus fan strax i sijnum Anda [a] og sa peirra Hugreningar [b] ad peir peinktu so med sier, [c] svarade og sagde til peirra: Hvad hyxe pier? [b] Pvi peinke pier petta (a) Illt [l] i ydrum Hiortum? Pvi hvort er audvelldara ad segia [b] til hins Icktsiwka,



[l] pier eru pijnar Synder fyrergiefnar? Eda ad seigia, statt upp [b] tak Sæng pijna [l] og gack? En ad pier vited ad Mansins Sonur hefur Valld til a Jordu ad fyrergiefa Syndernar: Pa sagde han til hins Icktsiwka. [h] Eg seige pier [l] statt upp, tak pijna Sæng og gack heim. Og strax stood han upp [c] peim asiaande: [b] took upp Sængena [c] pa er han hafde aleiged, [b] gieck wt padan i allra Augsyn, [h] so ad aller Ottudust, [f] og foor heim i sitt Hws [c] lofande Gud.

Pa

Pa Foolked saa þetta undradest þad, [!] og prijsade Gud [a] þañ er þvilijka Makt hefde Møñunum giefed. [c] Og þeir fylltust af Otta seigiande, i Dag høfum vier sied undarlega Hlute: [b] Alldrei høfum vier slijkt sied.

[e] EPter þad [a] gieck JEsus þadañ, (b) og wt aptur ad Sioonum, og allt Foolk kom til hañs, og hañ kiende þvi: Eñ þa er JEsus gieck fram hiaa, (l) leit hañ (c) eirn Tollheimtumañ er Levi var ad Nafne, (a) saa er kallast Mattheus (b) Son Alphei, (l) sitiande hiaa Tollbwdeñe, og sagde til hañs: fylg þu mier epter, (c) og hañ forliet allt, (l) stood upp og fylgde hønum epter.

# VI Capitule.

**Um̃ þaa Adra Paaska er tiñfiellu aa Odru Are Predikunar Embættesins HErrans Christi, Item um̃ Dijked Bethesda, og þañ Mañ þar var Læknadur af JESU.**

Iohannes 5.

EPter þad var Ein Haatijd Gydinga, og JEsus foor upp til Jerusalem. Eñ i Jerusalem hiaa Fiaar-Hwsunum er eitt Vatns-Dijke, sem kallast aa Ebresku Bethesda, hafande Fim̃ Forbyrge. J þeim laa mikell Fiollde Siwkra Mañа, Blindra, Halltra, Visnadra, bijdande epter Vatnsins Hrærina. Þvi ad Eingell stie ofañ i Tilsettañ Tijma i Dijked, og

hrærde upp Vatned; Hvor sem nu Fyrstur stie þar ofañ i, epter Vatnsins Hræring, sa vard Heill, af hvørre Sootť sem hañ var hallden.

ÞAr var Eirn sa Madur, sem Priatijger og Atta Ar hafde Siwkur leiged. Pa JEsus leit þeñañ liggiande, og fornam ad hañ hafde so leinge leiged, Seiger hañ til hañs: Villtu Heilbrygdur verda? Hiñ Siwke svarade honum: HErra, Eg hefe ei neirn Mañ.þa Vatned hrærist ad læte mig i Dijked, þvi nær eg kiem ad, þa stijgur Añar fyrre iñ eñ eg. JEsus sagde til hañs: Rijs upp, Tak Sæng þijna, og gack burt. Og strax vard sa Madur Heilbrygdur, og took sijna Sæng og gieck þadañ, Eñ sa same Dagur var Sabbaths-Dagur. Pa sogdu Gydingar honum, sem Heilbrygdur var ordeñ, þad er i Dag Sabbaths-Dagur, eige hæfer þier ad bera Sængena, hañ svarade þeim: Sa mig Heilañ giorde, hañ sagde mier: Tak Sæng þijna og gack burt. Pa spurdu þeir hañ ad, Hvør er sa Madur er þier sagde, Tak Sæng þijna og gack? Eñ sa sem Heilbrygdur var vordeñ, visse eige hvør hañ var, þviad JEsus hafde viked i burt fra Foolkenu sem þar var i þeim Stad. Epter þad hitte JEsus hañ i Musterenu, og sagde til hañs: Sie, nu ertu Heill ordeñ, Syndga nu ei framar meir, So ad þig hende eige Eitthvad verra. Sa Madur foor og undervijsade Gydingum, ad þad være JEsus, sem hañ hefde giordt Heilañ.

VII.

# VII. Capitule.

## Um̃ þa Merkelegu Predikun sem Christur fram̃sette a Paaskunum, þegar Gydingar Praattudu um̃ þad han̄ Læknade a Pvott-Deige.

Iohannes 5.

HAr fyrer Offsooktu Gydingar JEsum, og leitudust vid ad deyda han̄, af þvi ad han̄ giorde þetta a Sabbaths-Deige. JEsus svarade þeim: Fader min̄ verkar allt hijng ad til, Eg verka og. En̄ fyrer þetta sooktu Gydingar meir til ad deyda han̄, þviad han̄ braut eige einasta Sabbathed, Helldur sagde og so, ad Gud være sin̄ Fader, giorande sig sialfan̄ Gude jafnan̄. JEsus svarade og sagde til þeirra: San̄lega, San̄lega seige eg ydur, Sonuren̄ fær eckert af sialfum sier giort, nema þad han̄ sier Foduren̄ giora, þviad hvad hellst han̄ giorer, þad giorer og eins lijka Sonuren̄. Þvi Faderen̄ elskar Sonen̄, og syner honum allt þad han̄ giorer, og en̄ mun han̄ syna honum offur Verk meire, so þier munud undrast. Þviad so sem Faderen̄ uppvekur Dauda, og Lijfgar, So Lijfgar og Sonuren̄ þaa sem han̄ vill. Þvi eige Dæmer Faderen̄ nockurn, helldur gaf han̄ Synenum allan̄ Doom, Ad aller heidre Sonen̄, so sem þeir heidra Foduren̄. Hvor han̄ heidrar ei Sonen̄, saa heidrar ei Foduren̄, sem han̄ sende. San̄lega, San̄lega seige eg ydur: Hvor

mijn Ord heyrer og trwer þeim sem mig sende, sa hefur eilijft Lijf, og ei kiemur hañ i Doom, helldur hefur hañ þreyngst i gieanum fra Daudanum til Lijfsins. Sañlega, Sañlega seige eg ydur: Ad su Stund kiemur, og er nu alla Reidu, þad Daud er munu heyra Rodd Guds Sonar, og þeir sem hana heyra munu lifa. Þviad lijka sem Faðereñ hefur Lijfed i sialfum sier, so gaf hañ Synenum ad hafa Lijf i sier sialfum. Hañ gaf honum og Valld til ad hallda Doom, af þvi ad hañ er Mañsins Sonur. Eige skulu þier undrast þetta, þviad su Stund mun koma, a hvorre þad aller þeir sem i Grofunum eru, skulu heyra hañs Rodd. Og þeir munu þa framgaanga sem Gott giordu til Lijfsins Uppriśu, Eñ þeir sem Illa giordu, til Dooms Uppriśu. Eige kañ eg af mier sialfum ad giora nockud, eins og eg heyrde, so Dæme eg, og miñ Doomur er riettur, þviad eg leita eige mijns Vilia, helldur Fodursins Vilia, þess er mig sende. Ef eg ber mier sialfum Vitne, þa er mitt Vitne ecke satt. Þar er Añar sem af mier ber Vitne, og eg veit ad hans Vitne er satt, þad hañ ber af mier.

Þier sendud til Johañem, og hañ bar af Sañleikanum Vitne. Eñ eg tek eige Vitne af Moñum, helldur seige eg þetta uppa þad þier hialpest. Hañ var eitt logande og skijnande Lioos, Eñ þier villdud skamma Stund glediast af hañs Lioose. Eg hefe eñ meira Vitne eñ Johañis Vitne, þviad þau Verk sem Faðereñ gaf mier, ad eg fullkomne þau,

þau

þau sømu Verkeñ eg giøre bera mier Vitne, þad Faðereñ hafe mig sendt. Og Faðereñ sa sem mig sende, hañ sialfur bar mier Vitne, eige hafe þier nockurn Tijma heyrt hañs Rodd, nie sied hañs Mynd, Og hañs Ord hafed þier ei i ydur bwande, þviad þeim hañ sende, Trwed þier eige. Ransaked Ritningena, þviad þier meined ydur i heñe ad hafa eilijft Lijf, og hun er su, hvor af mier ber Vitne. Og ei vilied þier koma til mijn, so ad þier hafed Lijfed. Eg tek ongva Dyrd af Moñum. Eñ eg þecke ydur, ad þier hafed eige Guds Elsku i ydur. Eg kom i mijns Føðurs Nafne, og þier medtaked mig eige, ef añar kiemur i sijnu eigeñ Nafne, þañ medtaked þier. Hvorneñ meiged þier trwa, þar sem þier taked Jñbyrdis Dyrd hvor af ødrum? Og þa Dyrd sem af sialfum Gude er, heñar leited þier eige. Eige skulud þier þad meina, ad eg mune klaga ydur fyrer Føðurnum, þar er eirn sem ydur klagar, Moyses a hvorn þier voned. Ef þier trydud Moysi, so trydud þier og mier, þviad af mier skrifade hañ, eñ ef þier trwed eige hañs Skrife, hvorneñ meiged þier þa mijnum Ordum trwa?

# VIII. Capitule.

Uñ Lœresveinana, tijnande samañ Axen a Þvottdeige. 2 Uñ þa visnu Hond er Christur læknade, hvar af kom Þrættan uñ Þvott-Dageñ. 3. Uñ Ofsookn Gydinga vid Christum.

Og (h) þad skiede (a) i þañ Tijma, (c) a einum Epter Sabbats Deige, (l) ad JEsus gieck yfer Korn-Sædis Akur. (a) Eñ hañs Læresveinar voru hwngrader, (b) og tooku til i þvi þeir geingu (l) ad tijna Axen (f) og ad eta, (e) nwande þau med Hendum sier. (a) Eñ sem Pharisei saau þad, sogdu þeir til hañs: Sia hvad þijner Læresveinar giora a Sabbaths Deige, (l) þad eige soom er. JEsus svarade og sagde til þeirra: Hafe þier eige lesed hvad David giorde: (b) þa hañ þurfte vid (l) og hañ hwngrade, og þaa er med honum voru, hvorneñ hañ iñgieck i Guds Hws, (b) i Tijd Abiathars ypparsta Prests, (c) took (l) og aat Skodunnar Brauden: (h) Og gaf þeim sem med honum voru, (a) hvor honum leifdest ei ad eta, nie helldur þeim: (l) Nema einum samañ Prestunum? (a) Eda hafe þier eige lesed i Logmaalenu, hvorsu ad Prestarner a Sabbaths Dogum i Musterenu Briota Sabbaths Dageñ, og eru þo aan Sakar? Eñ eg seige ydur: Ad saa er hier sem Musterenu er meire. Eñ ef þier vissud hvad þad være, a Myskun hefe eg Þocknan og eige a Offre, hefdu þier ecke Saklausa Fordæmt. (h) Og hañ sagde þeim: (b) Sabbaths Dagureñ er fyrer Mañsins Saker giordur, eñ eige Madureñ fyrer Sabbaths-Dagsins Saker:

So

[l] So er Mañsins Sonur HErra, einneñ Sabbaths-Dagsins.

[a] OG hañ gieck burt þadañ leingra fram, og kom i þeirra Samkundu-Hws [b] aptur, [c] a ödrum Sabbaths-Deige og kiende, [a] og sia, [l] þar var eirn Madur sem hin Hægre Hond var a visnud; [c] Eñ Skriftlærder og Pharisei hugdu ad hvert hañ læknade hañ a Sabbaths-Deige, so ad þeir finde eina Sok, hvar fyrer þeir mættu hañ akiæra, [a] og þeir spurdu hañ ad og sogdu: Er þad nockud riett ad lækna a Sabbaths-Dogum? [c] Eñ hañ formerkte þeirra Huxan: [h] og sagde til Mañsins, þeß er Hondena hafde visnada, Rijs þu upp [c] og gack fram hijngad, hañ reis upp og gieck fram. [h] Eñ JEsus sagde til þeirra, [c] Eg spyr ydur ad: [h] Hvert hæfer a Sabbaths-Dogum ad giora gott edur illt, Lijfenu vid ad hall da, edur Tortijna? [b] eñ þeir þogdu. [a] Hañ sagde til þeirra: Hver er sa af ydur, sem hefur eirn Saud, og ef hañ fellur a Sabbats-Dogum i Gryfiu, sem ecke grijpe hañ og uppdrage? Hvad miklu er Madureñ Saudnum betre? Fyrer þvi leifest a Sabbaths-Dogum gott ad giora. [b] Hañ leit þa til þeirra med Reide-Svip, og angradest vid þeirra forhertu Hiortu, [l] og sagde til Mañsins: Riettu wt þijna Hond, [c] eñ hañ giorde þad, [e] og riette hana wt; [l] og hañs Hond vard heil, [h] lijka sem hin

öñur:

oñur. [c] Eñ þeir urdu alſendes galder, og tol-
udu til hvor vid añañ, hvad þeir villdu giora til vid
JEſum. [e] Eñ Phariſei geingu wt, [b] og
hielldu ſtrax ſijn Raad med Herodis Þienurum
[e] i moote hønum, hvorneñ hellſt þeir feinge For-
tijnt hønum. [a] Eñ er JEſus fornam þad,
veik hañ þadañ [b] til Siaafarens med ſijnum
Læreſveinum. [a] Og margt Foolk fylgde høn-
um epter [b] af Galilea og Judea, og þeir ſem
voru af Jeruſalem og Jdumea, og þeir hinumeig-
eñ Jordanar, og þeir ſem biuggu krijngum Tyrum
og Sidonem, mikell Mañfiollde ſem heyrdu hvad
hañ giorde, og komu til hañs, og hañ ſagde til ſiña
Læreſveina: Ad þeir ſkylldu laata hønum Skip til
Reidu, fyrer Foolkſins Saker: Uppaa þad þeir
þreyngdu hønum eige, þviad hañ læknade margañ
af þeim: Eñ þeir traaduſt ad hønum, aller þeir er
plaagader voru, ad þeir mættu faa ad ſnerta hañ,
[a] og hañ læknade þaa alla: (b) Og nær Ohre-
iner Andar ſaau hañ, fiellu þeir nidur fyrer hønum,
kolludu upp og ſøgdu: Þu ert Guds Sonur.
(e) Eñ hañ ſtraffade þaa hardlega, og bañade þe-
im, ad þeir giordu hañ Opeñſkaarañ: (a) So
þad uppfylltiſt ſem ſagt er fyrer Eſajam Spaa-
mañ, er ſo ſeiger: Siaaed þad er miñ Pioon hv-
ørn eg wtvalde, og miñ Elſkulegur, aa hvorium
Saala mijn hefur Þocknan, yfer hañ mun eg An-
da miñ leggia, og ſaa ſkal Heidnum Doomeñ kuñ-
giøra. Eige mun hañ kijſa nie kalla, og eige mun

nockur heyra hañs Kall a Strætum. Mareñ Reyr mun hañ ei i sundur mylia, og riwkande Hor eige wtslockva, þar til hañ wtfærer Doomeñ til Sigurs, og heidner munu a hañs Nafn vona.

# IX. Capitule.

## Utvalning Peitra Toolf Postula, og sw Langa og Lærdoomsrijka Predikun, sem HErrañ Christur þar epter frañsette a Fiallenu.

Matth. 5 Marc. 3 Luc. 6.

ENN (e) þad giørdest a þeim Tijma þa JEsus sa Foolked, (c) gieck hañ uppa Eitt Fiall (e) ad bidiast fyrer, og hañ var um þa Noott a Bænum til Guds, og þa Dagur var, (h) kallade hañ (b) til sijn (c) sijna Læresveina (b) þa er hañ villde, og þeir komu til hañs, og hañ kiøre Toolf af þeim, hvoria ad hañ nefnde Postula, (b) og stickade ad þeir Toolf være hia honum, og ad hañ sende þa wt ad Predika, og ad þeir hefdu Valld til Sootter ad lækna, og Dioffla wt ad reka, (c) Simon hvorn hañ kallade Petrum, og Andream Broodur hañs, (h) Jacob Son Zebedei, og Johañem Broodur Jacobs, þeim gaf hañ Nafned Boanerges, hvad wtþijdest Reidarþrumu Børn, (c) Philippum og Bartholomeum, Mattheum og Thomam, Jacobum Son Alphei, og Simon [b] af Cana [c] sem kalladest Zelotes, [h] Judam Thaddeum Jacobs Son, [c] og

,c, og Judam Iscariot, þañ Svikara, ,b, er svík hañ. ,c, Og hañ foor ofañ med þeim, og gieck aa eirn sliettañ Fløt i Mørkeñe, og Flockur hañs Læresveina, og mikell Fiolldе Foolks af ollu Juda Lande og Jerusalem, og wr Tyro og Sidon, liggiande vid Hafed, hvørier komner voru hønum ad heyra, og ad þeir læknudust af siinum Soottum, og þeir sem hrackter voru af Ohreinum Aundum, og þeir urdu Heilbrygder.

Og allt Foolked gyrntest ad snerta hañ, þvi ad Kraptur gieck wt fraa hønum, og hañ læknade þaa alla.

[a] Eñ er hañ saa Foolked, gieck hañ uppaa Fialled, og sette sig nidur; Og hañs Læresveinar geingu til hañs



(c) OG hañ hoof upp siin Augu yfer Læresveina siina [a] Lauk upp siñ Muñ, kiende þeim, og sagde:

sagde: [f] Sæler eru þeir sem eru [a] Andlega [f] Volader, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler eru þeir sem [c] nu Graata (a) og Harma, [f] þvi þeir munu [c] Hlæia [a] og Huggader verda. Sæler eru Hoogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa. [f] Sæler eru þeir sem Hwngra [a] og Þyrsta epter Riettlætenu, [f] þvi þeir skulu Sadder verda. (a) Sæler eru Myskunsamer, þviad þeir munu Myskun hlioota. Sæler eru Hreinhiartader, þviad þeir munu Gud siaa. Sæler eru þeir sem Fridenn giøra, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins Saker offsoockter verda, þviad þeirra er Himnarijke. [c] Sæler erud þier ef Mennerner hata ydur, Fraaskilia ydur, Hallmæla [a] og Forsmaa ydur [c] og burtskwfa ydar Nafne, so sem annars Illvirkia, vegna Mannsins Sonar [a] og Offsookn veita fyrer mijnar Saker, og tala i giegn ydur alla Vondsku, ef þeir þad liwga. (f) Glediedydur þa (a) Fagned (c) og Dansed þvi siaa, [f] Ydar Verdkaup er miked aa Himnum, [c] þviad þann giordu þeirra Fedur vid Spaamennena, [a] og Offsooktu þaa, hvorier, fyr er ydur voru.

[c] Enn þar i moot, Ve ydur Audugum, þvi þier hafed ydar Huggun i burtu, Ve ydur sem nu erud Sadder, þviad ydur mun Hwngra. Ve ydur sem Hlæed hier, þviad þier munud Æpa og Yla. Ve ydur nær ed hvør Madur lofar ydur, þviad so giordu

giørdu þeirra Fedur vid hina sialfu Spameñ.

(a). Þier erud Sallt Jardar, nu ef Sallted deyfest, i hvoriu verdur þa Salltad? Þa duger þad til Einskis meir, nema ad þad verdur wtsnarad, og verdur Foot-troded af Moñum. Þier erud Lioos Veralldar, su Borg sem a Fiallenu liggur, fær ei foolgest. Og eige tendra Meñ Lioosed, og setia þad under Mæle-Ask, helldur yfer Lioosa-Hallded, so ad þad lijse øllum þeim sem i Hwsenu eru. Latted so ydart Lioos lijsa fyrer Moñum, so ad þeir siae ydar Goodverk, og dyrke Fødur ydar a Himnum.

## V. Capitule.

### Sama Predikun Christi a Fiallenu, iñehalldande Utlegging Løgmaalsins, Edur Tiju Bodordaña.

Matth. 5. Luc. 6.

Hier skulud (a) ei meina ad eg sie komeñ Løgmaaled edur Spaameñena upp ad leysa, Eg em ei komeñ ad leysa, helldur upp ad fylla, Þviad eg seige ydur fyrer Sañ, þaangad til Himeñ og Jord forgeingur, mun eige hiñ miñste Book-Stafur edur Titill af Løgmaalenu forgaanga, þar til ad allt þad skiedur.

Hvør sem nu uppleyser Eitt af þessum minstu Bodordum, og kieñer þad Lijdnum so, sa mun kallast Miñstur i Himnarijke, Eñ hvør þad giører og kieñer, hañ mun mikell kallast i Himnarijke.

Þviad

Þviad eg seige ydur, nema so sie ad ydart Riett-læte sie betra eñ hiña Skriftlærdu, og Phariseara, þa munud þier eige koma j Himnarijke. Þier hafed heyrt ad sagt er til hiña Gomlu: Þu skallt eige Mañ vega, eñ hvør ed Mañ vegur, hañ verdur Dooms sekur. Eñ eg seige ydur, hvør hañ er Reidur Broodur sijnum, hañ verdur Dooms sekur. Eñ hvør sem til Broodur sijns seiger: Racha, hañ verdur Raads sekur. Eñ hvør ed seiger: Þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Fyrer þvi nær þu Offrar þijna Gaafu a Alltared, og þier kiemur þar til Hugar had Broodet þiñ hafe nockud a moote þier. Þa laattu þar þijna Gaafu fyrer Alltarenu, og gack adur ad



sætta þig vid Broodur þiñ, og kom þa ad Offra þijna Gaafu. Vertu snarlega Samþyckur þijnum Mootstødu-Mañe, a medañ þu ert eñ a Vei-

gē med honum, So ad ei selie þig þiñ Mootstødu-Madur Doomaranum, og Doomareñ selie þig Pienaranum, og verder þu i Dyblissu kastadur. Ad-soñu seige eg þier, ad þu munt ei þadañ wtfara, þar til þu borgar hiñ Siidasta Pening.

Pier hafed heyrt ad sagt er til hiña Gømlu: Pu skallt ei Hoordoom drygia. Eñ eg seige ydur, ad hvør hañ liitur Konu til ad gyrnast heñar, sa hefur þegar drygt Hoor med heñe i siinu Hiarta. Eñ ef þitt Hægra Auga hneyxlar þig, þa kipp þvi wt, og kasta þvi fraa þier, þviad betra er þier ad Eirn þiña Lima farest, og ecke kastest allur þiñ Liikame i Helviite. Og ef þiin Hægre Hond hneyxlar þig, þa sniid hana af og kasta fraa þier, þviad betra er þier ad Eirn þiña Lima farest, eñ ad allur Liikame þiñ kastest i Helviite. So er og sagt: Ad hvør ed skilur sig vid siina Eigeñ-Konu, sa skule giefa heñe Skilnadar-Skraa. Eñ eg seige ydur: Hvør hañ skilur sig vid siina Eigeñ-Konu (ad undañtekeñe Hoorunar-Sok) sa giører þad, ad hun verdur Hoordooms-Kona, og hvør ed fastnar þa sem fraa Mañe er skileñ, sa dryger Hoor.

Pier hafed eñ framar heyrt, ad þad er sagt til hiña Gømlu: Ad eige skuler þu Raangt Sveria, og þu skallt Gude þitt Sære lwka. Eñ eg seige ydur: Ad þier skulud olldungis ecke sveria, hvørke vid Himeneñ, þviad hañ er Guds Sæte. Eige helldur vid Jordena, þviad hun er Skor hañs Foota, eige vid Jerusalem, þviad hun er Borg hiñs

ns mikla Konungs. Þu skallt og eigi sveria vid Hofud þitt, þviad þu kant ei ad giøra Eitt Haar Hvijtt edur Svart. Eñ ydar Ræda sie Jaa, Jaa, Nei, Nei, Eñ hvad fram̃ yfer þad er, þad er af hinum Vonda.

Þier hafed heyrt ad þad er sagt, Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, Eñ eg seige ydur, ad þier skulud ei brioostast i giegn Illu. Helldur ef nockur slær þig a þijna Hæare Kiñ, þa biood honum hina adra. (c) Og hver hañ tekur af þier þiñ Mottul, þa ver honum eige þiñ Kyrtel. (a) Og vilie nockur vid þig Log þreyta, og þiñ Kyrtel af þier hafa, þa laat honum og þiñ Mottul lausañ. Og ef nockur neyder þig um̃ Mijlu Eina, þa gack med honum Tvær. (f) Gief þeim er þig bidur, (a) og vert ei afsnudeñ þeim er af þier vill Laan taka, (c) Og hvør hañ tekur burt hvad þitt er, þad heimt ei aptur, og so sem þier vilied ad Meñ giøre vid ydur, Giøred so lijka vid þa.

(a) Þier hafed heyrt ad sagt er, Elska skalltu Naunga þiñ, og Ovin þiñ ad Hatre hafa. (f) Eñ eg seige ydur (c) sem aaheyred (f) Elske þier Ovine ydar, blessed þa er ydur bolva, giøred þeim gott er ydur hata, og bidied fyrer þeim er ydur lasta, (a) og Offsookn veita, so ad þier sieud Børn Fodurs ydar sem a Himnum er. Þviad hañ lætur sijna Sool uppgaanga yfer Vonda og yfer Gooda, og lætur rigna yfer Riettlaata, og yfer Raanglaata, (f) þvi ef þier elsked þa sem ydur Elska

(c) Hvoria hafed þier þar fyrer Pock? (a) Edur hvort Verdkaup hafe þier fyrer þad? Giora eige þad sama Tollheimtu Men? (c) Pviad Syndugt er ellka og so þa sem þa Ellka. (a) Og þo þier læted kiært ad eins vid Brædur ydar; Hvad giore þier ad sierlegra? Giora og eige Tollheimtu Men hid sama? (c) Og þo þier gioted þeim gott er ydur giora vel til; Hvada Pock hafed þier þar fyrer? Pviad þetta sama giora eirneigen þiner Syndugu, og þo þier læned þeim af hvorium þier vænted Launa; Hvor verdur þa ydar Pock? Pviad þeir Syndugu læna og so Syndugum, so þeir take lijkt vid lijku. En þo sem ædur ellke þier ydar Ovine, giored gott og læned, einskis þar fyrer vændande, þa mun ydar Verdkaup miked vera, og þier munud verda Børn hins Hædsta, þvi ad han er Goodfws vid ohacklaata og Vonda.

Par fyrer vered Myskunsamer, lijka sem ydar Fader er Myskunsamur, (a) vered algiorder, so sem ydar Fader æ Himnum er algiordur.

## XI Capitule.

### Sama Predikun Christi a Fiallenu, hliodande, 1. um Olmusugiorder, 2. um Bæna ækalled, 3. um Føstur, 4. a moote Agyrne og Bwksorg.

Matth. 6.

Giæted

Wjæted ad ydar Ølmusum, ad eige giefed þier þær fyrer Møñunum, so ad þier siaaest af þeim, añars hafe þier eckert Verdkaup hiaa ydrum Fødur sem aa Himnum er. Nær þu giefur Ølmusu, þa skalltu eige Lwdur þeita laata fyrer þier; so sem Hræsnarar giora i Skoolum og aa Strætum, so ad þeir heidrest af Møñum; Sañlega seige eg ydur, ad þeir hafa sijn Laun wttekeð. Eñ nær þu giefur Ølmusu, þa laat þijna Vinstre Hønd eige vita hvad hin hægre giorer. So ad þijn Ølmusa sie i Leyne, og Fader þiñ sa i Leynum sier, mun giallda þier openberlega aptur.

Og nær þu bidur, skalltu ei vera so sem Hræsnarar, hvorium giarnt er ad standa og bidiast fyrer i Skoolum og aa Gatna-Hornum, so ad þeir siaaest af Møñum; Sañlega seige eg ydur, ad þeir hafa sijn Laun wt-tekeð. Eñ nær þu bidst fyrer, þa gack iñ i þitt Svefn-Hws, og lyk Dyrunum aptur, og bid þu Fødur þiñ i Leynum, og Fader þiñ saa i Leynum sier, mun þier þad openberlega aptur giallda. Og nær þier bidieð, skulud þier eige margmaaluger vera, so sem Heidingiar giora, þviad þeir meina ad af siñe Maramælge munu þeir heyrder verda. Fyrer þvi skulud þier eige þeim lijkiast, þviad Fader ydar veit hvors þier hafeð Þorf, aadur eñ þier bidieð hañ. Af þvi skulud þier so bidia.

Fader vor þu sem ert aa Himnum. Helgest þitt Nafn. Tilkome þitt Rijke. Verde þiñ Vilie so

ie so at Jordu sem at Himne. Gief þu oss i Dag vort Daglegt Braud. Og fyrergief oss vorar Skullder, so sem vier fyrergiefum vorum Skulldunautum. Og iñleid oss ecke i Freistne. Helldur freisa oss fra Illu. Þviad þitt er Rijked, og Mattur og Dyrd um̃ Allder Allda, Amen. Þviad ef þier fyrerlated Moñunum siñ Brest, þa mun ydar Himneskur Fader og so fyrergiefa ydur.

Eñ ef þier fyrerlated eige Moñunum siñ Brest, þa mun ydar Fader og eige fyrergiefa ydur ydar Brot.

Nær þier fasted, þa skulud þier ei vera kaumleiter so sem Hræsnarar, þviad þeir af minda sina Asioonu, so ad þeir syneft fyrer Moñunum ad þeir faste. Sañlega seige eg ydur, ad þeir hafa wt teked siin Laun. Eñ nær þu fastar þa smyr Hofud þitt og þvo þitt Andlit, so ad eige syne fyrer Moñunum þad þu faster, helldur fyrer Fodur þijnum sem er i Leyne, og Fader þiñ sa er i Leyne sier, hañ mun þier þad openberlega aptur giallda.

Eige skulud þier ydur Fiarsioodum safna at Jordu, hvar Molur og Rid etur þa, og hvar Þioofar meiga eptergrafa og stela. Helldur safned ydur Fiarsioodum at Himne, hvar ed hverke ma Molur nie Rid granda, og hvar Þioofar ei stoled, nie eptergrafed. Þviad hvar ed ydar Sioodur er, þar er ydart Hiarta.

Augad er Lioos Lijkamans, Ef Auga þitt er Ein-

Einfalldt, þa er allur Lijkame þiñ ſkiær. Eñ ef Auga þitt er Skaalkur, þa er allur Lijkame þiñ Myrkur, þvi ef þad Lioos ſem ad er i þier, er Myrkur, hve mikel munu þa Myrkureñ ſiaalf.

Eingeñ kañ Tveimur Herrum ad þioona, Añad hvort þa afræker hañ þañ Eina, og elſkar hiñ Añañ, Ellegar hañ þijdeſt þañ Eina, og fyrerlijtur hiñ Añañ, Þier geted ei Gude þioonad og Mañon. Fyrer þvi ſeige eg ydur: Vered ei Hugſiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier ſkulud Eta og Drecka, og ei fyrer ydrum Lijkama, hvoriu þier ſkulud klædaſt. Er ei Lijfed meir eñ Fædañ? Og Lijkameñ meir eñ Klædeñ? Siaaed Fuglana under Himnenum,



þeir ed hvorke ſaa nie uppſkiera, og eige ſafna þeir i Korn-Hlødu, og ydar Himneſkur Fader hañ fæder þaa þo, Erud þier ei miklu framar eñ þeir? Eda hv-

hvar ydar gietur auked med siñe Ahyggiu Allen Ei-na ad Leingd siñe? Og hvar fyrer erud þier Hug-siwker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akur-sins Liliu-Grosum, hvorneñ þau vaxa, þau viña hvorke nie spiña. Eg seige ydur: Pad Salo-mon i allre siñe Dijrd, var ei so skryddur sem Eitt af þeim. Nu ef Gud skrijder so Grased a Akre, þad i Dag stendur, og a Morgun verdur i Ofn kastad, skyllde hañ ei miklu framar þad vid ydur giora? O þier Lijteltrwader. Fyrer þvi skulud þier ecke Hugsiwker vera og seigia. Hvad mun-um vier Eta, eda hvad munum vier Drecka, eda hvoriu munum vier Klædast? (Epter þessu öllu sæker Heideñ Piood) þviad ydar Himneskur Fad-er veit þier þurfed alls þessa vid. Leited Fyrst Gu-ds Rijkis, og hañs Riettlætis, og mun ydur allt þetta til-leggiast. Og fyrer þvi skulud þier ei Oñ ala Añars Morguns, af þvi ad Morgun-Dagur mun Kvijda fyrer sialfum sier bera, Hvorium Deige næger sijn Piauning.

# XII. Capitule.

## Predikun Christi a Fiallenu, a moote Hleppe-Doomum, Fals-Spaam oñum og Hræsnurum.

Matth. 7. Luc. 6.

Dæmed ei (f) skulud þier Dæma so ad þier verded ei Dæmder, a þviad med hvor-ium Doome þier Dæmed, munud þier Dæmd-

Dæmder verda, (c) Fordæmed eige, so ad þier Fordæmest eige, Fyrergiefed, þa mun ydur og Fyrergiefast, Giefed og skal ydur giefast, Fulla og Samþryckta, Skiekna og Yferflidotanlega Mæling munu Meñ giefa i ydart Skaut, (f) Þviad riett med þeirre somu Mælingu hvørre þier mæled wt, mun ydur aptur mælast.

Og hañ sagde þeim Eina Epterlijking: Fær Blindur vijsad Veg Einum Blindum? Falla þeir ei bader i Grøfena? Eige er Læresveirneñ yfer



sijnum Meystara, þvi nær Læresveirneñ er so sem hañs Meystare, þa er hañ algiørdur. (f) Eñ hvad sier þu Ogn i þijns Broodurs Auga, Eñ ad þeim Biælka, sem er i siælfs þijns Auga, gæer þu ecke? Eda hvørneñ mattu seigia Broodur þijnum Brooder, Leif ad eg drage Ognena wr Auga þijnu,

er þu sier ei siaalfur Biaalkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnare, Drag þu fyrst wt Biaalkañ wr þijnu Auga, og siaa þa til, ad þu faaer wtdreiged Ognena wr þijns Brooðurs Auga.

(a) Eige skulud þier giefa Hundum Helgedoomeñ, og varped ei helldur Perlum ydar fyrer Svijn, so ad eige trode þau þær med Footum sier, og ad snweist þau vid, og ydur i sundur slijte. Bidied og mun ydur giefast, Leited og munud þier fiña, Knijed og mun fyrer ydur upplokeð. Þviad hvor ed bidur, hañ odlast, hvor ed leitar, hañ fiñur, og fyrer þeim er aaknijr, mun upplokeð.

Hvør er saa Madur aa medal ydar, ef Sonureñ bidur hañ um Braud, ad hañ biooðe honum Stein. Ellegar ef hañ bidur um Fisk, ad hañ biooðe honum þa Høggorm. Nu ef þier sem þo erud Vonder, kuñed ad giefa Goodar Giafer Børnum ydar, hvad miklu meir mun ydar Fader saa aa Himnum er, giefa þeim Gott er hañ bidia.

Allt hvad þier vilied Meñerner giøre ydur, þad skulud þier og þeim giøra, Þad er Løgmaaled og Spaameñerner.

Gaanged iñ um hid þraungva Port, þvi ad þad Port er vijdt og saa Vegur er breidur sem leider nid ur til Fortøpunar, og þeir eru marger, sem aa hoñum reika. Og þad Port er þraungt, og saa Vegur er mioor, sem til Lijfsins leider, og þeir eru faaer er hañ rata.

Vakted ydur fyrer Fals-Spaamoñum, sem til

ydar

ydar koma i Klædum Saudaña, eñ iñañ til eru þeir alepsande Ulfar. Af Avortum þeirra meige



þier þa kieña, Verda nockud Vijn-Bereñ samañ leseñ af Þyrnum. Ellegar Fijkur af Þystlum. So mun og hvort gott Trie giora goodañ Avoxt, eñ hvort vondt Trie vondañ Avoxt.

(c) Þvi eckert gott Trie ber sveñ Avoxt, og eckert sveð Trie ber goodañ Avoxt, hvort Trie þeckest af siinum Avexte, þvi ei lesa Meñ samañ Fijkiur af Þyrnunum, og ei hellður Vijnber af Þystlum. (a) Gott Trie gietur ei fært vondañ Avoxt, og ei hellður gietur vondt Trie fært goodañ Avoxt. Hvort það Trie sem ecke færer goodañ Avoxt mun upphoggveð verda og i Elld kastast. Fyrer þvi meige þier af þeirra Avoxtum þeckia þa. (c) Goodur Madur af goodum Siood sijns Hiarta fram- ber

ber gott, og illur Madur af vondum Siood siins Hiarta framber illt. Pviad pad sem Hiartad er fullt af, pad flooer wt af Muñenum.

Til hvors kalle pier mig Herra, Herra, og gio⸗red eige pad eg seige. (a) Peir munu ei aller sem til mijn seigia Herra, Herra, iñganga i Guds Rijke, helldur peir sem giora Vilia mijns Fod⸗urs i Himnenum. Marger munu til mijn segia aa peim Deige. Herra, Herra; Hofum vier ei spaad i pijnu Nafne, hofum vier eige i pijnu Nafne Diofla wtreked, hofum vier ecke i pijnu Nafne morg Kraptaverk giort? Og eg mun pa Jaata fyrer peim, ad alldrei peckta eg ydur, far⸗ed fra mier aller Illgiorda Meñ.

(a) Fyrer pvi (c) hvor hñ kiemur til mijn, (f) og heyrer pesse mijn Ord og giorer pau, (c) pañ mun eg syna ydur, hvorium hañ er lijkur, (a) honum lijke eg vid eirn vitrañ Mañ (f) sem upp⸗bygde Hws sitt, (c) og groof diwpt og sette pess Grundvoll aa Hellubiarge, (a) og er Steipedogg giorde og Vatnsflooded kom og Vindar bliesu, og dundu aa Hwsenu, (c) maatte pad ei hræra wr Stad, (a) og Hwsed fiell ei ad helldur, (f) pvi ad pad var grundvallad yfer Helluna. (a) Eñ hvor hañ heyrer pesse mijn Ord (f) og giorer pau eige, hañ er lijkur peim (a) faavijsum Mañe, (f) sem bygde Hws sitt (a) aa Sande, (c) aa Iordu aan Grundvallar. (a) Pa nu Steipedogg giorde og Vatnsflooded kom, og Vindar bliesu og dundu

at þvi Hwſe, (f) þa fiell þad (c) jafnſnart. (f) Og Hrapan þeſs Hwſs vard mikel. (a) Og þad ſkiede þa JEſus hafde lycktad þeſſa ſijna Rædu, ad Foolked furdade hañs Kieñing, þviad hañ predikade vollduglega, og eige lijka ſem hiner Skriptlærdu.

# XIII. Capitule.

## Uñ Lækning Eins Spitelſks Mañs, er ſkiede epter endada þeſſa Predikun. Item uñ Lækning Pioons Hundrads-Hoſdingians i Capernaum, og Uppvakning Sonar Eckiuñar af Naim.

Matth. 8. Luc. 7.

ENN (c) þa hañ hafde lycktad ſijna Rædu fyrer Foolkenu: a gieck hañ ofañ af Fiallenu, og margt Foolk fylgde



Honum epter. Og ſiaa ad Lijkþraar Madur kom,

tilbad hañ og sagde: HErra, ef þu villt þa kantu vel ad Hreinsa mig. Og JEsus wtriette siina Hond, snart hañ og sagde: Eg vil, vertu Hreirn, og jafnsnart vard hañ af siñe Liikþraa Hreirn. Og JEsus sagde til hañs: Siaa til, seig þad ei neinum, helldur far þu og syn þig Kieñemañenum, og offra þa Gaafu, er Moyses baud, til Vitnisburdar yfer þeim.

(c) OG JEsus gieck til Capernaum, eñ Pioon eins Hundrads-Hofdingia laa Daudsiwk ur, hvor ed honum var miøg Giedfelldur, og er hañ heyrde af JEsu, sende hañ þa Ellstu af Gydingum til hañs, og bad hañ ad koma, og giora siñ Pioon heilbrygdañ. Eñ er þeir komu til JEsu, baadu þeir hañ kostgiæfelega, og søgdu: Verdur er hañ þess, ad þu veiter honum þad, þviad hañ elskar vora Piood, og hefur uppbygt fyrer oss vort Samkundu Hws; Pa gieck JEsus med þeim þadañ: Og þa er hañ var nu ei laangt fraa Hwsenu, sende Hofuds-Madureñ Vine til hañs, og liet seigia honum: O HErra þiaa þig ei, þviad eg em ei verdur ad þu gaanger under mitt Pak. Par fyrer hef eg og eige reiknad siaalfañ mig Verdugañ til þijn ad koma. Helldur mælltu eitt Ord, og verdur miñ Pioon Heill.

(a) Eñ þa JEsus gieck iñ i Capernaum, kom Hofuds-Madureñ til hañs, bidiande hañ og sagde: Pioon miñ liggur heima, og er Icktsiwkur og kvelst þwnglega. JEsus sagde til hañs: Eg vil koma

koma og lækna hañ; Høfuds Madureñ svarade og sagde: HErra, eg em ei Verdugur ad þu gæinger under mitt Pak; Helldur seig þu Eitt Ord, og mun miñ Pioon heilbrygdur verda; (f) Þvi eg em Madur Yfervalldenu undergiefeñ, hafande under mier Strijds-Meñ: Og nær eg seige þessum far, þa fer hañ, og odrum kom, þa kiemur hañ, og Pioon mijnum giør þetta, og þa giører hañ þad. Pa JEsus heyrde þetta, undradest hañ (c) yfer honum, snerest vid (f) og sagde til Foolksins er honum epterfylgde (a) Sañlega (f) seige eg ydur: Slijka Trw hefe eg ei funded i Israel. (a) Eñ eg seige ydur: Admarger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham Isaach og Jacob i Himna-Rijke. Eñ Rijkesins Børn munu verda wtrekeñ i þin ytre Myrkur, þar vera mun Op og Tañagnijstran. Og JEsus sagde til Høfuds-Mañsins: Gack hiedañ, verde þier epter þvi sem þu Trwer. Og hañs Pioon vard Heill aa þeirre somu Stundu.

(c) Eñ er þeir sem voru wtsender, komu aptur til Hwssens, fundu þeir þañ Pioon er siwkur hafde vered, Heilbrygdañ.

(c) OG þad skiede epter þad, ad hañ gieck i eina Borg sem hiet Naim, og marger hañs Lærisveinar fylgdu honum og Fiølde Foolks. Eñ er hañ nalægdest Borgar-Hlided, Sia, þa var Framlideñ Madur boreñ wt, einka Sonur siñar Moodur, og hun var Eckia. Og mikell Borgar

Mwgur

Mœgur gieck wt med heñe. Og er DRotteñ leit hana, hrærdest hañ Myskunar þar yfer, og sagde til heñar: Æptu ei. Og hañ gieck þar ad, og Ahrærde Borurnar, eñ þeir ed bæru stoodu vid, og hañ sagde: Ungmeñe, eg seige þier, rijs upp. Og sæ reiste sig upp er Framlideñ var, og took ad



mæla, og hañ gaf hañ hañs Moodur. Eñ yfer alla þæ kom Otte, lofudu Gud og sogdu: Spamadur mikell er æ medal vor uppriseñ, og Gud hefur vitiad sijns Lijds. Og þesse Saga barst wt af honum um allt Juda-Land, og um øll kringumliggiande Lond.

## XIV. Capitule.

Um Sendefør Johañis wr Myrkva-Stof uñe til Christum, og Svar Christi þar uppæ. Item Loflegur Vitnisburdur Christi um Johañem.

Matth.

Matth. 11. Luc. 7.

Ellt þetta (c) kūngiørdu Johañi hañs Læresveinar. [a] Eñ þa Johañes heyrde i Bondunum Verken Christi, [c] Kallade



hñ Tvo af sijnum Lærefveinum til sijn, [f] og sende þa wt til JEsum, og liet seigia honum: Ertu sa er koma skal, Eda eigum vier ad vænta nockurs añars? [c] Eñ er þeir Meñ komu til hañs, sogdu þeir: Johañes Skijrare sende ockur til þijn, og liet seigia þier, Ertu sa sem koma mun, edur eigum vær añars ad bijda? Eñ a þeirre somu Stundu læknade hañ marga af Soottum sijnum og Meinum, og af illum Aundum, og morgum Blindum gaf hañ Syn. [f] Og JEsus svarade og sagde til þeirra, Fared þid og kūngiøred Johañe hvad þier hafed sied og heyrdt, þad Blinder sia, Hallter ganga,

Lijkþraaer Hreinsast, Daufer faa Heyrn, Dauder Uppriisa, Faatækum bodast Evangelium, og sæll er saa sem ei Hneixlast aa mier.

(f) ENN er Sendebodar Johañis voru burt geingner, Hoof JEsus ad seigia Foolkenu af Johañe, Hvad fooru þier wt i Eydemørk ad siaa? Eda villdud þier siaa Reyr af Vinde skiekeñ? Eda hvad erud þier wtgeingner ad siaa? Villdud þier siaa Mañ i miwkum Klædum? Siaaed, (a) Peir ed miwkañ Klædnad hafa (c) og i Diirmætum Klædum og Vellystingum lifa, (f) eru i Kongaña Hwsum. Eda hvad erud þier wtfarner ad siaa? Villdud þier siaa Eirn Spaamañ? Eñ eg seige ydur, þañ er meire er eñ Spaamañ, þviad hañ er saa, af hvørium skrifad er, Siaa, Eg sende miñ Eingel fyrer þijnu Auglite, saa ed tilreida skal þiñ Veg fyrer þier. (a) Sañlega seige eg ydur, aa medal allra þeirra sem af Konu eru fædder, (c) Er eingeñ Spaamadur (a) uppkomeñ, saa meire sie eñ Johañ es Skijrare, (f) eñ saa miñe er i Himnarijke er hønum meire. (a) Eñ i fraa Døgum Johañis, og allt til þess nu er komed, þoler Himnarijke Ofurefle, og þeir sem Ofurefled giøra, hreña þad til sijn, Pviad aller Spaameñ og Løgmaaled Spaadu til Johañem, og ef þier vilied þad medtaka, þa er hañ Elias, saa er koma skal, Hvør Eyru hefur ad heyra, hañ heyre. (c) Og allt þad Foolk er tilheyrde, og lijka Tollheimtumeñ Riettlætte Gud, og lietu skijra sig med Skijrn Johañis, Eñ Pharisei og Løg-Spek-

ingar

ngar forsmadu Guds Rad i moote sialfum sier, sem lietu eige skijrast af honum.

[c] Eñ Drotteñ sagde: [f] Vid hvad skal eg jafna Moñum þessarar Kynsloodar? [c] Hvoriu eru þeir lijker? [f] Bornum þeim eru þeir lijker sem sitia a Torge, og hroopa [a] til siña Stallbrædra [c] hvor til añara [f] Seigiande: Vær hofum fyrer ydur i Pijpur blased, og þier villdud eige dansa, vær þulldum ydur vorar Rauner, og þier villdud eige grata, þviad Johañes Skijrare kom, at eige Braud nie drack Vijn, þo seige þier, hañ hefur Diøful, Mañsins Son er komeñ, Etur og Dreckur, og þier seiged: Siaed, sa Madur er eirn Etare og Vijndryckiu-Madur, Vinur Tollheimtu-Maña og Bersyndugra, og Spekeñ hlijtur so ad Riettlætast, af [c] øllum [f] sijnum Bornum.

[a] ÞA took hañ til ad avijta þær Börger, i hvorium giørd voru flest hañs Krapta-Verk, ad þær hefdu ei betrad sig. Vei þier Chorazin! Vei þier Bethsaida! þviad ef i Tyro og Sidon hefde giørst soddañ Krapta-Verk, sem hia ydur hafa giørst, hefdu þær fyrer løngu i Seck og Ausku, ydran giørt. Eñ þo seige eg ydur, ad Tyro og Sydon mun bærelegra vera a Deige Doomsins, helldur eñ ydur. Og þu Capernaum, sem allt til Himens ert upphafeñ, munt nidur þryckiast allt til Helvijtis. Þviad ef i Sodoma hefdu þau Krapta Verk giørst, sem hia þier hafa giørd vered, þa stæde hun eñ i Dag. Eñ þo seige eg ydur þad, ad bærelegra

relegra mun vera Lande Sodoma ꝯ Dooms-Deige eñ þier.

# XV. Capitule.

## Packargiørd Christi fyrer Auglijsing Evangelij, hañs Huggunarsama Tilbod, og Aflausn þeirrar Bersyndugu Konuñar i Hwse Simonis Phariseara.

Matth. 11. Luc. 7.

Á Sama (a) Tijma andsvarade JEsus og saade. Eg Prijsa þig Fader og HErra Himens og Jardar, ad þu dulder þetta fyrer Spekingum og Forvitringum, og Opeñberader þad Ungbørnum. Ad soñu Fader, þvi ad so var þad þægt fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Walld giefner, af mijnum Fødur, og eingeñ kieñer Soneñ nema Fadereñ, og eingeñ kieñer Fødureñ nema Sonureñ, og hvorium ad Sonureñ vill þad Opeñbera.

Komed til mijn aller þier sem Erfided, og Þwngaerud hladner, Eg vil Endurnæra ydur. Taked ꝯ ydur mitt Ok, og læred af mier, þvi eg em Hoogvær, og af Hiarta Lijtelaatur, og munud þier Hvijld fiña Saalum ydrum. Þviad mitt Ok er Sætt, og mim Byrde er Liett.

(c) EN Eirn af Phariseis bad hañ ad hañ æte med hønum, og hañ gieck iñ i Phariseans Hws, og settest til Bords. Og sia, ad Kona var su i Borgeñe, ad Bersyndug var, og er hun vissi

visse ad JEsus sat til Bords i Phariseárans Hwse, hafde hun þangad Alabastur med Salve. Og foor aa Bake til Foota hañs, og griet, og took ad væta hañs Fætur med Taarum, og ad þurka þaa med sijnu Hofud-Haare, og kyste aa hañs Fætur, og smurde þaa med Salve. Eñ þa saa Phariseus sa þad, sem honum baud iñ, mællte hañ med sier og sagde: Ef ad þesse være Spaamadur, þa visse hañ hver og hvilijk være su Kona er aa honum tekur, þviad hun er Ein Bersyndug Kona. JEsus svarade og sagde til hañs: Simon, Eg hefe nockud ad seigia þier, Eñ hañ sagde: Seig þu Meistare. Tveir Skullda-Meñ voru nockurs Okur Mañs, Eirn var honum skylldugur Fim̃ Hundrud Peninga, eñ Añar Fimtyger. Og er þeir hofdu ei ad giallda, gaf hañ þeim þad upp baadum, Seig nu: Hver þeirra mun elska hañ meir? Simon svarade og sagde: Eg meina ad saa sem hañ gaf meira upp, Eñ hañ sagde til hañs: Þad wrskurdader þu riett. Og hañ snere sier til Kviñuñar, og sagde til Simonar: Sier þu þessa Konu? Eg gieck iñ i þitt Hws, og þu gafst mier eige Vatn handa mijnum Footum, Eñ þesse vætte mijna Fætur med Taarum, og þurkade med sijnu Hofud-Haare. Koss gafstu mier ongvañ, Eñ þesse, sijdañ hun gieck hier iñ, hefur hun eige liñt ad kyssa mijna Fætur. Mitt Hofud smurder þu eige Vidsmiore, Eñ þesse smurde mijna Fætur med Salve. Fyrer þad seige eg þier, ad heñe fyrergiefast margar Synder,

þvi ad hun elsl ade myked: Eñ þeim sem miña fyr-ergiefst, hañ elskar midur. Og hañ sagde til heñ-ar: Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Þa tooku þeir til, sem vid Bordeed sætu hiaa honum, og sogdu med siaalfuñ sier: Hvør er þesse, sa er fyrergiefur Syndernar? Eñ hañ sagde til Kon-uñar: Þijn Trw giorde þig hoolpna, Far i Fride.

## XVI. Capitule.

Uñ Yferferd Christi i giegnum Borger og Kauptun, og hañs apturkomu til Caper-naum i sitt Hws, hvar hañ wtrak Diøful þañ er Blindur var og Maallaus, Item uñ þa Rædu er þar wt af reis.

Matth. 12. Marc. 3. Luc. 8.

OG (c) þad skiede epter þad hañ ferdadest i giegnum Borger og Kauptwn, predik-ande og bodande Evangelium af Guds



Rijke, og þeir toolf med honum; Og nockrar þær

Konur sem hañ hafde grædt af ohreinum Aundum, og Soottarferlum, sem var Maria su er hiet Magdalena, fraa hvorre ad sio Dioflar hofdu wtfared. Og Johaña Hwsfrw Chusa Forsioonar Mañs Herodis, og Susaña, og margar adrar þær honum veittu af sinum Eignum. (b) Og þa er þeir komu til Herbergis, kom Foolked eñ samañ aptur, so ad þeir gaatu eige matast fyrer þvi. (a) Þa var til hañs hafdur Diofuloodur Madur, sa er Blindur var og Maallaus, og hañ læknade hañ, so ad hiñ Blinde og Dumbe talade og saa, og allt Foolked ottadest og sagde: Er þesse ei Sonur Davids? Eñ er Pharisei heyrdu þad, sogdu þeir, eige rekur þesse Diofla wt odruvijs nema fyrer Belzebub Diofla Hofdingia. (b) Og þa er þeir heyrdu þad, sem med honum voru, geingu þeir wt og villdu hamla honum, þviad þeir sogdu ad hañ munde gaanga af Vitenu. Eñ hiner Skriptlærdu sem ofañ fra Jerusalem voru farner, sogdu, hañ hefur Belzebub, og fyrer Diofla Hofdingia, þa rekur hañ Diofla wt.

EN (a) JEsus fornam þeirra Huxaner. (b) Og ad þeim samañkolludum, sagde hañ i Epterlijkingum til þeirra, Hvorneñ fær eirn Satan añañ wtreked? (c) Hvort Rijke sem i siaalfu sier er sundurþyckt mun eydast, og hvor su Borg, edur Hws sem i siaalfu sier er sundurþyckt fær ei stadeð. Ef eirn Satan rekur añañ wt, þa er hañ sundur-þyckur moote siaalfum sier, og fær hañs Rijke

þa ei ſtadeð, [b] helldur er þad wtgiort um̃ hañ. [a] Og ef eg wtrek Dioſla fyrer Belzebub, fyrer hvorn verda þeir þa af ydrum Bornum wtreknet? Af þvi verda þeir og ydrer Doomendur. Eñ ef eg wtrek Dioſla með Guds Anda, þa er Guds Rijke til ydar komeð. [c] Edur hvorneñ fær nockur iñgeingeð i hiñs Oſluga Hws, og hañs Bwshlutum i burt rænt, utañ ſo ſie hañ binde aadur hiñ Oſluga, og ræne ſijdañ hañs Hws; [a] Hvor hañ er eige með mier, ſa er aa moote mier, og hvor eige með mier ſafnar, ſa ſundurdreifer. Fyrer þvi ſeige eg ydur [b] Sañlega, [c] að allar Synder fyrergiefaſt Mañaña Bornum, og eirneñ Gudlaſtaner, þær þeir laſta Gud með Eñ ſa er laſtar Heilagañ Anda, hañ hefur ongva Fyrergiefning; [a] Og hvor hñ talar nockuð i moote Mañſins Syne, honum mun fyrergiefaſt. Eñ hvor eð talar nockuð aa moote heilogum Anda, honum mun hvorke fyrergiefaſt i þeſſum Heime nie odrum [b] að eilijfu, helldur verdur hañ ſekur eilijfs Doms, þvi þeir ſogðu: hañ hefur ohreinañ Anda. [a] Añad hvort ſetieð gott Trie og mun Avoxtureñ goodur, ellegar ſetieð vondt Trie, og mun Avoxtureñ vondur, þviað af Avextenum þeckeſt Trieð. Þier Nodrukyn; Hvorneñ meigeð þier gott mæla, a meðañ þier eruð vonder? Það ſem Hiartað er fullt af, það ſlijtur wt af Muñenum. Goodur Maður framſlitur gott af goodum Sioð ſijns Hiarta, eñ vondur Maður af vondum Sioð ſijns Hiar-

Hiarta, framflitur vondt. Eñ eg seige ydur, af hvöriu þvi faafeingu Orde, sem Meñerner tala, munu þeir Reikningsskap giöra aa ytsta Doome. Af þijnum Ordum muntu riettlætast, og af þijnum Ordum muntu fordæmast.

PA svörudu nockrer wt af Skriftlærdum og Phariseis og sögdu, Meistare, vier villdum Teikn af þier siaa. Hañ svarade, og sagde til þeirra: Þetta vonda og hoorunarsama Sleckte leitar Teikns, og þvi mun ei Teikn giefast, nema Teikn Jonæ Spaamañs. Þviad so sm̃ Jonas var i Kvide Hvalsins Priaa Daga og Priaar Nætur, so mun Mañsins Son vera midt i Jördu, Priaa Daga og Priaar Nætur. Meñ Ninive Borgar munu upp rijsa a efsta Doome, med þessare Kynslood, og munu hana fordæma, þviad þeir giördu Ydran epter Predikun Jonæ. Og siaa: Hier er meire eñ Jonas. Drottningeñ af Sudre mun upprijsa aa efsta Doome med þessare Kynslood, og mun hana fordæma, þviad hun kom af Endemörkum Jardar, ad heyra Speke Salomonis. Og siaa: Hier er meire eñ Salomon. Nær ohreirn Ande er fareñ wt af Mañenum, reikar hañ um̃ þurra Stade, leitande Hvijldar, og fiñur eige. Þa seiger hañ, aptur vil eg snwa i mitt Hws, þadañ eg wt foor, og nær hañ kiemur, fiñur hñ þad toomt, soopad og faagad. Þa fer hañ burt og tekur sio adra Anda med sier, þeir ed verre eru eñ sialfur hañ, og nær þeir eru iñkomner, byggia þeir þar, og verdur þa

þeß Manñs sijdara verra þvi hinu fyrra. Som mun og skie þeßa vonda Kynslood.

Sem hañ vár eñ þetta ad tala til Foolksins, siæ: [c] ad Mooder hañs og Brædur geingu frañ ad, [a] stoodu fyrer utañ og villdu tala vid hañ, [c] eñ kuñu ecke ad komast til hañs fyrer Foolkenu, [b] sendu (þvi) til hañs kallande æ hañ, og Foolked sat kriingum hañ, (c) og honum var þad undervijsad, Mooder þijn og Brædur þijner standa þar [h] wte [b] spyria ad þier [c] og vilia siæ þig [a] og tala vid þig. [h] Eñ hañ svarade og sagde til þeirra, [c] Hvør er mijn Mooder, og hvorier eru mijner Brædur? [b] Pa leit hañ uñ sig til Læresveinaña er sætu i kryngum hañ [a] og riette wt sijna Hønd yfer sijna Læresveina og sagde; Siaid: Par er mijn Mooder og mijner Brædur, þviad hvør hañ giorer Vilia mijns Fødurs sem æ Himnum er, [c] og þeir ed Guds Ord heyra og giora, [h] eru mijn Mooder, mijn Syster og miñ Brooder.

# XVII. Capitule.

## Su merkelega Predikun Christi sem hañ framsette vid Siafar-Sijduna af Skipenu, Hafande iñe ad hallda Epterlijkingar.

1. Af Sædenu sem fiell i Fernslags Jørd.
2. Af hvi er Siælfkrafa Ox.
3. Uñ Illgresed.
4. Uñ Mustards-Korned.
5. Uñ Swrdeiged.

Matth

Matth. 13. Marc. 4. Luc. 8.

Þeim (a) sama Deige, gieck JEsus wt af Hwsenu og sette sig nidur vid Siooen. (c) En þa er margt Foolk var samankomed, og þeir skundudu til hans wr Stodunum, (b) Took han en aptur til ad kiena þeim vid Siooen. (c) Þar safnadest saman margt Foolk til hans, so ad han vard ad stijga aa Skip og sat (b) aa Sioonum, (c) Og allt Foolked stood þar aa Lande vid Siooen (a) i Fiorune, og han talade til þeirra, (b) Og Predikade leinge fyrer þeim i Epterlijkingum, og i sine Predikun þa sagde han til þeirra (c) i Eirne Epterlijkingu. (b) Heyred til:

(l) Eirn Saad-Madur gieck wt ad saa (c) sijnu Sæde, (b) og þad vard (l) i þvi han sæde,



ad sumt fiell utan hiaa Veigenum, (c) og vard Foot-

Foot-troded (l) Og þa komu Fuglar Himens og ætu þad upp. Eñ sumt fiell i Grijtt Akurlende, b) þar þad hafde ecke mikla Jørd, og rañ fliootlega upp, þviad þad hafde øngva Jardar-Dypt, (e og þa er Sooleñ gieck upp, skrældest þad (f) og visnade, (c) af þvi þad hafde ecke Root nie Vøkva. l) Og sumt fiell a medal Pyrna, og Pyrneñ spruttu upp med og kiæfdu þad, (b) og þad færde øngvañ Avøxt, (l) og sumt fiell i gooda Jørd og færde Avøxt, (b) uppvoox og friovsgadest, (e) Og sumt færde Þrijtugfalldañ, og añad Sextugfalldañ, og sumt (l) Hundradfalldañ Avøxt. (c) Pa hañ taladе þetta, kallade hañ og sagde til þeirra: (l) Hvør hañ hefur Eyru ad heyra, Saa heyre.

b) OG þa hañ var Einsamall, (a) Geingu hañs Læresveinar til hañs og søgdu: Fyrer þvi talar þu til þeirra i Epterlijkingum? (b) Og þeir sem hiaa honum voru med þeim Toolf, spurdu hañ ad þessare Epterlijkingu, (c) hvør hun være. (l) Eñ hañ (a) svarade (l) Og sagde til þeirra.

Ydur er þad giefed ad vita Leyndardooma Himnarijkis, (e) Eñ hinum (c) ødrum (b) sem þar eru fyrer utañ (a) er þad eige giefed helldur (b) skier þad allt (h) i Epterlijkingum, so ad þeir Siaaande (b) siaæ þad, (h) og skynie þo eige, og Heyrande (b heyre þad, (h) og underskande þo eige. (b) So þeir snwest ecke, þad þeirra Synder Eitt Siñ mættu fyrergiefast, (a) Þvi hvør hañ hefur, honum mun giefast so hañ gnoog hafe, eñ saa sem ei hefur, af honum

um mun og taraſt þad hañ hefur. Fyrer þvi þa tala eg til þeirra i Epterlijkingum, þviad med ſiaandi Augum ſiaa þeir eige, og med heyrande Eyrum þa heyra þeir eige, þviad þeir ſkilia þad ei. Og aa þeim mun uppfyllaſt Spaadoomur Eſajæ er ſeiger: Med Eyrunum munud þier heyra, og munud þier þad ei ſkilia, og med ſiaande Augum munud þier ſiaa, og ei ſkynia, Þviad þeſſa Foolks Hiarta er forhardnad, og þeirra Eyru eru Þwngheyrd, og þeirra Augu ſamañlykiaſt, ſo ad þeir eige Einu Siñe med Augunum ſiaa, og med Eyrunum heyre, nie med Hiartanu ſkilie til ad Leidrietta ſig, ſo ad eg hiaalpe þeim.

Eñ Sæl eru ydar Augu, þad þau ſiaa, og ydar Eyru þad þau heyra. Sañarlega ſeige eg ydur: Ad marger Spaameñ og Riettlaater, fijſtuſt ad ſiaa hvad þier ſiaaed, og hafa þad ecke ſied, og ad heyra hvad þier heyred, og hafa þad eige heyrt.

(b) Og hañ ſagde til þeirra: Kuñe þier ecke ad ſkilia þeſſa Epterlijking? Hvorneñ munud þier þa kuña ad ſkilia hinar allar? (a) Af þvi heyred Epterlijkinguna um Saad-Mañeñ, (c) Þvi þetta er Epterlijkingeñ. (b) Saad-Madureñ ſaaer Ord enu, (c) Sæded er Guds Ord, (h) Eñ þeſſer eru þeir ſem utañ hiaa Veigenum eru, hvar Orded verdur ſaad (c) ſem heyra þad, (b) Og þa þeir hafa heyrt þad, (h) kiemur Dioſulleñ (b) ſtrax (c) epteraa (h) og nemur burt Orded, þad ſaad var i þeirra Hiortum, (e) ſvo þeir trwe eige og verde

verde hoolpner, (a) (þvi) þa er nockur heyrer Ord ed Rijkesins og underſtendur þad ei, kiemur hiñ Vonde og hripſar burt hvad ſaad er i hañs Hiarta. [a] Eñ þad ſem i Grijtta Jord fiell [c] a Hell uñe eru þeir [l] ſem medtaka Orded ſtrax med Fagnade þa þeir heyra þad, eñ hafa ongva Root i ſier, [e] helldur hallda þeir vid [c] og trwa [l] um Stun darſaker, [e] eñ nær Hrellingar og Offookner hefiaſt fyrer Ordſins Saker, hneixlaſt þeir jafnſkiott [c] og falla fra a Freiſtingar-Tijmanum. (l) Eñ þad ſem var ſaad og fiell a medal Þyrna, eru þeir ſem heyra Orded (c) og velkiaſt i Sorgum Audæfum og Vellyſtingum þeſſa Heims, og (e) Ahyggia þeſſarar Veralldar, og Svikſeme Rijkedæmiſins, (b) og adrar fleire Girnder iñgaangande (l) kiefia Orded, ſo þad blijfur aan Avaxtar, (c) og þeir færa ongvañ Avoxt. (l) Eñ þad ſem i Gooda Jord fiell, eru þeir ſem heyra Orded, (b) medtaka þad (c og hallda þvi i goodu ſidſomu Hiarta (a) underſtanda þad (l) og færa Avoxt (c) i Þoleñmæde, (e) ſumer Þrijtugfalldañ, ſumer Sextugfalldañ, ſumer Hundradfalldañ. (b) Og hañ ſagde til þeirra: Hveikeſt nockud Lioosed til þeſs ad þad ſetieſt under Mæle-Aſk Bord edur Beck? Aungvaneigeñ, (h Helldur ſetur hañ þad i Kierta-Hallden (c) ſo þeir ſem þar iñgaanga ſiaae Lioosed, (h) Þvi eckert er ſo huled, ad eige verde Opeñbert, og eckert ſo leynt, ad þad eige kuñgioreſt og kome i Lioos, (b) Hvor hañ hefur Eyru ad heyra, Saa heyre. Og hañ ſagde til

til þeirra: Fyrer þvi giæted ad, (b) hvad (c) og hvorneñ (h) þier heyred, (k) med þeim Mæler er þier mæled wt, þa mælest ydur iñ, og ydur sem þetta heyred skal vid aukast, (h) þviad þeim er hefur honum mun giefast, og hvor hellst eckert hefur, fra honum mun burttakast, eirneñ þad hñ meinar sig hafa.

[b] Og hañ sagde, Guds Rijke er so vared sem þa Madur kastar Fræe i Jordena, og sofnar, og hañ stendur upp Noott og Dag, eñ Fræed grær og vex upp, so ad hañ veit eige, þviad Jordeñ fæter af sier sialfre, i fyrstu Grased, þar næst Axed, og so þar næst fullt Hveite i Axenu, og er þad hefur framleidt Avoxteñ, þa sender hañ strax Kornsigdena, þviad Kornskurdar Tijmeñ er þa.

[a] Adra Epterlijking lagde hañ þeim fyrer og



sagde, Himnarijke er lijkt þeim Mañe, sa er saide goodu

goodu Sæde i Akur sinn. Enn þa Menn svafu kom hanns Ovinur og sáde Illgrese i bland Hveitesins, og foor i burt. Enn er Sæded spratt upp og bar Avoxt, þa auglystest og Illgresed. Pa geingu Pienararner til Hwssfodursens og sogdu, Herra, sáder þu ei goodu Sæde i Akur þinn, hvadann kiemur honum þa Illgresed? Hann sagde til þeirra: Pad hefur Fiandmadurenn giort, þa sogdu Pienararner, villtu ad vær forum og wtlesum þad? Hann sagde Nei, so ad þier uppræted ecke Hveited under eins nær þier wtlesed Illgresed. Lated hvoru-tveggia vaxa asamt til Kornskurdar, og a Kornskieru Tijma skal eg seigia til Kornskurdar Manna: Lesed fyrst Illgresed samann, og binded þad i Bindine til Brennslu, Enn Hveitenu samannsafned i mijna Kornhlodu.

(a) Aðra Eptirlijking lagde hann framm fyrer þa (e) og sagde. (b) Hvoriu skulum vier jafna Guds Rijke, edur vid hvoriar Eptirlijkingar viljum vier þvi samlijkia? (a) Himnarijke er lijkt (e) Einu Mustards-Korne, þad Eirn Madur took og sáde i Akur sinn, hvad ed minnst er allra Sæda (b) a Jordunne, þa þvi verdur i Jord sád, enn þa þvi er sád, vex þad upp, (c) og er ollum Kaal-Grosum stærra, (a) verdur eitt Trie (b) og fær mikla Kvistu (c) so ad Fuglar Himens koma og kunna ad byggia under þess (a) Kvistum og (b) Skugga.
(a) Eina adra Eptirlijking talade hann til þeirra. Lijkt er Himnarijke Swrdeige, þad ein Kona took

og

og blandade vid Prior Mælera Miöls, þar til þad fyrdest allt i giegn.

Þetta allt talade JEsus i Epterlijkingum til Folks sins, b og i slijkum mørgum Epterlijkingum kiende han̄ þeim Orded, epter þvi sem þeir þad heyrt gatu, (a) og fyrer utan̄ Epterlijkingar talade han̄ ecke til þeirra, [b] en̄ sierdeilis þa lagde han̄ þad allt wt fyrer sijnum Læresveinum, [a] So ad uppfylltest þad sagt er fyrer Spaman̄en̄, þan̄ er seiger: Min̄ Mun̄ vil eg uppliwka i Epterlijkingum, og heimuglega Hlute mun eg wtmæla fra Upphafe Veralldar.

# XVIII. Capitule.

## Utlegging Epterlijkingaren̄ar um̄ Illgresed, Item adrar Epterlijkingar.

1. Um̄ han̄ svolgna Fiesiood.
2. Um̄ Perluna.
3. Um̄ Neted.

Matth. 13.

Þa liet JEsus Foolked fra sier fara, og kom heim, og han̄s Læresveinar geingu til han̄s, og søgdu: Utþijd þu oss þa Epterlijking, um̄ Illgresed a Akrenum.

Han̄ svarade og sagde til þeirra: Han̄ sem sæer goodu Sæde, er Man̄sins Sonur. En̄ Akuren̄ er Heimuren̄, gooda Sæded eru Rijkesins Børn, en̄ Illgresed eru Børn þess Vonda. Ovinuren̄ sa þeim sade, er Diøfullen̄, en̄ Kornskieru Tijm-

eñ er Ending Veralldar, Kornſkurdar-Meñerner eru Einglarner: Þvi lijka ſem nu verdur Jllgreſed wtleſed, og i Ellde brendt, ſo mun og ſkie i Enda þeſſarar Veralldar. Mañſins Son mun wtſenda ſijna Eingla, og þeir munu ſamañſafna wr hañs Rijke ollum Hneixlunum, og þeim er Rangindе giora. Og þeir munu kaſta þeim i Elldſins Ofn, þar mun vera Grꝏtur og Tañа-Gnijſtran.

Eñ þa munu Riettlꝏter liooma ſem Sool i Rijke Foдurs þeirra. Hvor Eyru hefur ad heyra, Sꝏ heyre.

ENN aptur þa er Himnarijke lijkt Einum foolgnum Fieſiood ꝏ Akre, hvorn ed Madur fañ og falde hañ, og af þeim Fagnade ſem hañ hafde yfer honum, gieck hañ burt, og ſellde allt hvad hañ hafde, og keypte hañ ſama Akur.

OG eñ aptur er Himnarijke lijkt þeim Kaupmañe, er ad goodum Perlum leitade. Og þa hañ fañ Eina Forkoſtulega Perlu, foor hañ og ſellde allt hvad hañ hafde, og keypte þa ſomu.

OG eñ aptur er Himnarijke lijkt Nete þvi ſem i Sioo var kaſtad, med hvoriu, af ollu Fiſka-Kyne dreiged verdur. Eñ nær þad er fullt, draga þeir þad i Fioruna, ſitia ſijdañ og ſamañleſa hina goodu i Kierolld, eñ vondum kaſta þeir wt. So mun og ſkie i Enda Veralldar, ad Einglar munu wtfara, og hina Vondu frꝏ Riettlꝏtum ſkilla. Og þeim munu þeir kaſta i Elldſins-Ofn, hvar vera mun Op og Tañа-Gnijſtran. Og JEſus ſagde

sagde til þeirra: Hafed þier allt þetta unDerstadeD? Þeir søgdu: Ja HErra. Þa sagde hañ: Fyrer þvi hvør sa Skriftlærdur sem til Himnarijkis mentadur er, hañ lijkest þeim Hws-Fodur sem frambar af sijnum Fiarsiood Nytt og Gamallt.

# XIX. Capitule.

Uñ Reisiuna Christi i Land þeirra Gadarenorum edur Gergesenorum, og hvad þar giørdest.

Matth. 13. og 8. Marc. 4. og 5. Luc. 8.

OG (a) þad skiede þa JEsus hafde endad þessar Epterlijkingar, ad hañ gieck þadañ, [c] og sama Dags ad Kvøllde þa sagde hañ til siña Læresveina: Førum vier hier yferum.

[a] Og er JEsus leit margt Foolk i kriingum sig, baud hañ þeim ad þeir fære yferum hinumeigeñ Siaafarens, og eirn Skriftlærdur gieck ad og sagde til hañs: Meystare eg vil fylgia þier hvørt þu fer, JEsus sagde til hañs: Refar hafa Holur, og Fuglar Loptsens Hreidur, eñ Mañsens Son hefur eige hvar hañ sitt Høfud ad hneige. Og eirn añar af hañs Læresveinum sagde til hañs: Lavardur, lofa mier fyrst ad fara og greftra Fødur miñ, JEsus sagde til hañs: Fylg þu mier epter, og lat þa Daudu greptra sijna Daudu.

[b] Og þeir forlietu Foolked, [e] eñ hañ stie a

Skip, og hañs Læresveinar fylgdu honum, [c] þa sagde hañ til þeirra, forum vær yferum Siooeñ, og þeir yttu fra Lande, [b] þar voru og fleyre Skip. [c] Eñ er þeir fooru yferum, sofnade hañ, [a] og sia, mikell Stormur giørdest i Sioonum, [b] og Hvirfilvindur, so Bylgiurnar fiellu yfer þa og [b] Skiped, og þad fyllteſt upp, (e) og þeir voru ſtadder i ſtoorum Voda, (b) eñ hañ ſialfur var i Skutnum, og ſvaf a einum Kodda. (f) Læresveinarner geingu til hañs og vöktu hañ upp, ſeigiande: (c) Meiſtare, Meiſtare, vær Forgaungum, (b) hyrder þu ecke uñ þad ad vier Tortijnunſt? [a] HErra hialpa þu oſs, þa ſagde hañ til þeirra: Hvad hrædeſt þier ſo, þier lijtiltrwader?

[l] Og hañ Reis upp, haſtade a Vindeñ og Siooeñ, [b] og ſagde til Siafarens: Þagna þu og vert hlioodur, og Vindeñ lægde, [c] og Vatns-Bylgiurnar ſeſuduſt, [l] og þar vard Logn miked, [b] hañ ſagde til þeirra: Þvi erud þier ſvo hrædder, edur Hvoriu giegner þad ad þier hafed øngva Trw? [c] Hvar er ydar Trw? [b] Og þeir Ottuduſt næſta miøg, [a] og Meñerner undruduſt [e] ſeigiande ſijn a mille, [b] hvør vid añañ: [a] Hvilijkur Madur er þeſſe, [c] þvi hañ bijdur Vinde og Vatne, [l] og þau hlijda honum? [h] Og þeir ſigldu og komu til Bygdar Gadarenorum, hinumeigeñ Siafarens, [c] hvør ed liggur jafngiegnt Galilea.

(h) Og

[h] Og þa hañ stie a Land [b] af Skipenu, þa hlioop strax i moote honum wr Grøfum Framlidena Maña, eirn Beseteñ Madur af Ohreinum Anda, (sem var) wr [c] Borgeñe og hafft hafde Diefla uñ langañ Tijma, og klæddest eige Fotum, var og eige i Hwsum, helldur [b] hafde sitt Hybijle i [h] Daudra Maña Grofum, [b] og eingeñ fieck hañ bunded og ei med Vidium, þvi hañ hafde opt bundeñ vered med Fiotrum og Vidium, og hafde Vidiurnar af sier slited, og Fioturen i sundur broted, og eingeñ fieck hañ tamed, og allt jafnt Nætur og Daga var hañ a Fiollum, og i Daudra Maña Grofum, kallande og lemiande sig med Grioote. [h] Eñ er hañ leit JEsum [b] aleingdar, hlioop hañ þangad, [h] og fiell fram fyrer honum, kallade upp hærre Roddu og sagde: Hvad hef eg med þig ad giora JEsus Sonur Guds hins hædsta? [c] Eg beide þig, [b] og sære fyrer Gud, [h] ad þu kvelier mig ecke, [e] þvi hañ baud þeim Ohreina Anda ad fara wt af Mañenum, [c] eñ hañ hafde uñ langañ Tijma hañ kvaled, hañ var og (sem adur er sagt) bundeñ med Vidium og i Fiotrum vardveittur, eñ ad slitnum Bondunum var hañ rekeñ af Dioflenum, a Eydemørk. [h] JEsus spurde hañ ad og sagde: Hvort er Nafn þitt? Hañ sagde: Legio er mitt Heite, þvi vær erum marger, c) þviad marger Dioflar voru i hañ farner, (h) og þeir bædu hañ (b) mikelega ad hañ ræke þa eñ

burt wr þeirre Bygd, (e)og eige ſkipade þeim ad fara i Underdiwpeñ, (l) eñ þar var (a) laangt i burt fraa þeim (b) hiaa Fiollunum, (l) mikel Svijna-Hiørd (h)aa Beit, (b)og Dioflarner bædu hañ aller og ſøgdu: (a)Ef þu rekur oſs wt, (l) þa leif oſs ad fara i Svijneñ, og JEſus leiſde þeim þad (b) ſtrax (a) og ſagde: Fared burt, (b) þa fooru þeir Ohreinu Andar (c) Dioflarner wt af Mañenum og hlupu i Svijneñ, (l) og Svijna-Hiørdeñ ſleigde ſier med miklum Pys i Sioo eñ (b) nær Tveim Puſundum, (l) og dreckteſt i Vatnenu.

(c) Eñ er þeir ſaau þad ſem Hiørdena geimdu hvad ſkiede, (b) ſlydu þeir, geingu i burt (g) og kuñgiørdu i Borgena og uppaa Landed (a) allt þetta. Pa geingu þeir wt ad ſiaa hvad ſkied hafde, og komu til JEſu, og (c) fundu Mañeñ af hvøriūm Dioflarner høfdu wt-fared (h) ſitiande klæddañ og Heilvita (c) til Foota JEſu, (h) og þeir urdu hrædder; Eñ þeir ſem þad høfdu ſied b) ſøgdu þeim hvørneñ giørt hafde vered vid hañ, ſem af Dioflenum hafde ſeteñ vered, (c) hvørniñ hañ være ordeñ Heilbrygdur, (b)og ſo fraa Svijnunum. Og (c) allur Mwgur Gadarenorum um̃liggiande Landa, (l) bædu [c] ad hañ vike burt fraa þeim, b] og ſære wr þeirra Lands-Alſum, [c]Pvi ad þeir voru af miklum Otta hallduer. Hañ ſtie þa aa Skip og ſnere apt ur, b og er hñ ſtie aa Skip, took ſaa til ad bidia hñ

er af Dioflonum hafde seteñ vered, [c] og af hvorium þeir hofdu wt-fared, [h] ad hañ mætte vera hiaa honum, [h] eñ JEsus lofade honum þad eige, helldur [b] liet hañ fraa sier (k) og sagde: Far heim aptur [b] i þitt Hws, og til þiña, [k] og kuñgior þeim hvad mikeñ Velgiorning DRotteñ Gud hefur giort þier [b] og vered þier Lyknsamur, [k] og hañ foor þadañ, Predikande [c] uñ alla Borgena [b] og þær Tiju Borger, [h] hvad mikeñ Velgiorning ad JEsus hefde honum giort, [b] og hvor Madur undradest þad.

N.B. Mattheus skrifar ad þeir Diøfulodu sem mættu HErranum Christo i Lande Gergeseners Maña: Hafe vered Tveir og misg Olmer: So eingeñ hefde maatt fara uñ þañ Veg. Eñ hier af skal eingeñ ætla, ad Gudspiallameñerner sieu ei Samhlioода: Þvi þo ad Marcus og Lucas giete alleinasta uñ Eirn Diøfulodañ, þa neita þeir ecke ad þeir hafe fleyre maatt vera i Fyrstuñe.

# XX. Capitule.

## Uñ Apturkomu Christi wr Lande Gadarenorum, til Capernaum, og þad Giestabod sem Mattheus giørde hønum i sijnu Hwse, Item uñ þa Spurning sem Læresveinar Johañis og Pharisæorum settu þar fram, uñ Føstuna.

Matth. 9. Marc. 2. Luc. 5.

HA (a) stie hañ aa Skip, og foor yfer uñ aptur, og kom i sijna Borg. [c] Og þad skiede so, þa JEsus kom aptur, ad

Foolked medtook hañ, og Levi tilbioo miked Giestabod i sijnu Hwse. [e] Og þad giørdest þa hañ sat til Bords i hañs Hwse, [l] ad marger Tollheimtumeñ og Bersynduger, settu sig til Bords med JEsu og hañs Læresveinum, [b] þvi þeir voru marger sem fylgdu hønum epter. (l) Og er þiner Skriftlærdu og Phariseí sáu þad, (b) ad hañ aat med Tollurum og Bersyndugum, [c] møgludu þeir vid hañs Læresveina og søgdu: [a] Hvi etur [b] og dreckur [a] ydar Meistare med Tollheimturum og Syndurum. [l] þa JEsus heyrde þad, [e] svarade hañ [l] og sagde til þeirra, Heylbrygder hafa ei Læknarans Þorf, helldur þeir sem siwker eru. [a] Eñ fared þier burt, og nemed hvad þad er, ad Myskun hefe eg Þocknan og eige ad Offre. [l] Eg er komeñ ad kalla Synduga til Yðrunar eñ ecke þa Riettlatu. [b] Eñ Johañis og Phariseañg Læresveinar føstudu miog. [c] Þa komu Johañis Læresveinar til hañs [l] og søgdu: Hvar fyrer føstum vier og Phariseí so miog, [c] og bidiunst fyrer, (e) eñ þijner Læresveinar fasta ei, (c) helldur eta og drecka? (l) JEsus sagde til þeirra. Hvorneñ ma Brwdkaups Foolked syrgia (h) og fasta (l) so leinge sem Brwdgumeñ er med þeim? (c) Þier meiged ecke neyda Brwdkaups Foolked til ad fasta ad medañ Brwdgumeñ er hia þeim. Eñ þeir Tijmar munu koma, ad Brwdgumanum mun fra þeim kipt verda, og þa munu þeir fasta.

Og hañ sagde eina Epterlijking til þeirra. Eingeñ setur Boot af nyu Klæde a gamallt Fat, (c) þvi Booteñ glidnar fra Fatenu (e) og rijfur þad i sundur, og fellur ei vid hid gamla, (c) og verda sliteñ þa verre. (l) Og eingeñ lætur nytt Vijn i forna Ledurbelge (a) edur Floskur, (l) añars spreinger Vijned Belgena og þad spillist, eñ Belgerner skiemast. (f) Helldur skal nytt Vijn laatast i nya Belge, og mun þa hvortveggia forvarast. (ç) So er og eingeñ sem dreckur af hinu gamla og vilie strax hid nya, þviad hañ seiger, hid gamla er Heilnæmara.

# XXI. Capitule.

## Um Uppvakning Doottur Jairi, og Lækning þeirrar Bloodfallssiwku Kviñuñar.

Matth. 9. Marc. 5. Luc. 8.

Sem (a) hañ var þetta ad tala vid þaa, (l) Sia: Pa kom (c) Madur sa er Jairus var ad Nafne, og sa var Samkundu-Hwssens Hofdinge. (b) Og þa er hañ saa JEsum (l) fiell hañ nidur fyrer Fætur hañs, (c) og bad hañ (b) mikelega, (c) ad hañ kiæme i hañs Hws, (þviad hañ atte sier einka Doottur, nær toolf Ara gamla, og hun var ad Dauda komeñ) ad hañ b legde sijna Hønd yfer hana, so hun yrde Heil og lifde. a Og Jesus stood upp og fylgde honum epter, og hañs Læ-

resveinar, (b) margt Foolk fylgde og honum epter, (c) og er hañ gieck burt, þa þreyngde Foolked ad honum. (l)Og siaa, ein Kvïña hvor ed Blood-fall hafde haft i toolf Aar, (b) hun hafde og miked þolad af mørgum Læknurum, og kostad þar til (e) allre siñe Aleigu, (b) og þad stodade heñe þo eckert, helldur vesnade heñe miklu meir. Þa hun heyr-



de af JEsu, kom hun med Foolkenu aa Bak til (a) vid hañ, (l)og snerte Falld hañs Klæda, (e) þviad hun sagde med sialfre sier, ef eg mætte ad eins snerta hñs Klædnad, munda eg Heilbrygd verda, og jafn-snart (c) stemdest heñar Bloodlaat, og (b)uppþurk-adest heñar Blood-Bruñur, og hun fañ aa siinum Lijkama, ad hun var heil ordeñ af siñe Plaagu. Og JEsus fañ strax a sialfum sier, þañ Krapt er wt af honum gieck, og snere sier vid til Foolksins og sagde:

Hver

Hvør snart miin Klæde? (c) Hvør er sa mig snerte? Eñ er þeir aller neitudu, (h) sagde Petur og þeir med hønum voru, Meistare (b) þu sier ad (h) Folked þreinger og þiakar ad þier, og þu seiger: Hvør snart mig? (c) JEsus sagde, einhvør hefur snorted mig, þvi ad eg kieñe Krapt wt af mier geingeñ. (h) Og hañ skigndest i kriing epter heñe er þad hafde giort. (c) Eñ er Konañ sa ad þad var eige huled, kom hun hrædd og skialfande, (b þviad hun visse hvad hana hafde skied, og fiell fyrer hønum nidur, (c) og kuñgiorde hønum fyrer øllu Foolke, fyrer hvoria Søk er hun hafde hañ snorted, (b) og sagde hønum allañ Sañleik (c) og hvørsu hun hefde jafnsnart Heil orded. Þa sagde hañ til heñar: Vertu Hughraust miin Dootter, þiin Trw hefur hialpad þier, far i Fride, og vert Heil af þiñe Plagu. (a) og Konañ vard Heil a þeirre somu Stundu.

Þa (h) hañ var eñ þetta ad tala komu nockrer af Þienurum Samkundu Foringians og søgdu: Þiin Dotter er ønduđ; Þvi omakar þu Meistarañ leingur? (b) Eñ JEsus heyrde strax hvad þar sagdest, og sagde til Samkundu Foringians, h Ottast þu eige, trw þu ad eins, þa verdur hun Heilbrygd. (b) Og hañ liet øngvañ fylgia sier, nema Petrum og Jacobum og Johañem Brodur Jacobs. Og hañ kom i Samkundu-Høfdingians Hws, (c) eñ þeir grietu aller og syrgdu hana. (a) Og er JEsus sa Piipublasarana og

Ys Foolksins, (b) og þa er þar grietu miog og æp- tu, gieck hañ þaangad iñar og sagde til þeirra: Hvad bulldred þier og sijted? (a) Fared fraa, (c graated eige, (l) þviad Stwlkañ er ecke Daud, helldur sefur hun. Og þeir daarudu hañ, (c) þvi ad þeir vissu ad hun var laateñ. (h) Eñ hañ rak þaa alla wt, (b) og took med sier Fodur og Mo- odur Barnsins, og þaa er med honum voru, og gieck þaangad iñ sem Barned laa. (l) Og hañ tok i Hond Barnsins (c) kallade og sagde: (b) til heñar Talithacumi þad wtlegst; Stulka eg seige þier: riis upp. (c) Og heñar Ande kom aptur (b) og þa strax reis Stulkañ upp og gieck; Eñ hun var toolf Aara gomul. (c) Og heñar Forelldrar urdu b) Omaatanlega Felms fuller. Og hañ fyrerba- ud þeim hardlega ad þad skyllde eingeñ vita, (e) og ad þeir segdu aungvum hvad giordst hafde. (b Hañ skipade og ad giefa heñe ad eta. (a) Og þet- ta Rigte barst wt um allt þad Land.

## XXII. Capitule.

### Um Lækning tveggia Blindra, og eins Diofulsetens Mañs sem var Maallaus.

Matth. 9.

ÞEgar JEsus gieck burt þadañ fraaþ leingra fylgdu honum epter tveir Meñ Blinder, þeir ed kolludu og sogdu: Æ þu Sonur Davids Myskuna ockur. Og er hañ kom

kom iñ i Hwsed, geingu hiner Blindu til hañs. Og JEsus sagde til þeirra, trwe þid ad eg kuñe ad giora yckur þetta? Þa sogdu þeir til hañs: Jaa Herra. Þa snart hañ þeirra Augu, og sagde: Verde yckur epter Trw yckar. Og þeirra Augu lukust upp. Og JEsus hootade þeim og sagde: Siaed til ad þad faae ei nockur ad vita. Eñ þeir geingu wt, og wtdreifdu hañs Rigte um allt þad Land.

Þa þesser voru nu wtgeingner, sia, þa hofdu þeir til hañs þañ Mañ, sem Dumbe var og Diofulodur. Og ad wtreknum Dioflenum, talade hiñ Maallause, og Foolked undradest þad, og sagde: Alldrei hefur slijkt sied vered i Jsrael. Eñ Phariseí sogdu: Hañ rekur Dioflana wt fyrer Diofla Hofdingiañ.

# XXIII. Capitule.

Um Apturkomu Christi i sitt Foostur-Land Nazareth.

Matth. 13. Marc. 6.

OG (b) hañ gieck þadañ, og kom i sitt Foostur-Land, og hañs Læresveinar fylgdu honum epter. Og er Sabbats-Dagureñ kom, þa took hañ til ad kieña (a) þeim, (e) i þeirra Samkundu-Hwse. Og marger af þeim sem þad heyrdu, undrudust hañs Kieñina, og sogdu: Hvadañ kiemur honum slijkt? (b) Eda hvor er

su Speke sem honum er giefen? Og slijk Krapta-Verk er gioraſt fyrer hans Hendur? [e] Er þetta ecke [b] Eirn Trie-Smidur, [a] Timbur-Smidsens Son? Heiter hans Mooder ecke Maria? Og Brædur hans Jacob og Joses, Simon og Judas? Og hans Systur, eru þær ei allar hier hiaa oss? Hvadan kiemur þessum þa allt þetta? [e] Og þeir hneixludust a honum. En JEsus sagde til þeirra: Eirn Spaamadur er hvorge i minne Virdingu, en a siinu Foostur-Lande [b] og hiaa siinum Ætt-Monum, [a] og i siinu eigen Hwse. [b] Hann fieck þar og ecke neitt Krapta-Verk giort, [a] fyrer Saker Vantrwar þeirra, [b] nema yfer faaeina Siwka, þa lagde hann Hendur, og Læknade þaa. Og hann undradest þeirra Vantrw.



Fioorde

# Fiorde Partur.

Hlioodande um̃ þad er vidbar at Pridia Are Predikunar Embættis HErrans Christi.

## I. Capitule.

Um̃ Almenelega Visitatiu, og Yferferd Christi um̃ Galileam. Item Utsending þeirra Toolf Postula til ad Predika og giøra Krapta-Verk.

Matth. 9. Marc. 6. Luc. 9.

OG [a] JEsus gieck um̃ kring i øllum Borgum og [e] Kauptunum [b] er þar stoodu i Pyrpingu, kiende [a] i þeirra Samkundu Hwsum, og Predikade Evangelium Rijkesins, og Læknade allshaattadar Sootter, og allskyns Krankdæme hiaa Foolkenu. Og er han̄ leit Foolked, sa han̄ Aumur a þvi, þviad þeir voru Vanmegna ordner, og Tvistrader, sem þeir Sauder er aungvan̄ Hyrder hafa. Þa sagde han̄ til sijna Læresveina: Kornskieran̄ er mikel, en̄ Verkamenerner faaer: Fyrer þvi bidied HErran̄ Kornskierun̄ar, ad han̄ sende Verk-Men̄ i sijna Kornskieru.

[a] OG han̄ kallade Toolf sijna Læresveina til sijn [b] og took ad senda þaa Tvo og Tvo, [c]

(c) og gaf þeim Valld og Makt (e) yfer Óhreinum Aunduni, (c) og yfer øllum Dioflum, (a) ad þeir ræke þaa wt, og ad læknа allskyns Sootter, og allra handa Meinlæte. Eñ þeirra Toolf Postula Nøfn eru þesse: Saa Fyrste Simon saa ed kall aſt Petur, og Andreas Brooder hañs, Jacob Son Zebedei, og Johañes Brooder hañs. Philippus og Bartholomeus, Thomas og Mattheus Tollheimtare. Jacob Alphei Son og Lebbeus ad Vidurnefne Thaddeus. Simon af Cana, og Judas Iſcariot, ſaa ed forried hañ.

Þeſſa Toolf wtſende JEſus, (b) og baud þeim ad bera eckert aa Veg med ſier nema Eirn Staf, eige Pwng, eige Braud, eige Pening aa Linda, helldur klædder Skoo-Fotum (Ilia-Skoom) og þad þeir klæddust eige Tveimur Kyrtlum. (c) Og hañ ſende þaa wt ad Predika Guds Rijke, og ad græda Siwka, (a) Bioodande þeim og ſagde: Fared ei aa Gotu Heideña Piooda, Gaanged eige iñ i Borger Samverſkra Maña, helldur gaanged til þeirra Fortapadra Sauda af Hwſe Iſraels. Fared wt, Prediked og ſeiged, þad Himnarijke er nalægt. Lækned Siwka, Hreinſed Lijkþraa, Uppvekied Dauda, Utreked Diofla, fyrer eckert hafed þier þad feinged, giefed þad og wt fyrer eckert. Þier ſkulud eige hafa Gull, ei Sylfur, ei Kopar i Lindum ydar, og ei helldur Toſku til Vegferdar, (c) eige Braud nie Peninga, og eingeñ ſkal hafa Tvo Kirtla, (a) eige Skoo, aungvañ Staf,

þviad

hvjad verdur er Verk-Madureñ ſiñar Fœdu. (l) Og i hvoria þa Borg edur Kauptun ſem þier iñganged, (a) þa ſpyried ad hvort þar ſie nockur i heñe ſem þeſs ſie verdur, og þar hiaa þeim ſama bliifed, þar til þier fared burt þadañ. Nær þier iñganged i nockurt Hws, þa heilſed þvi. Og ef þad ſama Hws er þeſs verdugt, mun ydar Fridur koma yfer þad, eñ ef þad er eige verdugt, þa mun ydar Fridur til ydar aptur hverfa. (l) Og hverier ad eige medtaka ydur, og heyra eige (a) ydvarre Rœddu gaanged wt af þvi Hwſe eda Borg, (l) Hriſted Dupted af ydrum Footum, (h) til Vitnisburdar yfer þaa. (e) Sañlega ſeige eg ydur: Ad bæralegra mun verda Landenu Sodomæ og Gomorrhæ aa Dooms-Deige, helldur eñ þeirre ſomu Borg.

## II. Capitule.

### Spaadoomur og Fyrerſøgn Chriſti um̃ Offookn Poſtulaña, wt af Matthei 10. Capitula.

Item um̃ þeirra Apturkomu og Erindislok.

Marc. 6. Luc. 9.

SJaaed (a) eg ſende ydur ſo ſem Saude aa millum Varga. Fyrer þvi vered forſiaaler ſo ſem Hoggormar, og einfallder ſem Dwfur. Eñ vakted ydur fyrer Moñum, þvjad þeir munu ofurſelia ydur fyrer ſijn Raad-Hws, og i ſijnum Samkundu-Hwſum munu þeir ydur ſtrykia. Og þier munud leidder verda fyrer Lands-Hofdingia og Konga miña vegna,

til Vitnisburdar yfer þaa, og yfer heidenn Lijd. Enn nær þeir framselia ydur nu, þa vered ei hugsiwker, hvornenn eda hvad þier skulud tala, þvi ad þad mun ydur aa þeirre Stundu giefed vera, hvad þier eiged ad tala. Þviad þier erud eige þeir sem tala, helldur er þad Ande ydvars Fodurs, sa er talar fyrer ydur. Sa eine Brooder mun selia annann i Dauda og Fader Sonenn, og Nidiarner munu upprijsa aa moote Forelldrunum, og þeim Fiørrædeveita. Og þier verded ad Hatre hafder af øllum Mønnum fyrer mijns Nafns Saker. Enn hvør hann er stadfastur allt til Enda sa mun hoolpenn verda. Enn nær þeir offækia ydur i eirne Borg, þa flyed i adra. Sannlega seige eg ydur, ad þier munud eige fullkomnad gieta Borgernar i Jsrael, þar til ad Mannsins Sonur kiemur. Eige er Lærisveirnenn yfer sijnum Meistara, og ecke Þioonenn yfer Herranum. Nægest Lærisveinenum ad hann sie so sem hanns Meistare, enn Þioonenn sem hanns Herra. Ef þeir hafa Hws-Fodurenn Beelzebub kallad, hvad miklu meir munu þeir þa hanns Heima-Menn so kalla? Af þvi otteft þaa ecke, þvi eckert er so Hulid, ad eige verde auglioost, og eckert er so leindt ad ecke faaest ad vita. Hvad eg seige ydur i Myrkre, þad taled i Lioose, og hvad þier heyred i Eyra, þad prediked aa Næfrum. Og hræded eige þa sem Lijkamann aflijfa, og Saalena giefa ei lijflaated, helldur hræded þann framar sem

Saalu

Saalu og Lijfe gietur tortijnt i Helvijte. Kaupast eige tveir Titlingar fyrer eirn Pening? Po fellur eige eirn af þeim aa Jord, aan ydars Fodurs [Vilia.] So eru oll ydar Hofud-Haar taleñ. Fyrer þvi ottest eige, þier erud morgum Titlingum betre. Fyrer þvi hvor hañ medkieñer mig fyrer Moñum, þañ vil eg medkieña fyrer mijnum Himneska Fodur. Eñ hvor hañ afneytar mier fyrer Moñunum, þeim vil eg afneita, fyrer mijnum Himneska Fodur.

Þier skulud eige þeinkia, ad eg sie komeñ Frid ad senda aa Jordena; Eige kom eg Frid ad senda, helldur Sverd. Þviad eg er komeñ til ad ysa Mañeñ aa moote Fodur sijnum, og Dotturena i giegn Moodur siñe, og Sonar-Konuna i giegn Moodur Mañs sijns. Og Mañsins Hiwmunu vera hañs Oviner. Hvor hañ elskar Fodur og Moodur meir eñ mig, sa er mijn eige verdugur. Og hvor hañ elskar Son edur Doottur yfer mig sa er mijn ei verdugur. Og hvor hañ tekur eige siñ Kross aa sig og fylger mier epter, sa er mijn ei verdugur. Hvor ed fiñur sitt Lijf, sa mun tijna þvi, og hvor sijnu Lijfe tijner miña vegna, hañ mun þad fiña.

Hvor hañ medtekur ydur, sa medtekur mig, og hvor mig medtekur, hañ medtekur þañ sem mig sende. Hvor hañ medtekur Spaamañ i Spaamañs Nafne, sa fær Spaamañs Laun; Hvor hañ medtekur Riettlaatañ i Riettlaats Naf-

ne, ſa fær Riettlætz Laun; Og hvor hañ giefur einum af þeſſum Veſælingum eirn Bikar af kolldu Vatne ad drecka i Læreſveins Nafne; Sañlega ſeige eg ydur, ad þad mun eige honum olaunad vera.

(a) Og þad ſkiede er JEſus hafde liktad þeſſar Bodaner til ſiña Læreſveina, gieck hañ leingra fram ad kieña og predika i þeirra Borgum, (h) og (Læreſveinarner) geingu wt (c) og ferduduſt i giegnum Kauptwn, og predikudu Evangelium, (b) þad Meñ ſkylldu giora Ydran, og þeir ræku wt marga Dioffa, ſmurdu og marga ſiwka med Vidſmiore, og læknudu þa.

# III. Capitule.

## Um Lijflaat Johañis Skijrara, og Rikted Chriſti ſem barſt fyrer Herodem, ſem og hañs Alit þar uñ.

Matth. 14. Marc. 6. Luc. 9.

OG (b) þar kom Eirn hentugur Dagur, ad Herodes giorde a ſiñe Artijd Eina Kvølldmaaltijd, Høfdingium og Høfudsmøñum, og hinum fremſtu Møñum i Galilea. (a) Eñ er Herodes hiellt þeñañ ſiñ Fædingar-Dag, (b) þa gieck Dootter Herodiadis þar iñ, (e) og danſade (a) mitt frame fyrer þeim, (e) og þad lijkade Herodi vel, (b) og þeim er ſaatu til Bordſens. Þa ſagde Konguren til Stulkuñar: Bid af mier hvers þu villt, eg vil veita þier þad. Og hañ ſoor

þeñe

heñe Eirn Eid, ad hvors þu beidest af mier, þa skal eg giefa þier, allt iñ til Helmings af mijnu Kongs-Rijke. Hun gieck wt og sagde til Moodur siñar: Hvors skal eg bidia? Eñ hun sagde: Uñ Hofud Johañis Skijrara. Hun gieck þa strax med Skunda til Kongsens, (a) og sem hun var æeggiud af Moodur siñe, bad hun hañ og sagde: (b) Eg vil ad þu giefer mier nu strax (c) Hofud Johañis Skijrara a einum Diske, og Kongureñ vard næsta hriggur, eñ þo fyrer Eidsens Saker, og þeirra sem med honum til Bordsens satu (b) þa villde hañ ecke synia heñe þess, (a) helldur baud hañ ad þad giæfest heñe, (b) og strax sende Kongureñ Bodleñ wt, og baud ad sækia hañs Hofud, hañ gieck af Stad, (e) og afhofdade Johañem i Myrkvastofu, og var hañs Hofud bored a Diske og giefed Stulkuñe, eñ hun færde Moodur siñe. (b) Og er þad heyrdu hañs Læresveinar, komu þeir og tooku hañs Lijkama, og løgdu hañ i eina Grof (a) og groofu, komu og kuñgiordu þad JEsu.

(l) Af Þeim Tijma heyrde Herodes Fiordungs-Hofdinge, Rigted af JEsu (c) og allt þad er skiede fyrer hañ, (b) (þviad hañs Nafn var nu kuñugt) og sagde til siña Þienara: Þesse er Johañ es Skijrare, hañ er af Dauda uppriseñ, og þvi giorast þesse Krapta-Verk af honum, [b] Eñ nockrer sogdu ad hañ være Elias, eñ nockrer, ad hañ være Spaamadur, ellegar sem eirn af Spaamoñum. Og er Herodes heyrde þetta, sagde hañ:

Þad er Johañes sem eg hefe Hālshøggved, hañ er nu uppriseñ fra Daudum, [e] og hañ vard hræddur, af þvi af sumum sagdest ad Johañes være af Dauda riseñ, eñ af sumum, ad Elias være auglystur, eñ af sumum, þad Eirn af gømlu Spamoñum være upp aptur riseñ. Herodes sagde: Johañem hefe eg Hālshøggved, Eñ Hvør er þesse af hvørium eg heyre þetta? Og hañ fysteſt ad sia hañ.

# IV. Capitule.

Uthst Afvik Christi i Eydemørku, og þad Krapta-Verk er hañ þar giørde, med Sadning Fim̃ Þusund Maña af Fim̃ Braudum.

Matth. 14. Marc. 6. Luc. 9 Iohann. 6.

OG (h) Postularner komu til samans aptur til JEsu, og kuñgiørdu hønum allt þetta, og hvad þeir høfdu giørt [b] og kiendt. [a] Þegar JEsus heyrde þad, [b] sagde hañ til þeirra: Lated yþs gañga afsijdis i Eydemørku, og hvijlast þar litla Stund, þviad marger voru þeir sem geingu fra og til, So þeir høfdu ei Toom til ad eta. Og [d] epter þad took hañ þa til sijn, [f] foor þadañ burt [e] a einu Skipe [d] yfer um̃ Siooeñ hia Stadnum Tyberias i Galilea [l] afsijdis i Eydemørk [c] hia Borgeñe sem hiet Bethsaida. [h] Og er Foolked sa þa i burt fara, [a] heyrde þad [f] og vard þess vart [b] þecktu hañ marger [f] og þad ferdadest epter hønum, [d] af

(d) af þvi þeir sáu þau Teikn er hañ giörde á Siwkum, (e) og hlupu þangad hvör med ödrum á Fæte wr öllum Stödum, (b) og komu fyrr eñ þeir, og komu til hañs. (e) Og JEsus gieck fram, og sá þañ mikla Mwg, (b) og hañ aumkade sig yfer þá, þviad þeir voru sem adrer Sauder er ongvañ Hyrder hafa. (d) JEsus gieck þa uppá eitt Fiall, og settest þar med siinum Læresveinum. Þa var og Paaska-Haatijd Gydinga nálæg. (c) Og hañ liet þá koma til siin, og sagde þeim af Guds Rijke. (b) Og hañ byriade Eina lánga Predikun, (c) Læknade og þá sem þess þurftu, (a) og Kránker voru. (e) Eñ er Deigenum took ad halla, og (b) hañ var so sem lideñ, (l) geingu hañs Toolf Læresveinar til hañs, og sögdu hönum: (e) Þetta er ein Eydemörk, Dagureñ er umlideñ og Nootteñ fellur á, (l) Lát Foolked frá þier, ad þeir fare burt um kriingumliggiande Þorp og Kaupstyn, og kaupe sier þar Fædu, (b) þvi þeir hafa eckert ad eta, (þar) vier [c] erum hier i Eydemörku. [l] Eñ JEsus svarade og sagde til þeirra [a] Þeir hafa þess ei Þorf ad þeir gánge burt, [l] Giefed þier þeim ad eta, [b] og þeir sögdu til hañs: Skulum vier þa fara wt og kaupa fyrer Tvo Hundrud Peninga Braud og giefa þeim ad eta? [d] JEsus hoof þa upp siin Augu, og sá ad margt Foolk dreif ad hönum, þa sagde hañ vid Philippum: Hvar kaupum vier Braud þad þesser neyte? Eñ þetta sagde hañ af þvi ad hañ villde reyna hañ, þviad hañ

visse vel hvad hañ villde giora, Philippus svarade honum: Braud fyrer Tvo Hundrud Peninga nægest þeim ei, so ad hvor eirn faae nockud lijted, (b) Eñ hañ sagde til þeirra: Hvorsu mørg Braud hafed þier? Gaanged til og skoded. Og þa þeir hofdu þad ransakad, (d) Sagde honum Eirn af



hañs Læresveinum, Andreas Brooder Simonar Petri, hier er Eirn lijtill Pilltur, sa hefur Fim̃ Biag: Braud og Tvo Fiska, Eñ hvad er þad ar medal so margra? (a) Og Læresveinarner søgdu til hañs: (l) Vær hofum ei nema Fim̃ Braud og Tvo Fiska, (c) Nema so sie ad vær forum og kaupum Fædu so mørgu Foolke. Þvi þar var nær

Fim̃ Þusund Mañs, (a) Hañ sagde: Færed mier þau hijngad, (b) og hañ baud (a) Foolkenu ad þeir sette sig aller nidur ad eta i adgreindum Hoopum, aa grænt Gras, (e) Og sagde til siña Læresveina: (d) Laated Meñena setiast nidur (c) i Lag Fim̃tyg-er og Fim̃tyger samañ, þeir giørdu so. (d) Eñ þar var i þeim Stad Gras miked, (b) og þeir (e) settu sig aller, (b) og skyckuduſt nidur Hundrad og Hundrad samañ, Fim̃tyger og Fim̃tyger samañ, (d) nær Fim̃ Þusund Mañs. (p) JEsus took þau Fim̃ Braud og Tvo Fiska, leit upp til Himens, giørde Packer, brant Braudeñ, og fieck sijnum Læresveinum ad þeir legdu þau fram̃ fyrer Foolk-ed (g) eñ Læresveinarner feingu þau Foolkenu sem nidur hafde setst, og þeim Tveimur Fiskum skipte hañ og so med þeim øllum, (d) So miked sem hvør villde, (l) og þeir snæddu aller og urdu sadder, (d) Eñ þa þeir voru metter, sagde hañ til siña Læresvei-na: Safned samañ þær Leifar sem afgaanga, so ekkert spillest, (b) eñ þeir tooku upp Molana (d) sof-nudu samañ og fylltu upp Toolf Karfer, med þess-ar Leifar, af Fim̃ Bigg-Braudum, (b) og Fisk-unum, (d) sem þeir leifdu er Mat høfdu feinged, (e) Eñ þeir sem eted høfdu voru nær Fim̃ Þusund-er Maña, ad undañ teknum Konum og Børnum. (d) Þa Meñerner saau þad, ad JEsus giørde þetta Teikn, søgdu þeir: Þesse er sañarlega sa Spaamadur sem i Heimeñ skal koma. Eñ þa JEsus formerkte, ad þeir mundu koma og grijpa

hañ, og giora hñ ad Konge, [e] þa neyddeh añ jafn snart sijna Læresveina til, ad þeir geinge a Skip og fære fyrer honum yferum, [b] til Bethsaida, [c] þar til hañ skilde Foolked vid sig, og er hañ hafde þad fra sier læted, gieck hañ Eirnsamall uppa Fialled ad bidiast fyrer.

# V. Capitule.

## Um̃ þad hvarneñ Christur gieck a Sioonum og kallade Petrum til sijn, Item um̃ hañs Reisu med Postulunum i Land Genezareth.

Matth. 14. Marc. 6. Ioh. 6.

NOD (d) Kvølldt geingu hañs Læresveinar ofañ til Siaafarens, og stigu a Skip, og komu yfer um̃ Siooeñ til Capernaum, og þa var þegar myrkt orded, IEsus var þa eige komeñ til þeirra, eñ Siooreñ took ad æsast upp af miklu Vedre. [a] Og um̃ Kvollded var hañ eirn þar [b] a Lande, [a] eñ Skiped var þa midt a Sioonum, og hrackteſt i Bylgiunum. [b] Og hañ saa ad þeir voru Neydstadder i þvi þeir reru, [c] þviad Vindureñ var þvert i moote þeim. Og nær um̃ Fioordu Vakt Næturenar, kom IEsus til þeirra gaangande a Sioonum. [d] Þeir hofdu þa Rooed Fim̃ og Tuttugu, edur Þriatyger Akra Leingder, þa saau þeir IEsum gaangande a Sioonum, og komeñ nær Skipenu, [b] og hañ villde gaanga fram̃ hia þeim. [e] Eñ er Læresveinarner saau hañ a Sioonum gaanga, [b] ætludu

þeir

þeir Vofa vera munde [d] og Ottudust, [b] þviad þeir saau hañ aller, og urdu Ottaslegner, [a] og sogdu þad være Skrymsl, og kolludu upp af Hræd slu. Eñ JEsus talade strax til þeirra og sagde: Vered Hughrauster, [m] Eg em hañ, Otteſt ecke. Eñ Petur svarade honum og sagde: Ef þu ert þad HErra, þa biood mier ad koma til þijn aa Vatnenu. Og hañ sagde: Kom hijngad, og Petur stie af Skipenu, og gieck aa Vatnenu ad hañ kiæme til JEsu. Eñ er hañ leit megnañ Vind, Ognade honum og took ad sockva, Kallade og sagde: HErra, Hiaalpa þu mier, Eñ JEsus riette jafnsnart Hondena og greip hañ, og sagde til hañs: Þu Lijtel-Trwadur, Þvi Efadest þu? [d] Þa villdu þeir hafa teked hañ iñ i Skiped, [a] Og þeir stigu iñ i Skiped, og Vindeñ stillte, [d] Og jafnsnart var Skiped komed ad þvi Lande sem þeir fooru til. [a] Eñ þeir sem i Skipenu voru, komu og fiellu fram fyrer honum og sogdu: Sañlega ertu Guds Sonur, [b] Og þeir Ottudust, og Forundrudust wr Maata, þviad þeim skildest eñ eige af Braudunum, og þeirra Hiortu voru forblindud.

Og er þeir voru yferum farner, komu þeir i Landed Genesareth, og lendtu þar. Eñ er þeir stigu af Skipenu, þecktu þeir hañ strax. [a] Og er Foolked i þeim sama Stad vard vart vid hañ, sendu þeir wt, [b] og hlupu [c] uñ allt þad Land, allt i kryng, tooku til og fluttu samañ þar uñ krijng Siwka Meñ a Sængum, hvar hellst þeir heyrdu

du hañ vera. (b) Og hvar ed hañ gieck iñ i Kaup-tun, Stade og Porp, þa løgdu þeir sivka Meñ a Torged, (a) og færdu til hañs alla Vanfæra, (e) og baadu hañ um̃ ad þeir mættu ad eins snerta Faldd hañs Fata, og aller sem hañ snertu, urdu Heilbrygder.

# VI Capitule.

## Predikun Christi um̃ Neytslu þess Himneska Braudsins, edur hañs Lijkama og Bloods.

Iohann 6.

Næsta Dag epter sa Foolked sem hinumeigeñ Siafarens stood, ad eige var þar añad Skip til, nema þad eina sem hañs Lærisveinar høfdu astijged, og JEsus hafde ei sialfur stijged a þad Skip med sijnum Lærisveinum, helldur voru hañs Lærisveinar einer af stad farner. Par komu og yfer um̃ øñur Skip fra Tyberias, hart nær þeim Stad, sem þeir høfdu Braudeñ eted, fyrer Herrans Packargiørd.

Og þa Foolked sa nu ad JEsus var eige þar, og eige helldur hañs Lærisveinar, stie þad a Skipeñ, kom til Capernaum, og leitade ad JEsu. Og þa þeir høfdu funded hañ hinumeigeñ Siafarens, søgdu þeir til hañs; Rabbi; Nær komstu hijngad? JEsus svarade þeim og sagde: Sañlega Sañlega seige eg ydur; Pier leited mijn ei af þvi

þier

þier sꜹud Teikneñ; Helldur af þvi ad þier neytt-
ud af Braudunum, og urdud sadder; Verked
ei Fœdu þeirrar sem forgeingur, helldur þeirrar
sem stødug bliifur til Eilijfs Lijfs, hvoria Mañsins
Sonur mun giefa ydur; Þviad Gud Fader hef-
ur hañ iñsiglad. Þa søgdu þeir til hañs: Hvad
skulum vier þa giøra, so vier giørum Guds Verk?
JEsus svarade og sagde þeim; Pad er Guds Ve-
rk, ad þier trwed ꜳ hañ, þañ hañ sende, þa søg-
du þeir til hañs, hvad giører þu fyrer Teikn, so
ad vier siꜳum og trwum þier? Hvad giører
þu? Fedur vorer ꜳtu Mañа i Eydemørku, sem
Skrifad stendur, hañ gaf þeim ad eta Braud af
Himne. Þa sagde JEsus til þeirra: Sañlega
sañlega seige eg ydur, ad ei gaf Moyses ydur Bra-
ud af Himne, helldur giefur Fader miñ ydur þad
rietta Braud af Himne, þviad þad er Guds Bra-
ud sem kiemur af Himne og Heimenum giefur Lijf.
Þeir søgdu þa vid hañ: HErra gief þu oss jafnañ
þetta Braud. Eñ JEsus sagde til þeirra: Eg em
Lijfsins Braud, hvor hañ kiemur til mijn, hañ mun
ei Hungra, og sꜳ hañ trwer ꜳ mig, hañ mun alld-
rei Þyrsta. Eñ eg hefe sagt ydur, þad þier hafed
mig sienañ, og trwed þo eige. Allt hvad miñ Fad
er giefur mier þad kiemur til mijn, og hvørn þañ sem
til mijn kiemur, hañ mun eg ei wtreka. Þviad eg
er komeñ af Himne, ei uppꜳ þad, ad eg giøre miñ
Vilia, helldur hañs sem mig sende. Þetta er Fød-
ursins Vilie, þess er mig sende, ad eg glate øngvu

af ollu þui sem hañ gaf mier, helldur skal eg uppveki-
ia hañ aa efsta Deige. Eñ þad er Vilie þess er
mig sende, ad hver sa sem Soneñ sier og trwer a
hañ, hafe eilijft Lijf; Og eg mun uppvekia hañ a
efsta Deige.

Þa mogludu Judar yfer þvi, þad hañ sagde eg
em þad Braud hvert ed ofañ kom af Himne, og
þeir sogdu: Er eige JEsus þesse, Sonur Josephs
hvors ad vier þeckium bæde Fodur og Moodur?
Hverneñ seiger hañ þa, þad eg em komeñ af Him-
ne? JEsus svarade og sagde til þeirra: Mogled
ei Jñbyrdis. Eingeñ fær til mijn komed, nema
svo sie, ad Fadereñ sem mig sende, drage hañ, og
eg mun uppvekia hañ aa efsta Deige. So er skrif-
ad i Spaamaña Bookum, ad þeir munu aller ver-
da af Gude lærder. Hvor hellst nu heyrer af Fod
urnum, og lærer þad, sa kiemur til mijn; Eige
þad, ad nockur hafe Fodureñ sienañ, nema sa sem
er af Gude, hañ hefur sied Fodureñ. Sañlega
sañlega seige eg ydur: Hvor sem aa mig trwer hañ
hefur eilijft Lijf. Eg em Lijfsins Braud.

Fedur ydar aatu Maña i Eydemorku, og eru
Dauder. Þetta er þad Braud sem kiemur af
Himne, so ad hvor sem etur af þvi, hañ deyr ei;
Eg em þad lifanda Braud, sem af Himne kom;
Hvor sem etur af þessu Braude, sa lifer eilijflega.
Og þad Braud sem eg mun giefa er mitt Holld, hv-
ert eg mun giefa fyrer Lijf Veralldareñar. Jud-
ar þrættudu þa sijn aa mille, so seigiande: Hvor-
neñ

neñ fær þesse giefed oss sitt Holld ad eta? JEsus sagde til þeirra: Sañlega sañlega seige eg ydur, ne ma ef þier eted Holld Mañsins Sonar og drecked hañs Blood, þa hafe þier ei Lijfed i ydur. Hvor hañ etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, sa hefur eilijft Lijf; Og eg mun uppvekia hañ a efsta Deige. Þvi mitt Holld er søñ Fæda, og mitt Blood er sañur Dryckur; Hvor hañ etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, sa blijfur i mier og eg i honum. Lijka sem ad mig sende sa lifande Fader, og eg life Saker Fodursins, so og Hvor hañ etur mig, sa mun og lifa fyrer mijnar Saker. Þetta er þad Braud sem af Himne komed er; Eige svo sem þad ydar Fedur atu Mana, og eru dauder; Hvor hañ etur þetta Braud, sa lifer ad Eilijfu.

ÞEtta sagde hañ i Samkundu-Hwsenu, þa hañ kiende til Capernaum, eñ marger af hañs Læresveinum þa þeir nu þetta heyrdu, sögdu, hord er þesse Ræda: Hvor kañ heñe ad heyra? Eñ er JEsus visse med sialfum sier, ad hañs Læresveinar mögludu af þessu, þa sagde hañ til þeirra: Hneyxlar ydur þetta, Hvad mun þa þegar þier siaed Mañsins Son uppstijga þangad sem hañ var fyrr? Andeñ er sa er lijfgar, Holldeð er til einskis neytt; Þau Ord er eg tala, þaug eru Ande, og þaug eru Lijf. Eñ nockrer eru þeir af ydur hvorier ei trwa, þviad JEsus visse af Upphafe, hvorier eige voru Trwader, og hvor sa var, er hañ munde Svijkia, og hañ

sagde

sagde: Fyrer þvi sagde eg ydur, þad eingeñ fær til mijn komed nema ad honum sie had giefed af mijnum Fodur. Epter þad geingu marger af hañs Læresveinum aptur til Baka, og geingu eige leingur þadañ af med honum, þa sagde JEsus til þeirra tolf: Villied þier og fraganga? Eñ honum svarade Simon Petrus; Herra, til hvers skulum vier fara? Þu hefur Ord Eilijfs Lijfs, og vier trwum og skilium þad þu ert Christur Sonur Guds lifanda.

JEsus svarade þeim; Hef eg eige wtvaled ydur tolf? Og eirn af ydur er Diofull. Eñ hañ sagde af Juda Simonis Jscariot, þvi hañ sveik hañ sijdañ, og var eirn af tolf.

# VII. Capitule.

## Samtal Christi vid Skriftlærda og Phariseos af JErusalem, um̃ Aulldungaña Setninga.

Matth. 15. Marc. 7

EPter þad (a) ferdadest JEsus um̃ kring i Galilæa, þviad hañ villde ei ferdast i kring i Judea, af þvi ad Gydingar villdu i Hel slaa hañ. (b) Þar komu og til hañs Pharisei og nockrer af hinum Skriftlærdu, sem komner voru fraa Jerusalem. Þa þeir saau nockra af hañs Læresveinum med Almeñelegum Hondum, þad er med Ohvegnum Hondum, eta Braud, aavijtudu þeir þad: Þviad Pharisei og aller Gydingar eta

ei nema þeir þvoe optsiñis siinar Hendur halldande so Aulldungaña Setninga. Og þa þeir koma af Torgum, þa eta þeir eige nema þeir þvoe sig. Og marger adrer Hluter eru þeir sem þeir hofdu undergeingest ad hallda: sem var Þvottur, Dryckiar-Kiera, Krwsa, Kopar-Kiera, og Borda. Þa spurdu Pharisei og hiner Skriftlærdu hañ ad, [a] og sogdu: [c] Þvi gaanga þijner Lærefsveinar eige epter (helldur) Ofurtroda Aulldungaña Uppsetninga? [a] Med þvi þeir þvo eige siinar Hendur er þeir Braud eta, [b] helldur eta med Oþvegnum Hondum [e] Hañ svarade og sagde til þeirra: [a] Fyrer þvi Ofurtroded þier þa Guds Bodord, fyrer ydvarn Uppsetning? [b] Riett vel þa spaade Esajas af ydur Hræsnurum, sem skrifad er, [e] Þesse Lijdur naalægest mig med siinum Muñe, og heidrar mig med Vorum siinum, Eñ þeirra Hiortu eru laangt fraa mier. Ad Onytu þioona þeir mier, ar medañ þeir kieña þær Kieñingar, sem ecke eru añad eñ Bodord Maña. [b] Þier yfergiefed Guds Bodord, og hallded Mañaña Uppaasetninga, sem er Krwser og Dryckiar-Kier ad þvo, og margt soddañ þa giored þier. Og hañ sagde til þeirra: Siinlega þa hafed þier aflagt Guds Bodord, ad þier mættud so geyma ydvarn Uppaasetning. [a] Þvi Gud hefur skipad og [b] Moyses sagde: [e] Heidra skalltu Fodur þiñ og Moodur, eñ hvor hañ Bolvar Fodur og Moodur, sa skal Dauda deya. Eñ þier kieñed þegar nockur seiger Fodur eda Mood

ur, [b] Corban, þad er, Efeg Offra þvi þa kiemur þad þier meir til Gagns, og eige þa læted þier hañ framar nockud giora Fodur siinum nie Moodur siñe, [a] af þvi skier þad, ad eingeñ heidrar Fodur siñ nie Moodur, framar meir, [e] og hafed so Onytt giort Guds Bodord, fyrer ydar Setninga, þar þier hafed siælfer uppa sett, og margt añad þvi lijkt þa giored þier. [a] Þier Hræsnarar, vel hefur Esajas spaad af ydur.

[e] OG hañ kallade allt Foolked til siin, og sagde til þeirra: Heyred mig aller og understanded þad, Þar er eckert fyrer utan Mañeñ, Hvad er iñgeingur i Muñeñ, þad hañ fæe saurgad, helldur hvad er fram af Muñenum geingur, þad saurgar Mañeñ, [b] Hafe nockur Eyru ad heyra, Sa heyre. [a] Þa geingu hañs Læresveinar ad honum og sogdu: (Veistu) ad þa ed þeir Phariseí heyrdu þad Ord hneixludust þeir? Eñ hañ svarade og sagde: Oll Plantan hvoria miñ Himneskur Fader plantar eige, mun upprætast. Læted þa fara, þeir eru Blinder og Blindra Leidtogarar, Ef blind ur leider añañ blindañ, þa falla þeir bæder i Grofena. Þa svarade Petur og sagde til hañs: Þyd oss þessa Epterlijking, [b] og er hañ gieck iñ i Hwsed, burt fra Foolkenu, spurdu hañs Læresveinar hañ ad þessare Epterlijkingu. [e] Eñ JEsus sagde til þeirra: Eru þier eñ þa so Skilningslauser? Skynie þier ei eñ nu ad allt þad sem fyrer utañ er, og iñ fer i Mañeñ, þad fær ei saurgad hañ, þviad

þad

þad fer ei iñ i hañs Hiarta, helldur hverfur þad i Magañ og verdur svo fyrer Edlelega Raas wtskwf ad, [b] Hvor ed wthreinsar allañ Mat? Og hañ sagde: [a] Hvad af Muñenum fram geingur, þad kiemur af Hiartanu, og þad saurgar Mañeñ, [b] Þviad iñañ ad wr Hiartanu Mañsins [e] þa fram gaanga vondar Hugreñingar, Hoordoomar, Frillulijfe, Mañdraap, Pioofnadur, Agyrne, Lijdvitnan, Hrecker, Underhyggia, Otugt, Illt Tillit, Lastaner, Drambseme, Heimska, allt þetta vondt þa geingur wt iñañ ad, og saurgar Mañeñ, [a] eñ med Ohvegnum Hondum ad eta, Saurgar ecke Mañeñ.

# VIII. Capitule.

Um̃ Ferd Christi i Landsaalfur Tyri og Sidonis, og þa Canversku Kviñuna, Item um̃ hañs Apturkomu þadañ til Siaafarens i Galilea, hvar hañ Læknade marga Siwka, og aa medal þeirra Eirn Daufañ og Maallausañ Mañ.

Matth. 15. Marc. 7.

NN (e) JEsus stood upp, gieck i burt þadañ, og foor i Lands-Alfur Tyri og Sidonis. [b] Og gieck iñ i Eitt Hws, og villde þad ongvañ vita laata, eñ fieck þo eige dulest. [e] Þvi ad siaa, ad ein Canversk Kona gieck wt af þeim somu Takmorkum, [b] þa hun hafde heyrt af honum, hvorrar lijtel Doctter hafde Ohreinañ

Anda, og hun kom og fiell nidur fyrer hans Footum. Eñ þad var ein Grisk Kona af Syrophenice, Og hun bad hañ ad reka wt Dioefuleñ fra Dottur siñe, (a) Kallade epter hønum og sagde: O HErra Sonur Davids Myskuna þu mier, Miin Dootter kvelst illa af Dioflenum, og hañ svarade heñe eige Orde. Hans Læresveinar geingu til hañs, bædu hañ og sogdu: Giør heñe Urlausn, af þvi hun kallar epter oss. Eñ hañ svarade og sagde: Eg em ei sendur nema til Fortapadra Sauda af Hwse Israels. Eñ hun kom og fiell nidur fyrer



er honum, og sagde: Hiaalpa mier HErra. (e) Eñ JEsus svarade og sagde til heñar: (b) Leif þu ad Borneñ mettest ædur, þviad þad er ei Tilheyrelegt, (e) ad taka Brauded Barnaña, og kasta þvi fyrer Hundana. Eñ hun svarade og sagde til hañs: Jaa HErra, þvi Smaa-Hundarner eta under Bordenu af Molum Barnaña, (a) sem detta af Bordum Drottna þeirra. Pa svarade JEsus og sagde til heñar: O þu Kona, mikel er þijn Trwa, Verde þier so sem þu villt, (b) Fyrer Saker þess Ords þa far hiedañ, Diøfulleñ er wtfareñ fraa þiñe Doottur. (a) Og aa þeirre somu Stundu, vard heñar Dootter Heilbrygd. (b) Og hun gieck þadañ i sitt Hws, og fañ ad Diøfulleñ var wtfareñ, og Doott urena aa eirne Sæng liggiande.

OG (e) þa JEsus gieck leingra aafram burt apture wr Bygdarlage Tyri og Sidonis, kom hañ til Siaafarens i Galilea, (b) midt aa medal þeirra Tiju Stadaña. Og þeir leiddu til hañs Daufañ Mañ, hañ er var næsta Stamur, og badu hañ ad hañ villde leggia Hond yfer hañ. Og hañ took hañ Afsijdis fraa Foolkenu, og stack sijnum Fijngrum i hañs Eyru, Hræckte wt og snart hañs Tungu, Leit upp til Himens, Andvarpade og sagde til hañs: Ephata, Þad er, Opna þig. Og strax þa Opnudust hañs Eyru, þa uppleystest og eirneñ hañs Tungu-Hapt, og hañ talade Riett. Og hañ fyrerbaud ad seigia þad Neinum. Eñ þvi meir sem hañ fyrerbaud þad, þess meir þa vijdfrægdu þeir

þad. [a] Og JEsus gieck uppaa Eitt Fiall, og sette



sig þar, og margt Foolk dreyf til hañs, hafande med sier Hallta, Blinda, Maallausa, Vanada, og marga adra, og snorudu þeim frañ fyrer Fætur JEsu, og hañ læknade þaa, so ad Foolked undradest [b] þad næsta miog, [a] er þad saa Maallausa mæla, og Vanada heila, Hallta gaanga, Blinda siaande, [b] og sogdu: Allt hefur hañ vel giort, þviad Dauta lætur hañ heyra, og Maallausa mæla, [a] og Vegsomudu Gud Israels.

# IX. Capitule.

Uñ þad Krapta-Verk Christi er hañ mettade Fiogur Þusund Maña, med Sio Braudum. Item uñ Phariseos sem beiddust Teikns af honum, og þañ Blinda Mañ er Læknadur var i Bethsaida.

Matth.

Matth. 15. og 16. Marc. 8.

Peim (b) Tijma, þa þar var margt Foolk, og hafde ecke til Matar, [e] Kallade JEsus sijna Lærisveina til sijn, og sagde til þeirra: Mig aumkar yfer Foolked, þviad þeir hafa nu Þriar Daga hiaa mier vered, og hafa eckert til Matar, [a] og fastande vil eg þaa ecke fraa mier fara laata heim, [b] so ad eige verde þeir Hwngurmorda aa Veigenum, þvi ad sumer voru laangt ad komner. [e] Hans Lærisveinar svorudu og sögdu til hans: Hvadan tökum vier so mörg Braud hier i Eydemörku ad vier sedium med jafnmargt Foolk? Og JEsus spurde þaa ad og sagde til þeirra: Hvörsu mörg Braud þa hafed þier? Þeir sögdu Siö: Og [a] faa Fiskakorn Og



hann baud Foolkenu ad þad setteſt nidur aa Jördena, og töok þau Siö Braud og Fiskana, og er hann

hafde þackad, braut hañ þau, og gaf þau sijnum Lærefveinum, (b) ad þeir legde þau fram, (e) og hañs Lærefveinar logdu þau fram fyrer Foolked. (b) Og þeir høfdu fa eina Smaa-Fiſka: Og hañ giorde Packer, og baud þa fram ad leggia, (e) og þeir aatu aller og urdu metter. Þeir tooku og upp þad yfer var af Leifunum, Sio Karfer fullar. Eñ þeir ſem eted høfdu: Voru nær Fioorum Puſundum (a) Mañа, fyrer utañ Konur og Børn. (b) Og hañ liet þa i burtu fara fra ſier. (a) Og er hañ hafde Foolked fra ſier laated: (e) Stie hañ ſtrax a eitt Skip med ſijnum Læreſveinum, (a) og kom i Endemerkur Magdala Lands, (b) i þær Landsaalfur er heita Dalmanutha.

Þa (e) geingu Phariſei og Saducei wt til hañs, (b) og tooku ad hafa Spurningar vid hañ freyſtudu hañs, (e) og badu hañ ad ſyna ſier eitt Teikn af Himne. (a) Eñ hañ ſvarade þeim og ſagde: A Kvølldeñ ſeiged þier, þad verdur goodur Dagur, þvi Himen-Rode er; Og a Morgna ſeiged þier: I Dag verdur Hreggvidre, þvi ad Himeneñ er raud ur og dimur. Þier Hræſnarar, Himenſins Aſiaun kuñed þier ad dæma, Kuñed þier þa ecke ad dæma Teikn þeſſara Tijma? (b) Eñ hañ vard þrwngeñ i ſinum Anda, og ſagde: Til hvørs ſæker þeſſe Kyn ſlood epter Teikne? (a) Þeſſe vonda og Hoorunſama Kynſlood æſker Teikns. (b) Sañlega ſeige eg ydur: (e) Ad þeſſare Kynſlood ſkal eckert Teikn giefed verda, a nema Teikn Jona Spamañs.

Og

Og hañ forliet þaa, gieck i burt, (b) ſtie aptur aa Skip og foor yferum. (a) Og er hañs Læreſvein-ar voru yferum farner, høfdu þeir gleymt Braud med ſier ad taka, (b) og høfdu ei nema Eitt Braud med ſier i Skipenu. (e) Eñ JEſus baud þeim og ſagde til þeirra: Siaaed til, Vared og Vakted ydur fyrer Swrdeige þeirra Phariſeorum og Saduceorum, (b) og vid Swrdeige Herodis. (e) Þa þeinktu þeir med ſier, og ſøgdu hvør vid añañ: Þad mun vera þad vær høfum eingeñ Braud med oſs teked. Eñ er JEſus fornam þad, ſagde hañ til þeirra: Þier Lijteltrwader, Hvad huxed þier um̃ þad, þo ad þier hafed ei Braud med ydur haft? Skynied þier eñ nu ecke nie underſtanded? (b) Haf ed þier eñ forherdt Hiortu i ydur? Hafed þier Augu, eñ ſiaaed ei, og hafed Eyru og heyred eige? (e) Miñeſt þier ecke (b) ad eg braut Fim̃ Braud i millum Fim̃ Þuſunda, Hvørſu margar Karfer fullar med Afgaangs-Leifar tookud þier þa upp? Þeir ſøgdu Toolf. Eñ þa eg braut þau Sio Braud aa millum Fiogra Þuſunda, Hvørſu margar Karfer fullar med Leifar tookud þier þa upp? Þeir ſøgdu Sio. Og hañ ſagde til þeirra: Hvørneñ ſkilied þier þad þa ecke, (a) ad eg ſagde ydur eige af Braude enu, þo eg ſeige, Vakted ydur fyrer Swrdeige þeirra Phariſeorum og Saduceorum? Þa underſtoodu þeir ad hañ hafde eige ſagt þeim þad þeir ſkylldu vara ſig vid Swrdeige Braudſins, helldur vid Lærdoome Phariſeaña og Saduceaña.

HAñ [b] kom til Bethsaida, og þeir leiddu þa Eirn Blindañ Mañ til hañs, og bædu hañ ad hañ snerte hañ. Eñ hañ took i Hond h'ns Blinda og leidde hañ wt af, fyrer utañ Kauptuned, spijtte i hañs Augu, og lagde sijnar Hendur yfer hañ, og spurde hañ ad, hvꝍrt hañ sæe nockud, Eñ hañ leit upp og sagde: Eg sie Meñena gaanga lijka sem eg sæe Trie. Pa lagde hañ eñ aptur Hendur yfer hañs Augu, og baud honum eñ upp ad lijta, og honum batnade so aptur, ad hañ saa allt klaarlega. Og hañ sende hañ til sijns Heimilis og sagde: Gack eige iñ aptur i Kauptuned, Seig þad og ecke neinum þar iñe.

# X. Capitule.

## Uñ Ferd Christi til Cæsaream Philippi, hvar Petur giorde sijna goodu Jaatning uñ hañ, hvar og eirneñ JEsus took til ad segia Lærесveinunum fyrer, og undervijsa þeim uñ sijna tilstandande Pijnu og Dauda.

Matth. 16. Marc. 8. Luc. 9.

JEsus (a) gieck wt og hañs Lærеsveinar i Landsaalfur Borgareñar Cesarea Philippi [b] og til þeirra Kauptuna (er þar hiaa voru). [c] Og þad giordest þa hañ var eirn og badst fyrer, og hañs Lærеsveinar hia honum, [1] ad hañ spurde þa ad aa Leideñe, og sagde til þeirra: Hvad seigia Meñ til, hvꝍr Mañsins

Son

Son sie? Þeir svørudu og sögdu: Sumer segia þu siert Johañes Skijrare, eñ adrer þu siert Elias, sumer ad þu siert Jeremias, eñ sumer ad þu siert eirn af Spamoñunum, edur þad [c] eirn af hinum gømlu Spamoñum sie uppriseñ. [e] Þa sagde hañ til þeirra, eñ þier: Hvørn seiged þier mig þa vera? [l] Þa svarade Simon Petrus og sagde til hañs, þu ert Christur Sonur Guds lifanda. [a] Eñ JEsus svarade og sagde til hañs: Sæll ertu Simon Jonasson, þviad Holld og Blood byrte þier þad eige, helldur miñ Himneske Fader. Og eg seige þier, þu ert Petrus, og yfer þeñañ Hellustein mun eg uppbyggia mijna Christne, og Port Helviijtaña skulu eige Megn hafa i giegn heñe. Og þier mun eg giefa Lykla Himnarijkis, og allt hvad þu bindur a Jordu, skal a Himnum bunded vera, og allt hvad þu leyser a Jordu, skal a Himnum leyst vera. Þa fyrerbaud hañ sijnum Læresveinum [h] og hastade a þa, ad þeir segde þad ei neinum [b] um hañ, [a] ad hañ være JEsus sa Christus.

Þadañ i fra took JEsus til ad auglysa fyrer sijnum Læresveinum [b] og kieña þeim og sagde: [l] Hvørneñ Mañsins Syne byriade ad ganga til Jerusalem, og margt þola og hrakeñ vera af Aulldungunum, Hofudprestunum og Skriftlærdum, og Lijflateñ verda, og a hinum þridia Deige upp ad riisa. [b] Hañ talade og þetta Ord berlega wt. [c] Eñ Petur took hañ til sijn, atalde

hañ

hañ og ſagde, (a) HErra þirm ſialfum þier, þad hende þig øngvañeigeñ, (c) eñ hañ ſnere ſier vid, (b) leit til ſiña Læreſveina, haſtade a Petrum og ſagde: (c) Far fra mier Satan, (a) þu ert mier hneyxlanlegur, (c) þvi þu ſkilur eige hvad Guds er, helldur hvad Mañaña er.

OG (b) ad ſamañ kolludu Foolkenu aſamt hañs Læreſveinum, (l) ſagde JEſus til þeirra allra, ef nockur vill mier epterfylgia, þa afneite hañ ſialfum ſier, og take ſiñ Kroſs uppa ſig hvørsdaglega og fylge mier epter, þviad hvør hañ vill ſitt Liif forvara, ſa mun þvi tijna; Eñ hvør ſijnu Liife tijner, fyrer mijnar Saker og Evangelii, ſa mun þad fiña og þvi (b) bihallda. Þvi ad hvad ſtodar þad Mañeñ, þo hañ viñe allañ Heimeñ, eñ feinge Tioon a ſiñe Saalu, (c) edur ſkade ſialfañ ſig? (e) Edur hvad mun Mañureñ fa giefed þar hañ Saalu ſijna med Endurleyſe? (h) Eñ hvør hañ ſkamaſt mijn edur miña Orda, (b) hia þeſſare hoorunarſamre og Syndugu Kynſlood, (b) þeſs mun Mañſins Sonur feila ſier, þa hañ kiemur i Dyrd ſiñe og ſijns Fødurs, og heilagra Eingla. (a) Þvi þad mun ſkie, ad Mañſins Son mun koma i Dijrd ſijns Fødurs med ſijnum Einglum, og þa mun hañ gialld a hvørium ſem einum epter ſijnum Verkum. (b) Hañ ſagde og til þeirra, (l) Sañlega ſeige eg ydur, ad nockrer ſtanda hier af þeim ſem Daudañ ſkulu ei ſmacka, þar til þeir ſia Guds Rijke (b)

med

med Krapte komande, (a) og Mañsins Son komande i sijnu Rijke.

# XI. Capitule.

## Um̃ Forklaran Christi a Fiallenu fyrer Premur hañs Læresveinum, og hañs Apturkomu þadañ til Postulaña.

Matth. 17. Marc. 9. Luc. 9.

OG (c) þad skiede (e) Sex Døgum (c) epter þessa Rædu, ad (e) JEsus took med sier Petrum, og Jacobum og Johañem Broodur hañs, og hafde þa Affsijdis (b) Einasamañ, (c) og gieck uppa eitt (e) haatt Fiall (c) ad bidiast fyrer.

Og þa er hañ badst fyrer, vard hañs Andlits-Mynd ødruvijs (b) og Forklaradest fyrer þeim, (a) Og hañs Asiaana skein sem Sool, (l) eñ hañs Klæde urdu so biort sem Lioos, skijnande og næsta hvijt sem Snioor, (b) So ad eingeñ Litunar-Mad ur a Jordu kañ so hvijtt ad giora.

(f) Og sia, (a) ad honum byrtust þeir (c) Tveir Meñ, hverier ed voru þeir Moyses og Elias, (b) og hielldu Eitt Samtal vid JEsum, (c) þeir Opeñberudust i Byrtuñe, og toludu um̃ hañs Utfør, hvoria hañ munde fullkomna til Jerusalem. Eñ Petur og þeir ed voru med honum, voru fuller af Svefne. Og er þeir vøknudu saau þeir hañs Dyrd, og þa Tvo Meñ hiaa honum standa. Pad

vard

vard og þa þeir skildu vid hañ, [l] ad Petur svarade og sagde til JEsu: Meistare, hier er oss gott ad vera: Ef þu villt þa vilium vier giora hier upp Priar Tialldbwder: Þier eina, Mosi eina, og Eliæ eina, [h] og hañ visse ei hvad hañ sagde, [b] af þvi þeir voru Ottaslegner. [f] Og þa er hañ var þetta ad tala, Siaa, [l] þa kom eitt biart Sky og yferskygde þaa, [c] og þeir Ottudust er Skyed leid yfer þaa. [l] Og siaa ad ein Rodd kom wr Skyenu og sagde: Þesse er miñ Elskulegur Sonur, [a] ad hvørium mier velþocknast, honum skulud þier heyra. Eñ er hañs Lærefveinar heyrdu þad, fiellu þeir fram aa siinar Asiaaner, og urdu miøg hrædder [e] Og i þvi ad soddañ Rodd vard, fundu þeir JEsum Einsamañ. [a] Eñ JEsus gieck til þeirra, took aa þeim og sagde: Standed upp og vered eige hrædder. [b] Og strax þar epter litu þeir i kriingum sig og saau ongvañ nema alleina JEsum hiaa sier. [e] Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu, [b] Fyrerbaud JEsus þeim, ad þeir segdu þad aungvum, hvad þeir høfdu sied, þaangad til ad Mañsins Son være uppriseñ af Dauda, [a] og sagde: Þier skulud aungvum þessa Sioon seigia, þar til ad Mañsins Son er uppriseñ af Dauda. [c] Og þeir þøgdu, [b] og hielldu þvi Orde hiaa sier, spyriande siin aa mille, hvad þad være ad uppriisa af Dauda? [c] Og søgdu ongvum neitt fraa þvi aa þeim Døgum. hvad þeir høfdu sied.

OG [e] hans Lærefveinar spurdu hañ ad og sǫgdu: Hvad er þad þa sem hiner Skriftlærdu seigia, þad Elias hlioote adur ad koma? Eñ JEsus svarade og sagde til þeirra: Elias skal ad visu adur koma, og alla Hlute Lagfæra, [b] Þar ad auk mun Mañsins Son margt lijda, og forsmadur verda, so sem þar skrifad stendur. [c] Eñ eg seige ydur: Þad Elias er alla Reidu komeñ, [a] Og þeir þecktu hañ ecke, helldur giǫrdu þeir vid hañ hvad hellst þeir villdu. [b] So sem skrifad er af hǫnum. [a] So mun og Mañsins Son verda af þeim ad lijda. Þa underſtoodu Lærefveinarner þad hañ hafde sagt af Johañe Skijrara.

N.B. Lucas skrifar, ad nær Atta Dǫgum epter þad ad Christur hafde frañsett þa Rædu sem umgietur i næst fyrerfarande Capitula, þa hafe hañ forklaraſt a Fiallenu fyrer Premur sijnum Lærefveinum. Eñ Mattheus og Marcus seigia þad hafe skied Sex Dǫgum þar epter. Hvar athugande er, ad Gudspiallameñerner eru ei sijdur hier eñ añarstadar Samhlioda, þvi Lucas telur med þañ Dageñ sem Christur sagde fyrer þessa sijna Forklaran, og þañ a hvǫrium hun skiede, eñ hiner Tveir telia alleinasta þa Sex Daga sem þar a mille voru.

# XII. Capitule.

Umm Lækning þess Tunglsiwka sem Lærefveinarner gatu ei Læknad. Item um̃ Reisu Christi i giegnum Galileam, og hvǫrneñ hañ gallt Skatt-Peningeñ i Capernaum, fyrer sig og Petur.

Matth. 17. Marc. 9. Luc. 9.

OG (c) þad ſkiede Aññars Dags er þeir fooru ofañ af Fiallenu, [b] og hañ kom til ſiña Læreſveina, og ſaa þar margt Foolk i krijngum þaa, og hina Skriftlærdu, er ſpurduſt at vid þaa, og ſtrax er allt Foolked leit hañ, Felmtrade þvi, hlupu ad og heilſudu honum. [a] Og er þeir komu til Foolkſins, [q] ſpurde hañ þaa hina Skriftlærdu, ad hvøriu ſpurieſt þier um̃ vid þaa? [l] Og ſiaa Eirn Madur aa medal Foolkſins, gieck til hañs og fiell til Foota honum, kallade upp, ſvarade og ſagde: [b] Meiſtare, Eg flutte Son miñ hijngad til þijn, hañ hefur Maallauſañ Anda, [c] Eg bid þig ſiaa til Sonar mijns, þviad hañ er miñ Einka Son. [a] HErra Myſkuna þu Syne mijnum, þviad hañ er Tunglſiwkur, og er herfelega Pijndur, þviad opt fellur hañ aa Elld, og Praattſiñis i Vatn, [h] Og ſiaa, þegar ad Andeñ griipur hañ, þa Emiar hñ jafnſnart, og hañ hrijfur hañ(og)ſlijtur, ſo hañ Frodufeller, og hañ gnijſter Toñum og þornar upp, [e] og varla ſkilſt hañ vid hañ þa hañ hefur hrifed hañ. [a] Eg hafde hañ og til þiña Læreſveina, [c] og bad þaa ad þeir ræke hañ wt, [l] Og þeir gaatu honum ecke hiaalpad. Eñ JEſus ſvarade honum og ſagde: O þu hin Vantrwada og fraa hverſa Kynſlood, Hvørſu leinge þa ſkal eg hiaa ydur vera? Eda hvørſu leinge aa eg ad umlijda ydur? Hafed hañ hijngad til mijn, [b] og þeir færdu hañ þaangad til hañs. [c] Þa hañ kom til hañs,

hũs, [b] Og strax er Andeñ leit hũ, [c] hreif Diof-
ulleñ hañ [h] og sleit hañ miøg [b] og fiell a Jord,
Velltest um̃ og Froduselldе.

Hañ spurde og hañs Fodur ad; Hvørsu laung-
ur Tijme er fra þvi hañ hreppte þetta? Eñ hañ
sagde: fra Barnæsku, og optlega hefur hañ flei-
gt hönum i Elld og Vatn, ad hañ fyrerfære hön-
um. Eñ ef þu orkar nockru, þa sia aumur a
ockur, og hialpa ockur. Eñ JEsus sagde til
hañs, ef þu gietur trwad, trwudum er allt mögu-
legt. Og strax þa kallade Fader Barnsins upp
med Tarum og sagde: Eg trwe Herra, hialpa
þu miñe Vantrw. Og er JEsus sa ad Foolked
hlioop ad, [l] hastade hañ a hiñ Ohreina Anda,
[b] og sagde til hañs: Þu Maallause og daufe
Ande, eg bijd þier ad þu farer wt af hönum, og
farer ei framar i hañ. Þa kallade hañ upp og
sleit hañ miøg, og Diofulleñ foor wt af hönum,
og hañ vard sem være hañ Daudur, so marger
sögdu, hañ er Daudur.

Eñ JEsus took i hañs Hönd og reiste hañ upp,
[c] og læknade Pilteñ, [b] hañ reis þa upp [a]
og Sveineñ vard heilbrygdur a samre Stundu,
[c] og hañ fieck hañ aptur Fodur sijnum; Eñ
þeim ognade øllum Guds Dyrd. [b] Og þa hañ
kom heim, [e] geingu Lærесveinarner heimuglega
til JEsu, spurdu hañ ad og sögdu: Þvi gaatum
vær ei drifed hañ wt? JEsus svarade og sagde
til þeirra, [a] fyrer ydar Vantrwar Saker, þvi

 eg

eg seige ydur fyrer Hañ, ef þier hefdud Trw sem Mustardskorn, mættud þier seigia Fialle þessu, far þu hiedañ og þangad, og munde þad fara, og eckert munde ydur omøgulegt vera. Eñ þetta Kyn rekst eige wt nema med Bæn og Føstu.

OG [b] þeir geingu þadañ, og ferduðust uñ Galileam, hañ villde og eige ad þad skyllde nockur vita. Hañ kiende siinum Læresveinum. [a] Eñ sem þeir siisludu uñ i Galilea, [c] og aller þeir undruðust þad allt, hvad hañ giorde, [l] sagde JEsus til siña Læresveina: [e] Taked þessa Rædu i ydar Eyru; [l] þviad epterkomande er þad Mañsins Sonur mun ofurselldur verda i Maña Hendur, [e] og þeir munu liiflaata hañ [b] og þa hañ er afliifadur, [a] mun hañ uppriisa aa þridia Deige. [h] Eñ þeir underſtoodu eige þad Ord, [c] og þad var huled fyrer þeim, so ad þeir skylldu þad eige, og þeir ottuðust ad spyria hañ ad þvi sama Orde, [a] Og þeir urdu næsta hryggver. [b] Og hñ kom til Capernaum. [a] Og er þeir komu (þaangad) geingu þeir ad Petre sem Skattgiallded uppbaaru, og søgdu, ydar Meistare, plagar hañ eige ad giallda Skatt? Hañ sagde: Jaa. Og er hañ kom heim, kom JEsus fyrr ad honum og sagde: Hvad lyst þier Simon, af hvorium taka Jardleger Kongar Toll edur Skatt-Pening? Af siinum Bornum, edur af añarlegum? Petur sagde til hañs: Af añarlegum, JEsus sagde þa til hañs: Þa eru Borneñ frij. Eñ so ad vier siettum þeim

þeim ei ad Hneixlan, þa far til Siofar, og kasta
wt Aunglenum, og þañ Fisk sem fyrstur kiemur
upp, tak hañ, og er þu opnar hans Gin, muntu
fiña Stater, þa somu tak þu og gief honum fyrer
mig og þig.

# XIII. Capitule.

Christur tekur sijnum Læresveinum Vara fyrer Hofmood, Metorda-Gyrnd og Hneyxle Smælingiaña, og kieñer hvørneñ Mañungeñ eige hvoflega ad Straffast, hvar og so er iñfært uñ þañ sem Diofla wtrak i Nafne Christi, eñ ecke epterfylgde Christo. Item Spurning S. Peturs, hvad opt hañ skyllde fyrergiefa sijnum Broodur, og Svar Christi þar uppa, og Epterlijking af þeim tveimur Skulldbuudnu Pioonum.

Matth. 18. Marc. 9. Luc. 9.

ENN (c) saa Pañke kom þeirra a mille, hvor þeirra munde mestur vera. Og þa er JEsus sa þeirra Hiartans Pañka, [b] og sem hañ var heima, spurde hañ þa ad, hvad handtierudud þier ydar a mille a Veigenum? Eñ þeir þogdu, þviad þeir hofdu handtierad uñ a Veigenum hvor þeirra mestur være. Og hañ sette sig, og kallade þa toolf. [a] A þeirre somu Stundu geingu Læresveinarner til JEsum og sogdu: Hvor er mestur i Himnarijke? [b] Og hañ sagde til þeirra: Ef nockur vill fyrstur vera, sa skal ollum sijdastur vera, og allra

Pioon: [l] JEsus kallade og took eitt Barn til
sijn, og sette þad hia sier, mitt aa millum þeirra.
[b] Og hañ fadmade þad og sagde til þeirra: [a]
Sañlega seige eg ydur, nema þier snwest og verd-
ed so sem Smaa-Born, munud þier eige koma i
Himnarijke. Hvor sialfur sig lækkar so sem Ba-
rn þetta, sa er mestur i Himnarijke. Og hvor
sem medtekur[e] þetta Barn (edur) eitt [c] þvilijkt
Barnkorn [l] i mijnu Nafne, sa medtekur mig:
[h] Og hvor hellst hañ medtekur mig, sa medtek-
ur ei mig, helldur þañ sem mig sende. [c] Eñ sa
ydar sem minstur er allra, hañ mun mykell ver-
da. [h] Og Johañes svarade honum þa og sag-
de: Meistare, vier saaum eirn þañ, sim rak wt Dioff-
la i þijnu Nafne, hvor ed ei fylger oss epter, og
vær fyrerbudum honum þad, af þvi hañ fylgde oss
ei epter. Eñ JEsus sagde til hañs: Eige skulud
þier fyrerbiooda honum þad, [b] þviad eingeñ er
sa, ef hañ giörer Kraptaverk i mijnu Nafne, ad
hañ kuñe þa strax illa ad tala um mig, [h] þvi-
ad hvor hañ er eige a moote oss, hañ er med oss.
Hvor, [b] sem ydur giefur ad drecka, eirn Bik-
ar Vatns i mijnu Nafne, af þvi þier erud Ch-
risti; Sañlega þa seige eg ydur, ad þad skal hon-
um ei olaunad verda. [e] Og hvor hañ hneyxlar
eitn af þessum smaau sem aa mig trwa, þarfara væ-
re honum ad Milnu-Steirn heingdest um Hals
honum og være i Sioo soktur þar hañ er diwpast-
ur. [a] Vei sie Heimenum fyrer Hneyxlaner, þar
hlioota

hlioota þo Hneixlaner ad koma. Eñ þo sie vei þeim Mañe fyrer hvorn ad Hneyxlaneñ kiemur, [c] Og ef þijn Hønd hneyxlar þig, þa høgg hana af [a] og snara fra þier, [e] betra er þier Handarvana iñ ad ganga til Lijffins, eñ hafande tvær Hendur og fara til Helvijtis, i þañ eilijfa Elld, hvar ed þeirra Madkur deyr eige, og þar þeirra Elldur slokinar ecke. Og ef þig hneyxlar Footur þiñ, þa høgg hañ af og snara fra þier, betra er þier Halltum iñ ad ganga til Lijffins, eñ þad þu hafer tvo Fætur og kastest i Helvijte, i þañ eilijfa Elld, hvar ed þeirra Ormur deyr eige, og þeirra Elldur slockuar eige. Og ef Auga þitt hneyxlar þig þa slijt þad wt, og snara þvi fra þier, betra er þier eineygdum iñ ad ganga i Guds Rijke, eñ ad þu hafer tvø Augu og kastest i Helvijtskañ Elld, hvar ed þeirra Ormur deyr eige, og þar þeirra Elldur slokknar eige. [b] Allt hlijtur med Ellde ad salltast, og hvørt Offur skal med Sallte salltast. Sallted er gott, eñ ef Sallted dofnar, med hvoriu skulud þier þa sallta þad? Hafed þier Sallted med ydur, og hafed þier Frid hvør vid añañ. [a] Siaed til ad þier forsmaaed eige eirn af þessum Smælingium, þviad eg seige ydur, ad þeirra Einglar æ Himnum siaa alltijd mijns Fødurs Auglit a Himnum. Þviad Mañsins Son er komeñ ad giora hoolped hvad fortapad var. Hvad vyrdest ydur; Ef einhvør Madur hefur hundrad Sauda, og villest eirn af þeim? Skilst hañ eige vid þaa nyu og

nyutyger a Fiøllum uppe, og fer ad leita ad þeim sem villtest? Og ef so skier ad hañ fiñur hañ. Sañlega seige eg ydur, ad hañ fagnar meir yfer hønum, eñ yfer hinum nyu og nyutyger, sem



ei villtust. So er eige Vilie Fødurs ydar sem a Himnum er, ad eirn af þessum smaau tapest.

Eñ ef Brooder þiñ briitur vid þig, far þu og straffa hañ a millum þijn og hañs Einsamans, ef hañ heyrer þig, þa hefur þu þiñ Broodur uñed. Eñ ef hañ heyrer þig ei, þa tak Eirn edur Tvo til þijn, so ad i Muñe Tveggia edur Priggia Votta, stande øll Maalefne. Nu ef hañ heyrer eige þeim, þa seig þad Samkunduñe. Eñ ef hañ heyrer ei Samkunduñe, þa hallt hañ sem añañ Heidingia og Tollheimtumañ, Sañlega seige eg ydur: Hvad hellst þier binded a Jørdu, skal a Himnum bunded vera

ra, og hvad hellst þier leysed a Jordu, skal leyst vera a Himne. Framveigis seige eg ydur þad, ef Tveir af ydur samtaka a Jordu, um hvorn Hlut sem þad er, ad þeir vilia bidia, skal þeim veitt vera af mijnum Fodur sem a Himnum er. Þviad hvar Tveir eda Þrijr samansafnader eru i mijnu Nafne, þar em eg midt a millum þeirra.

ÞA gieck Petur til hans og sagde: HErra, Hvorsu opt skal eg mijnum Broodur þeim sem vid mig brijtur, Fyrergiefa? Er þad noog Sio Sinnum? JEsus sagde til hans:, Eg seige þier, Eige Sio Sinnum, helldur Siotyge Sinnum Sio Sinnum.

FYrer þvi er Himnarijke lijkt þeim Konunge sem reikna villde vid Þioona sijna. Og er hann took til ad reikna, kom Eirn fyrer hann, sa er honum var skylldugur um Tyu Þusund Punda. En þa hann hafde ei til hvad hann skyllde giallda, baud Herrann ad selia hann og hans Hwsfrw og hans Born, og allt hvad hann atte, og borga med. Þa fiell sa Þioon framm tilbad hann og sagde: Herra, haf Þolinmæde vid mig, allt skal eg þier giallda. Þa sa Herrann Aumur a þeim Þioon, og liet hann lausann, og gaf honum eirnenn upp Skulldena. Þa gieck sa same Þioon wt, og fann eirn af sijnum Samlags Þioonum, sa var honum Hundrad Peninga skylldugur, og hann greip hann og took fyrer Kverkar hans og sagde: Giallt mier hvad þu ert mier skylldugur. Þa fiell hans Samlags Þioon framm, bad hann og sagde: Haf Þolinmæde vid mig, þvi allt

skal eg þier giallda. Eñ hañ villde eige, helldur



foor hañ til og liet hañ i Dyblissu, þar til hañ hafde borgad þad hañ var skylldugur. Eñ er hañs Samþioonar sau hvad skiede, urdu þeir miøg hryggver vid, komu og undervijsudu sijnum Herra allt hvad giørst hafde. Þa kallade hañs Herra hañ fyrer sig, og sagde til hañs: Þu hiñ vonde Þioon, alla þessa Skulld gaf eg þier til, med þvi þu badst mig. Skyllder þu þa eige Myskunsamur vera vid þiñ Samlags Þioon, lijka sem eg var þier Myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofurselde hañ Kvølurunum þangad til ad hañ borgade allt hvad hañ var skylldugur. So muñ og miñ Himneskur Fader giøra vid ydur, ef þier fyrergiefed eige af ydrum Hiortum hvør eirn sijnum Broodur hañs Misgiørder.

# XIV. Capitule.

Umm þad hvørnenn ad Brædur Christi eggiudu hann ad ferdast til Jerusalem, til Tialldbwdar (edur Laufskala) Hatijdarennar. Item umm hanns Reisu þangad, og þa Priaa Menn sem honum villdu eptersylgia.

Iohann. 7. Luc. 9.

HA(d) var og naalæg Hatijd Gydinga, sem var Laufskalann Tilbwnadur. Brædur hanns sogdu þa til hanns: Tak þig upp og gack til Juda-Lands, so ad þijner Læresveinar siae eirnenn þau Verk er þu giorer. Þviad sann lega giorer einginn saa nockud Leynelega, sem sialfur hann epterleitar kunnur ad verda. Ef þu giorer þad, þa Opennbera þu þig fyrer Heimenum. Þvi hanns Brædur trwdu ei helldur a hann. JEsus sagde þa til þeirra: Minn Tijme er enn eige komenn, enn ydar Tijme er jafnann. Heimurenn fær ydur ei hatad, enn mig hatar hann, þviad eg ber Vitnisburd af honum, þad hanns Verk eru vond. Fared þier upp til þessarar Hatijdar, Eg vil enn ei fara upp til þessarar Hatijdar, þviad minn Tijme er enn eige uppfylldur. Enn þa hann hafde sagt þeim þetta, vard hann epter i Galilea.

ENN [c] þad skiede þa Tijmenn fullkomnadest er hann skyllde takast burt hiedann, snere hann sinne Asiaun til ad ganga strax til Jerusalem, og hann liet Sendeboda fara fyrer sinne Augsyn. Þeir fooru

og komu iñ i Samverskt Kauptun, ad wtvega honum Herberge. Eñ þeir tooku eige vid honum, af þvi hañ hafde snwed siñe Asiaan ad reisa upp til JErusalem. Eñ er hañs Læresveinar Jacobus og Johañes saau þad, sogdu þeir: HErra, villtu, þa vilium vier seigia ad Elldur falle af Himne, og fortære þeim, lijka sem ad Elias giorde? Eñ JEsus snere sier vid, hastade aa þaa og sagde: Vited þier eige hvors Anda Syner þier erud? Mañsins Sonur er ei komeñ til þess ad fyrerfara Saalum Maña, helldur þær ad frelsa. Og þeir geingu i Añad Kauptun.

NU [d] sem hañs Brædur voru uppfarner, þa foor hañ og sialfur upp til Hatijdareñar, eige Openberlega, helldur so sem aa Laun. [c] Og þad skiede er þeir voru aa Veigenum, ad Eirn sagde til hañs: Eg vil fylgia þier epter, hvort hellst þu fer. JEsus sagde til hañs: Refar hafa Holur, og Fuglar Himens Hreidur, eñ Mañsins Son hefur eige, hvar hañ meige sijnu Hofde ad halla. Hañ sagde þa til Eins Añars: Fylg þu mier epter, eñ saa sagde: HErra, Lofa mier fyrst ad gaanga og grafa Fodur miñ, JEsus sagde til hañs: Laat þaa Dauda grafa sijna Daudu, eñ þu gack og boda Guds Rijke. Og Añar sagde: HErra, Eg vil þier epterfylgia, Eñ lofa mier fyrst ad seigia þeim mijna Burtfør sem eru i mijnu Hwse. JEsus sagde til hañs: Hvor sem leggur sijna Hond aa Ploogeñ, og lijtur aa Bak sier aptur, Er ei hæfelegur til Guds Rijkis.

# XV. Capitule.

## Um̃ Utsending þeirra Siøtyge Lærescveina og Kieñing Christi i Mufterenu a Tialld-bwdar Hatijdeñe.

Luc. 10. Iohann. 7.

DAr (c) epter wtvallde DRottenñ og adra Siøtygu, og sende þaa wt Tvo og Tvo fyrer sier i allar þær Borger og Alfur er hañ villde koma. Og sagde til þeirra: Ad søñu er Kornskieñañ mikel, eñ Verka-Meñerner faaer, þvi bidied Herrañ Kornskieruñar, ad hañ sende Verk-Meñ i sijna Kornskieru. Fared wt, siaaed eg sende ydur so sem Lomb a medal Varga. Bered eige Pwng nie Toſku, og eige Skoo, Heilsed og aungvum a Veige. Hvar þier komed i Eitt Hws, þa seiged fyrst: Fridur sie i þessu Hwse. Og ef þar er Barn Fridarens, þa skal ydar Fridur hvijlast yfer hønum, Eñ ef eige er, þa mun ydar Fridur snwast til ydar aptur. Blijfed i þvi sama Hwse, Eted og Drecked hvad þeir hafa, þviad verdur er Merk-Madureñ siña Launa. Eige skul þier Raafa Hws af Hwse. Og i hvøria Borg sem þier iñgaanged, og þeir medtaka ydur, þa Eted þad sem fyrer ydur verdur framsett. Og lækned Siwka þaa sem þar eru, og seiged þeim: Guds Rijke er næalægt komed ydur. Eñ ef þier gaanged i nockra Borg, þar þeir medtaka ydur ei, gaanged wte a heñar Stræte og seiged: Eirneñ

þad

þad Dupt sem lodde a oss wr ydvarre Borg, hristum vær af a ydur, Po skulud þier vita ad Guds Rijke var nalægt ydur. Eg seige ydur: Pad Sodoma mun bærelegra vera a þeim Deige, Eñ þeirre Borg.

Vei þier Chorazin, Vei þier Bethsaida, þvi ad ef skied hefde i Tyro og Sidon soddañ Furdu-Verk, sem hia ydur hafa skied, hefde þeir Fordum setid i Seck og Ausku, og giort so Ydran. Po mun Tyro og Sidone bærelegra vera a Doomenum, eñ ydur. Og þu Capernaum, sem upphafeñ ert til Himens, munt nidurþryckiast allt til Helvijtis. Hvor ydur heyrer hañ heyrer mier, og hvor ydur forsmaar, hañ forsmaaer mig. Eñ hvor mig forsmaaer, hañ forsmaaer þañ sem mig sende.

Judar [d] leitudu þa ad honum uñ Haatijdena, og sögdu: Hvar er hañ? Og mikill Kritur var i Lijdnum uñ hañ. Sumer sögdu: Goodur er hañ, Eñ adrer sögdu: Nei, helldur leider hañ Lijdeñ Afvega. Eñ eingeñ talade þo bert uñ hañ, fyrer Hrædslu-Saker vid Gydinga.

EN ad haalfnadre Haatijdeñe, stie JEsus upp i Mustered, og kiende. Judar undrudust, so seigiande: Hvorneñ kañ þesse Ritningarnar, med þvi ad hañ lærde þær ei? JEsus svarade þeim og sagde: Miñ Lærdoomur er ei miñ, helldur hañs er mig sende. Ef sa er nockur sem giora vill hañs Vilia, hañ reyner hvort þesse Lærdoomur er af Gude, eda hvort eg tala af sialfum mier. Hvor sem

sem af sialfum sier talar, Saa leitar siñar eigeñ Dijrdar, eñ hvør hañ leitar þess Dijrdar sem hañ sende, hañ er Sañordur, og eckert Rangläte er med hønum. Gaf Moyses ydur ei Log, og eingeñ ydar helldur Logeñ? Edur þvi søked þier epter ad Lijflaata mig? Lijdureñ svarade og sagde: Diøfuleñ hefur þu, Hvor sæker ad Lijflaata þig? JEsus svarade og sagde: Eitt Verk giørda eg, og þad undrest þier aller. Moyses gaf ydur þvi Umskurnena, Eige þad hun være af Moyse komeñ, helldur af Forfedrunum, og þo umskiered þier Mañ eñ aa Sabbatsdeige. Nu ef Madureñ medtekur Umskurnena aa Sabbatsdeige, so ad eige briootest Moysis Logmaal, eñ þier Reidest þo vid mig, þad eg giørde allañ Mañeñ heilañ aa Sabbatsdeige. Þier skulud eige dæma epter Asynd, helldur dæmed riettañ Doom.

Þa sogdu nockrer af Jerusalem: Er þad ecke saa sem þeir sooktu til ad Lijflaata? Siaaed nu talar hañ Openberlega, og þeir seigia eckert til hañs, Eda vita vorer Hofdingiar þad vijst, ad þesse er sañur Christur? Eñ vier vitum þo hvadañ hañ er, Eñ þa Christur kiemur, veit eingeñ hvadañ hañ er. Þa kallade JEsus i Musterenu kieñande, og seigiande: Þier þecked mig, og vited hvadañ eg em, og eg kom eige af sialfum mier, helldur er hañ Sañordur saa mig sende, hvorn þier þecked ei. Eñ eg þecke hañ, þviad eg em af hønum, og hañ hefur vtsent mig. Þa sooktu þeir epter ad grijpa hañ, eñ eingeñ

eingeñ lagde þo Hendur a hañ, þviad eige var hañs Tijme eñ komeñ. Eñ margt af Foolkenu trwde a hañ, og sögdu: Pa Christur kiemur, mun hañ giora nockud fleire Teikn eñ þesse giorer?

OG þad kom fyrer Phariseana, ad Foolked Kritte þetta uñ hañ, þa sendu Presta-Hofdingiar og Pharisei, Pienara wt, ad þeir Handtæke hañ. JEsus sagde til þeirra: Litla Stund em eg eñ hia ydur, og þa fer eg til hañs sem mig sende. Pier munud leita mijn, og fiña mig ei, og þar sem eg er, þangad faaed þier eige ad koma. Pa sögdu Gydingar sijn a mille: Hvort vill hañ fara so vier fiñum hañ ecke? Eda vill hañ gaunga a medal Gryckia, sem hijngad og þangad sundurdreyfder liggia, og kieña Gryckium? Hvad fyrer Ræda er þad sem hañ sagde? Pier leited mijn og fiñed ecke, og þar sem eg er, þangad faaed þier eige ad koma.

# XVI. Capitule.

## Uñ þad er vidbar a sijdasta Deige Tialldbwdar-Hatijdareñar. Item uñ Hoorkonuna sem Pharisei leiddu fyrer Christum.

Iohann. 7. og 8.

ENN a Sijdasta Deige Hatijdareñar, sem var Veglegastur, gieck JEsus upp og kallade, so seigiande: Ef nockur þyrster, Kome hañ til mijn, og drecke. Hvor hañ trwer a mig, so sem Ritningeñ seiger, af hañs Kvide

Kvide skulu framflioota Straumar Lifanda Vatns.

ENN þetta sagde hañ um̃ þañ Anda, hvorn þeir skylldu medtaka, sem a hañ trydu, þvi Heilagur Ande var þar ei eñ, Þviad JEsus var eñ eige Auglystur. Og marger af Lyydnum sem heyrdu þessa hañs Rædu, sogdu: Þesse er sañur Spamadur. Adrer sogdu: Hañ er Christur, Eñ sumer sogdu: Skal Christur nockud koma af Galilea? Seiger eige Ritningeñ, ad Christur kome af Davids-Sæde, og wr Stadnum Bethlehem̃, þar sem David var? So vard Ein Tvijdrægne med Foolkenu um̃ hañ. Eñ nockrer af þeim villdu hafa griped hañ, Eñ eingeñ lagde þo Hendur a hañ.

Þienararner komu aptur til þeirra yppurstu Presta og Phariseaña, og þeir sogdu til þeirra: Þvi hofdud þier hañ eige hijngad? Þienararner svorudu, þar hefur alldrei nockur Madur so talad sem þesse Madur. Þa svorudu Pharisei þeim; Hvort erud þier og villter? Trwer nockur Hofdingiaña edur af Phariseis a hañ? Helldur þad Foolk sem eckert veit af Logmaalenu, er bolvad. Nicodemus sagde til þeirra: Sa sem kom til hañs um̃ Nott, hvor ed var eirn af þeim. Dæmer vort Logmaal nockud Mañeñ, nema hũ sie fyrre ransakadur, hvad hañ giorer? Þeir svorudu og sogdu til hañs, ertu og so eirn af Galileis? Ransaka þu og skoda þad, af Galilea rijs ecke Spamadur

madur upp. Og hvor gieck so heim.

OG JEsus gieck þa til Oliu-Fiallsins, og snem-
ma ad Morgne kom hañ aptur i Mustered,
og allt Foolked kom til hañs, og hañ sette sig og
kiende þeim. Eñ hiner Skriftlærdu og Phari-
searner leiddu fram fyrer hañ þa Konu, sem i
Hoordoome var gripeñ, og settu hana þar i Mid-
ed, og søgdu til hañs: Meistare, þesse Kona er
nu gripeñ ad ferskum Giorninge i Hoordoome, eñ
Moyses bijdur oss i Løgmaalenu, ad beria þess-
hattar Meñ Grioote; Eda hvad seiger þu til?
Eñ þetta søgdu þeir, ad þeir freistudu hañs, ad
þeir mættu so hafa Akiæru til hañs, eñ JEsus
laut nidur og ritade med Fijngrenum a Jordena.
Og sem þeir lietu ei af ad spyria hañ, þa riette
hañ sig upp, og sagde til þeirra: Hvør ydar sem
er aan Syndar, kaste sa fyrsta Steine a hana.
Pa laut hañ nidur aptur, og ritade a Jordena.
Pa þeir heyrdu þetta, geingu þeir wt, eirn epter
ødrum, fyrst Aulldungarner. JEsus var þa
eirn epter, og Konañ þar standande. Eñ JE-
sus riette sig upp, og er hañ sa þar aungvañ
nema Konuna, sagde hañ til heñar, Kona; Hv-
ar eru þeir sem þig aaklaga? Hefur eingeñ fordæ-
mt þig, Eñ hun sagde: Herra, eingeñ. JEsus
sagde: So fordæme eg þig og ecke helldur, gack hied-
añ, og syndga nu ei optar hiedañ af.

* * * * * *

# XVII. Capitule.

## Predikun Christi um̃ sijna Persoonu, og Gydingaña Blindleika og Hreckvijse.

Iohann. 8.

JEsus talade eñ aptur til þeirra, og sagde: Eg em Lioos Heimsins, hvor hañ fylger mier epter, sa mun ei ganga i Myrkruñum, helldur skal hañ hafa Lioos Lijfsens.

Þa sogdu Phariseí til hañs, þu ber Vitne af sialf um þier, þiñ Vitnisburdur er eige sañur. JEsus svarade og sagde til þeirra: Ef eg ber af sialfum mier Vitne, þa er miñ Vitnisburdur sañur, þvi eg veit hvadañ eg kom, og hvort ad eg fer. Eñ þier vited eige hvadañ eg kom, eda hvort eg fer. Þier dæmed epter Holldenu, eg dæme ongvañ. Eñ ef eg dæme, þa er miñ Doomur riettur, þviad eg er ei einsamall, helldur eg og Fadereñ, er mig sende. So er og skrifad i Løgum ydar, ad tveggia Maña Vitnisburdur sie sañur. Eg em sa sem af sialfum mier ber Vitne, og Fadereñ sa mig sende, hañ ber af mier Vitne. Þa sogdu þeir til hañs: Hvar er þiñ Fader? JEsus svarade: Eige þecked þier mig nie miñ Fodur. Ef þier þecktud mig, þa þecktud þier lijka miñ Fodur.

Þesse Ord talade JEsus vid Guds Kistuna, þa hañ kiende i Musterenu, og eingeñ took hañ, þvi hañs Stund var eñ ei komeñ.

Pa sagde JEsus aptur til þeirra: Eg fer burt, og þier munud leita mijn, og i Syndum ydar deya, hvort eg fer; Þangad kuñed þier ei ad koma. Pa sögdu Gydingar, mun hañ þa vilia drepa sialfañ sig, þad hañ seiger: Hvort ad eg fer, þangad kuñed þier ei ad koma? Pa sagde hañ þeim: Þier erud hier nedañ ad, eg em ad ofañ, þier erud af þessum Heime. Eg em ei af þessum Heime, þvi sagde eg ydur, ad þier mundud deya i ydrum Syndum, þvi ef þier trwed ei ad eg sie hañ, þa munud þier deya i ydrum Syndum. Pa sögdu þeir til hañs: Hvør ert þu þa? JEsus sagde til þeirra. Fyrst sa, eg sem tala vid ydur. Margt hef eg ad tala og dæma uñ ydur, eñ sa mig sende, hañ er sañordur, og hvad eg heyrde af hønum, þad tala eg fyrer Heimenum. Eñ þeir skylldu eige ad hañ sagde þeim af Fodurnum; Pa sagde JEsus til þeirra: Nær þier upphefied Mañsins Son, þa skulud þier skilia, ad eg sie hañ, og af mier sialfum giore eg eckert, helldur eins og mier kiende miñ Fader, so tala eg. Og sa er mig sende, hañ er med mier; Faderen liet mig ei einsamañ, þviad eg giore jafnañ þad hønum er þægt. Pa hañ talade þetta, trwdu marger a hañ.

Pa sagde JEsus til þeirra Gydinga sim a hñ trwdu, ef þier blijfed vid mijna Rædu, þa erud þier mijner sañer Læresveinar; Og þa þeckie þier Sañleikeñ, og Sañleikureñ mun frelsa ydur. Pa svørudu þeir hønum, vier erum Abrahams Sæde, og

og alldrei hofum vier nockurs Mañs Prælar vered; Hvorneñ seiger þu, þier skulud friælser verda? JEsus svarade þeim og sagde: Sañlega sañlega seige eg ydur, hvor hellst sem Syndena giorer, sa er Syndareñar Præll. Prælleñ blijfur ei eilijflega i Hwsenu, eñ Sonureñ blijfur þar eilijflega. Nu ef Sonureñ frelsar ydur, þa erud þier riettelega frelsader. Eg veit vel ad þier erud Abrahams Sæde, eñ þier sæked til ad deyda mig, þviad mijn Ræda hefur ecke Rwm i ydur. Eg tala þad sem eg sied hefe, af mijnum Fodur; Og hvad þier saaud hia ydrum Fodur, þad giored þier. Þeir svorudu og sogdu til hañs: Abraham er vor Fader, þa sagde JEsus þeim, ef þier værud Abrahams Born, þa giordud þier Abrahams Verk. Eñ nu leited þier epter ad lijflaata mig, þañ Mañ þo, sem Sañleikañ seiger ydur, þañ eg heyrde af Gude, þetta giorde eige Abraham. Þier giored ydar Fodurs Verk; Þa svorudu þeir, eige erum vier fyrer utañ Ecktaskap fædder, Eirn Gud hofum vier fyrer Fodur. JEsus sagde til þeirra: Ef Gud være ydar Fader, þa elskudud þier mig, þvi eg em af Gude komeñ og framgeingeñ, þvi eige kom eg af siælfum mier, helldur sende hañ mig. Fyrer þvi þecked þier þa ecke mitt Maal, af þvi þier geted ei heyrt mijn Ord. Þier erud af Fodurnum Fianda, og epter Gyrndum ydars Fodurs, þa vilied þier giora, hañ var eirn Mordinge þegar ad Upphafe, og eige stood hañ i Sañleikanum, þvi ad

Sannleikurenn er eige i honum, þa hann talar Lyge, talar hann af sijnu eigenn, þvi hann er eirn Liwgare, og hennar Fader. Enn mier, af þvi eg seige Sannleikann, þa vilied þier eigi trwa.

Hvor ydar kann ad bevijsa uppa mig nockra Synd, nu ef eg seige Sannleikenn, þvi trwed þier mier þa eige? Hvor hann er af Gude, sa heyrer Guds Ord, af þvi heyred þier eige, ad þier erud eige af Gude. Þa svorudu Judar og sogdu honum: Seigium vier ecke riett, ad þu ert Samverskur, og hefur Diofulenn? JEsus svarade: Eg hefe aungvann Diofuls, helldur vegsama eg Fodur minn, og þier vanheidred mig. Eg leita ei ad minne Dyrd, sa er sem ad henne leitar og Dæmer. Sannlega sannlega segie eg ydur, ef nockur er sa sem helldur mijn Ord, hann mun ei sia Daudann ad eilijfu. Þa sogdu Judar vid hann: Nu þeckium vier ad þu hefur Diofulenn, Abraham er daudur og Spamennerner, og þu seiger: Ef nockur er sa sem geymer mijn Ord, hann mun eige Daudann smacka ad eilijfu. Edur ertu meyre Fodur vorum Abraham, hvor framlidenn er, og Spamennerner eru og framlidner; Hvorn giorer þu sialfann þig? JEsus svarade: Ef eg vegsama mig sialfur, þa er mijn Dyrd eingenn, þar er minn Fader, sa mig vegsamar, hvorn þier seiged ydvarn Gud vera, og þecked hann þo ei, enn eg þecke hann, og ef eg segde þad eg þeckte hann eige, þa være eg eirn Liwgare lijkur ydur; helldur þecke eg hann, og helld hanns Ord. Abraham Fader

er ydar gladdest, ad hañ skyllde sia miñ Dag, og hañ sa hañ, og vard gladur vid. Pa sögdu Judar til hañs, þu ert eñ eige Fimtugur, þo saſtu Abraham. JEsus sagde til þeirra: Sañlega sañlega seige eg ydur, adur eñ Abraham var, em eg. Þa tooku þeir upp Steina ad þeir kostudu a hañ; Eñ JEsus fordade sier, og gieck wr Musterenu, og gieck midt wt i millum þeirra, og komst so undañ.

# XVIII. Capitule.

Uñ Apturkomu þeirra Siøtygu Lærisveina, og þeirra Erindislok, hvar af JEsus gladdest i Anda. Item uñ Spurning Løgvitringsins, Svar Christi þar uppa, og Epterlijking uñ hañ er hrasadur var mille Ræningia, og Gisting Christi hia Martha.

Luc. 10.

EñN þeir Siøtyger komu aptur med Fagnade, og sögdu: HErra, þar eru einneñ Dioflar oss undergiefner i þijnu Nafne. Hañ sagde til þeirra: Eg sa Satan so sem Elding hrapa af Himne, Sieied, Eg hefe giefed ydur Valld til ad stijga uppa Hoggorma og Skorpiona, og yfer allañ Krapt Ovinarens, og ydur mun eckert granda meiga. Eñ þo skulud þier eige glediast af þessu, þad Andarner eru ydur undergiefner, helldur gledied ydur af þvi, þad ydar Nøfn eru skrifud a Himnum.

OG Samstundis gladdest JEsus i Anda, og sagde: Eg Prijsa Þig Fader og DRottenñ

Himens og Jardar, ad þu hulder þetta fyrer Spek
ingum og Vitringum, og Openberader þetta
Smælingium, ad sonu Fader, þviad so þocknad
est bad fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Hend
ur Giefner af mijnum Fodur, og eingeñ veit hvor
ed Sonureñ er, nema Fadereñ, eda hvor ed Fad
ereñ sie nema Sonureñ, og hvorium ed Sonureñ
vill þad Openbera.

OG hañ snereſt til siña Læresveina, og sagde sier
deilislega. Sæl eru þau Augu sem sia hvad
þier siaed; Þviad eg seige ydur: Pad marger
Spameñ og Kongar villdu hafa sied hvad þier
siaed, og saa bad eige, og heyra hvad þier heyred,
og heyrdu þad eige.

OG sia, ad nockur Logvitringur stood upp, freist
ade hañs og sagde: Meistare, Hvad skal eg
giora, So ad eg erfe Eilijft Lijf? Hañ sagde til
hañs: Hvorneñ stendur skrifad i Logmaalenu?
Hvorneñ les þu? Hañ svarade og sagde: Elska
skalltu DROtteñ Gud þiñ af ollu Hiarta, og af
allre Aund, og af ollum Mætte, og af ollu Hug
skote, og Naunga þiñ sem sialfañ þig. Hañ sag
de þa til hañs: Riett svarader þu, Gior þad og
muntu lifa. Eñ hañ villde Riettlæta sialfañ sig,
og sagde til JEsu: Hvor er þa miñ Naunge?
Eñ JEsus svarade og sagde: Madur nockur foor
fra Jerusalem ofañ til Jericho, og hrasade blant
Ræningia, hvorier ed flettu hañ Klædum, og slogu
hañ, Geingu burt, og lietu hañ þar epter Hálf
daud

daudañ liggia. En so bar til Ovart, ad Eirn Prestur foor ofañ sama Veg, og er hañ leit hañ Gieck hañ fram̃ hiaa honum. Lijka og Levitēñ, þa hañ kom nær þeim Stad, og er hañ saa hañ, Gieck hañ og fram̃ hiaa. Eñ Eirn Samverskur



Madur ferdadest og kom þaangad, og er hañ leit hañ, Saa hañ Aumur aa honum, gieck ad honum og batt um̃ Saar hañs, Hellande i þau Vidsmiøre og Vijne, og lagde hañ aa siñ Eyk, og flutte til Herbergis, Gaf og Giætur ad honum. Eñ Añars Dags ferdadest hañ burt, og took upp Tvo Peninga, og fieck Hwsbwandanum, og sagde: Haf Gaat a honum, og hvad hellst þu leggur meira wt, þa skal eg borga þier, nær eg kiem aptur. Hver þeirra Þriggia synest þier vera þess Naunge sem hrasadur var i bland Næningiaña? Eñ hañ

sagde: Sa er Myskunsemdena giorde at honum, Þa sagde JEsus til hañs: Far þu þa og giør sliikt hid sama.

ENN þad skiede, þa þeir ferduduft, ad hañ gieck iñ i Eitt Kauptun, þar var Ein Kviña er Martha hiet, Hun medtook hañ i sitt Hws. Og hun atte þa Syster er Maria hiet, hvør ed sette sig fyrer Fætur JEsu, og heyrde hañs Ord. Eñ Martha braust miøg fyrer ad þioona honum. Hun gieck ad og sagde: HErra, Hirder þu ei um̃ þad, ad Syster miin lætur mig Einsamla þioona? Seig heñe ad hun take Hende til med. Eñ JEsus svarade og sagde til heñar: Martha, Martha, þu ert so Ahygginfull, og mædest i morgu. Eitt er Naudsynlegt, Maria hefur kiored sier þad gooda Hlutskipte, hvad eige skal fra heñe takast.

## XIX. Capitule.

Hvørneñ Christur kiende siinum Læresveinum ad bidia, og gaf þeim Bænar-Formed. Item um̃ Utrekning Diøfuls þess er Dumbe var.

Luc. 11.

OG þad skiede, ad hañ var i nockrum Stad ad bidiast fyrer, og er hañ gaf upp, þa sagde Eirn af hañs Læresveinum til hañs: HErra, Kieñ þu oss ad bidia, Liika sem Johañes kiende siinum Læresveinum. Hañ sagde þa til þeirra: Nær þier Bidied, Seiged:

Fad-

Fader Vor ꝼa Himnum, Helgest þitt Nafn. Tilkome þitt Riijke. Verde þiñ Vilie so a Jord du sem a Himnum. Gief oß hvorn Dag vort Daglegt Braud. Og fyrergief oß vorar Synder, Þvi vær fyrergiefum og so ollum þeim sem oß eru skylduger. Og leid oß ecke i Freistne, Helldur frelsa oß fra Illu.

OG hañ sagde til þeirra: Hvør er ydar sem hefur Eirn Vin, og fer til hañs um̃ Midnætte, og seiger hønum: Goode Vinur, Lana mier Þriu Braud, Þviad Vinur miñ er komeñ af Leid til mijn, og eg hefe ei, þad eg meige fram̃ fyrer hañ setia. Og hiñ sem fyrer iñañ er, svarar og seiger: Giør mier ei Onaad, þvi Dyr eru nu lucktar, og Born mijn eru i Svefn Hwse hia mier, og eige giet eg uppstaded, ad fa þier þau? Eg seige ydur: Ef hañ stendur eige upp, og fær hønum þau, fyrer þad ad hañ er hañs Vinur, þa mun hañ þo fyrer Saker hañs Leidiñlegrar Brekunar uppstanda, og fa hønum so myked sem hañ þarf.

OG eg seige ydur eirneñ: Bidied og mun ydur giefast, og leited ad, og munud þier fiña, Knyed a, og mun fyrer ydur upploked verda, Þviad hvør ed bidur, hañ mun odlast, Hvør ed leitar, hañ fiñur, og hvør ed aknijr, fyrer hønum lykst upp. Eñ hvar bidur ydar a medal Eirn Sonur Fodureñ um̃ Braud, ad hañ bioode hønum Stein þar fyrer? Eda bidie hañ um̃ Fisk, ad hañ bioode hønum Eirn Hoggorm fyrer Fisk? Eda ef hañ bidur

um̃ Egg, ad hañ bioode honum Scorpion þar fyrer? Nu med þvi þier sem Vonder erud, kuñed Goodar Giafer ad giefa Bornum ydar, Myklu meir þa mun Faderen̄ a Himnum giefa þeim Heilagañ Anda er hañ bidia.

OG hañ rak wt Dioful þañ er Mallaus var, Og þad skiede er Diofulleñ var wtfaren̄, ad hiñ Mallause talade, og Foolked undrádest þad. Eñ nockrer af þeim sögdu: Fyrer Beelzebub Diofla Hofdingia, þa rekur hañ Diofla wt Adrer freyst udu hañs, og gyrndtust af honum Teikn af Himne Eñ hañ formerkte þa þeirra Hugreñingar og sagde til þeirra: Hvert Rijke sem i sialfu sier er sundurþyckt, þad mun eydast, og hvort Hws mun yfer añad hrapa, og ef Andskoten̄ er i sialfum sier sundurþyckur, Hvorneñ ma hañs Rijke þa standast? Fyrst þier seiged mig fyrer Beelzebub wtreka Diofla. Og ef eg a fyrer Beelzebub Diofla wt ad reka, fyrer hvorn wtreka þa ydar Born þa? Fyrer þvi skulu þeir verda og ydar Doomendur. Eñ ef eg rek wt Diofla fyrer Guds Fijngur, ad sönu kiemur þa Guds Rijke til ydar. Nær ed sterkur Hervopnadur vardveiter sijna Holl, þa er allt med Mak hvad hañ a. Eñ þa er Añar honum Yfersterkare kiemur, og yferviñur hañ, þa tekur hañ hañs Harneskiu, a hvoria hañ treyste, og sundurskipter Herfangenu. Hvor hañ er eige med mier, sa er i moote mier, Og hvor hañ dreaur eige samañ med mier, sa sundurdreifer. Nær O-

hreirn

hveirn Ande ser af Mañenum wt, Raasar hañ um̃ þurra Stade, og leitar ad Hvijld og fiñur ecke, þa seiger hañ: Eg vil hverfa aptur i Hws mitt, hvadañ eg foor wt, Og er hañ kiemur, fiñur hañ þad med Vende soopad og prijdt. Pa fer hañ, og tekur med sier Sio adra Anda sier verre, og er þeir eru þar iñkomner, byggia þeir þar, og verdur so sijdañ þess Mañs hid Sijdara verra hinu Fyrra.

EN̄N þad skiede er hañ so talade: Hoof nockur Kona aa medal Foolksins upp sijna Rodd og sagde til hañs: Sæll er saa Kvidur er þig bar, og þau Briooster þu mylkter. Eñ hañ sagde: Jaa, Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord, Og Vardveita þad.

EN̄N er Foolked þreyngdest þar fram̃ ad, took hañ ad seigia: Petta er ein Vond Kynslood, Hun gyrnest Teikn, og heñe skal eckert Teikn giefast nema Teikn Jonæ Spaamañs. Pviad lijka sem Jonas var Teikn Ninive Borgarmoñum, so mun Mañsins Son verda Kynslood þessare. Drottningeñ af Sudre mun gaanga upp fyrer Doomeñ med Moñum þessarar Kynsloodar, og Fordæma þaa, þviad hun kom af ystum Endemorkum Veralldar, ad heyra Speke Salomonis. Og siaaed, Hier er meir eñ Salomon. Meñ Ninive Borgar munu uppgaanga fyrer Doomeñ med þessare Kynslood, og munu hana Fordæma, þviad þeir giordu Ydran epter Predikun Jonæ, Og siaaed, hier er meir eñ Jonas. Eingeñ tendrar Lioosed,

og setur þad i Leyne, eda under Mæle-Ask, helldur a Liosa-Stiakan, so ad hver sem inngeingur siae Liosed. Augad er Lioos Lijkamans, þvi ef þitt Auga er Einfaldt, so er þitt Lijkame allur skiær, en ef Auga þitt er Skalkur, þa er einnenn þinn Lijkame Myrkur. Þvi sia so til, ad Lioos þad sem i þier er, sie ei Myrkur. Þegar Lijkame þinn er allur skiær, so hann hefur ei nockurn Part af Myrkrenu, so bliifur hann allur skiær, og mun upplijsa þig so sem ein skiær Leystran.

# XX. Capitule

## Umm Giesta-Bod nockurs Phariseara, og þad Samtal er þar innfiell, hvar Christur avijtar og straffar Phariseos og Skriftlærda.

Luc. 11.

Og er hann var slijkt ad mæla, þa bad hann nockur Phariseus ad hann æte Middags-Verd hia sier, hann gieck inn og sette sig til Bordsins. Enn er Phariseareñ sa þad, undradest hann ad hann þvode sier eige fyrer Maaltijdena. Enn DRottenn sagde til hans: Þier Pharisei halldeð hid ytra hreinum Bikurum og Fotum, enn ydvart hid innra er fullt med Raan og Illsku. Þier Heimsker: Sa ed giorde þad sem er hid ytra giorde hann ecke þad hid innra? Giefed þo Aulmusu af þvi sem þar er, og sia, þa er ydur þad allt hreint. Vei ydur Phariseis sem tijund-id Myntu, og Ruthu, og allt Kaal-Grese og sneid-

ed hiaa Doome og Guds Kiærleika, þetta byriaðe ad giora, eñ hitt eige epter ad skilia. Vei ydur Phariseis: Sem giarnañ sitied efst i Samkundu-Hwsum, og vilied faa Kvediur aa Torgum. Vei sie ydur Skriftlærdum, Phariseis, þier Hræsnarar: Þvi þier erud sem huldar Grafer Framlideña, yfer hvorium ad Meñ gaanga, og þeckia þær eige.

ÞA svarade nockur Skriftlærdur, og sagde til hañs: Meistare, med þessu Orde smaanar þu og os og. Eñ hañ sagde: Og ydur Skriftlærdum sie eirneñ Vei: Þvi þier þiaaed Meñ med Byrdum, er þeir gieta ei bored, og þier snerted þær eige med einum Fijngre. Vei ydur: Þviad þier uppbygged Spaamaña Grafernar, eñ Fedur ydar Lijflietu þaa. Ad soñu þa vitned þier þad, og samsiñed so Verkum ydvarra Fedra þviad þeir Aflijfudu þaa, eñ þier uppbygged Leide þeirra.

FYrer þvi seiger Spekeñ Guds: Eg vil senda til þeirra Spaameñ og Postula, og suma af þeim munu þeir deyda og ofsækia, so ad krefiest af þessare Kynslood Blood allra Spaamaña, þvi wthellt hefur vered fraa Grunndvallan Veralldar. Allt fraa Bloode Abels, og til Bloods Zachariæ, sem deyddur var i mille Alltaris og Musteresins: Jaa eg seige ydur: Ad þad mun krefiast af þessare Kynslood. Ve sie ydur Skriftlærdum: Þvi þier bered Lykil Vitskuñar, eñ komed þo eige sialfer þar iñ, og hamled þeim er þar vilia iñgaanga.

ENN þa hann hafde þvilijkt til þeirra talad: Toku Skriftlærder til og Phariseí þrönglega ad þreingia ad honum, og Vielsamlega hann ad morgu ad spyria. Veitande honum Umsaatur og leitudu vid ad jaga þad nockud af hans Munne, er þeir mætti hann um kylia.

# XXI. Capitule.

## Predikun Christi fyrer Lærisveinunum og Lydnum, ad varast Hræsne og ad Ottast ecke Lijkamlegann Dauda, eirnenn ad siaa vid Agyrnd og ofmiklum Ahuga Lijkamlegrar Fædu.

Luc. 12.

EN þuste Foolked ad, og þar komu margar Pusunder til samans, so ad hvor trad under annann, þa hoof hann upp og sagde til sinna Lærisveina: Vakted ydur fyrer Syrdeige Phariseorum, hvad ad er Hræsne, þviad eckert er so huled, sem eige skule verda augliooft, nie nockud so leindt ad Menn skule ei faa ad vita. Fyrer þvi hvad þier seiged i Myrkrum, þad mun i Lioose heyrast, og hvad þier i Svefnhusum hvijsled i Eyra, mun aa Ræfrum uppe predikad.

ENN eg seige ydur Vinum mijnum: Hrædest eige þaa sem Lijkamann aflijfa, og epter þad faa þeir ei meira ad giört. Enn eg vil syna ydur hvorn þier skulud hrædast, hrædest hann, sem epter þad er hann hefur Lijflaated, þa hefur hann Makt til ad kasta i Helvijte. Jaa seige eg ydur: Pa hrædest hann.

Seliast

Seliast eige Fim Skoogar-Prester fyrer Tvo Peninga: Og samt er eirn af þeim ecke gleimdur fyrer Gude? So eru oll Høfud-Hær ydar talen, fyrer þvi skulud þier ei ottast þviad þier erud dyrre eñ marger Skoogar-Prester. Eñ eg seige ydur: Hvor hellst hañ vidurkieñer mig fyrer Moñunum, þañ mun Mañsins Son vidurkieña fyrer Einglum Guds. Eñ hvor hañ afneytar mier fyrer Moñunum, honum mun afneytad verda fyrer Guds Einglum, og hvør ed talar Ord i giegn Mañsins Syne, þa mun honum þad fyrergiefast, eñ hvør hañ hæder ad Heilogum Anda, honum skal þad eige fyrergiefast.

ENN nær þeir leida ydur iñ i Samkundu-Hws og fyrer Vallded, og þær Mektugu, þa vered eige Hugsiwker uñ, hvorneñ eda hvøriu þier skulud svara, eda hvad þier skulud seigia, þviad Heilagur Ande mun fræda ydur aa somu Stundu, hvad ydur byriar ad seigia.

ÞA sagde eirn af Foolkenu til hañs: Meistare seig Broodur Miinum ad hañ skipte vid mig Arfenum, eñ hañ sagde honum: Þu Madur Hvør sette mig fyrer Doomara, eda Arfskiptis-Mañ yfer ydur? Og hañ sagde til þeirra: Siaaed til, og vared ydur vid Agyrne, þviad eingeñ lifer þar af, þad hañ hafe mikel Audæfe.

OG hañ talade þa eina Epterliiking til þeirra, og sagde: Audugur Madur nockur var sa hvørs Akur ed fært hafde Avoxt, hañ hugsade med sier

sier og sagde: Hvad skal eg til giora? Eg hefe eige þad hvar eg meige mijnum Avexte i safna. Og sagde: Pad vil eg giora, Eg vil nidur-rijfa mijna Hlødu, og giora upp adra meire, og safna þangad øllu þvi er mier hefur grooed, og mijnum Audæfum, og þa mun eg seigia til Sæalu miñar: Sæla mijn, þu hefur mikeñ Forda i morg Ar, hvijl þig nu, et og dreck, og vert glød, eñ Gud sagde til hañs: Pu Daare, a þessare Nott munu þeir þijna Saal af þier krefia, Hvørs verdur þad þa er þu hefur tilreidt? So geingur til fyrer þeim er sier draga Siood samañ, og eru ei i Gude Rijker.

PA sagde hañ til siña Læresveina: Fyrer þvi seige eg ydur: Stwred eige fyrer ydar Lijfe hvad þier skulud eta, og eige fyrer Lijkama ydar, hvoriu hañ skule klædast: Lijfed er meira eñ Fædañ, og Lijkameñ er meire eñ Fotеñ; Hygged ad Hrøfnunum, þeir sæa hvørke nie uppskiera, eige hafa þeir Hlødu nie Kiallara, og samt fæder Gud þa. Miklum mun betre erud þier þo Fuglunum. Eñ hvør ydar fær med siñe Hugsyke, auked Stærd sijna um eina Alnar Leingd? Nu ef þier orked eige þins minsta, hvar fyrer stwre þier þa fyrer hinu ødru. Hugleided Liliurnar a Morkeñe, hvørnеñ þær vaxa, þær viña eige nie spiña; Eñ eg seige ydur: Pad Salomon i allre siñe Dyrd, var ei so skrijddur sem ein af þeim. Nu fyrst Gud skrijder so þad Gras sem i Dag er a Akre, og a Morgun verdur i Ofneñ kasted, miklu meir mun hañ þa Klæda

Klæda ydur, O þier Lijteltrwader. Þar fyrer og so þier, hirded þar ecke um̃, hvad þier eted eda drecked, og hefied ydur ei hæatt, þviad epter þessu ollu sækia Heidingiar i Verollde ñe, eñ Fader ydar veit vel ad þier þurfed þessa vid; Þvi leited fyrst ad Guds Rijke, og mun ydur þa þetta allt til falla. Hrædst eige þu litla Hiord, þvi ad þad þocknast Fodur ydar ad giefa ydur Rijked. Selied hvad þier hafed, og giefed Olmusu, giored ydur og þær Secke er eige elldast, og þañ Siood er eige mijnkar a Himnum, ad hvorium Þioofar sæ ei komest, nie Melur eted, þvi hvar ydar Fiesioodur er, þar mun og ydart Hiarta vera.

# XXII. Capitule.

Sama Predikun Christi, hvar hañ aamiñer, ad Meñ sieu Vakande, og bijde epter Guds Rijke, og Tilkomu Messiæ, og aavijsar Foolked fyrer sitt Athugaleyse.

Luc. 12.

Alted ydar Lendar uñgyrdtar vera, og ydvart Lioos loga. Og vered lijker þeim Meñum er bijda epter sijnum Laanar-Drottne, hvenær hañ mune aptur koma af Brullaupum, so ad þa hañ kiemur og ber, sie strax fyrer honum upploked. Sæler eru þeir Þioonar, hvorra ed Herrañ fiñur vakande, þa hañ kiemur. Sañlega seige eg ydur, Þad hañ mune uppstytta sig og

setia þar til Bords, og gaanga fyrer þeim, og þioona þeim.

Og ef hañ kiemur a Añare Vakt, eda a hiñe Pridiu Vakt, og fiñur þad lijka so, Sæler eru þeir Pioonar. Eñ þad skulud þier vita, ad ef Hwsboondeñ visse a hvørre Stundu ad Pioofureñ kiæme, þa vekte hañ, og liete eige grafast i sitt Hws. Fyrer þvi vered þier og Reidubwner, þviad Mañsins Sonur mun a þeirre Stundu koma, er þier ætled eige.

PA sagde Petur til hañs: HErra, seiger þu þessa Epterlijking til vor, eda til allra? Eñ DRotteñ sagde: Hvad mikels er verdt um Trwañ og Forsiaalañ Hwsstioornar-Mañ, hvørn ed hañs Herra setur yfer sitt Heimkyñe, ad hañ giefe þeim i Riettañ Tijma, þad sem þeim ber? Sæll er sa Pioon, sem hañs Herra fiñur so giørande, þa ed hañ kiemur. Sañlega seige eg ydur: Pad hañ mun setia hañ yfer allt sitt Gooz. Eñ ef sa same Pioon seiger i Hiarta sijnu: Herra miñ giører Dvol a ad koma, og tekur ad beria Viñumeñ og Ambaatter, og ad Eta og Drecka, og sig druckeñ ad giøra. Pa mun Herrañ þess Pioons koma a þeim Deige er hañ þeinker eige, og a þeirre Stundu er hañ veit eige, og hañ mun hoggva hañ i sundur, og leggia honum sijn Laun med Otrwum. Eñ hvør sa Pioon er veit sijns Herra Vilia, og bioo sig eige til, giørde og eige epter hañs Vilia, hañ mun lijda mørg Høgg. Eñ sa hañ veit eige, og giører

þad

þad Hegningar er verdt, hañ mun miñe Hirting faa, þviad þeim sem miked er veitt, af honum æsk:st mikeð, og hvorium mikeð verdur i Hendur sellt, af honum heimtest mikeð. Eg er komeñ ad kveikia upp Elld a Jordu, hvad villde eg helldur eñ hañ brynñe nu þegar? Eñ eg hlijt ædur med Skijrn ad skijrast, og hvorsu eg þreingiunst þanngad til hun fullkomnast. Meined þier ad eg kiæme ad senda Frid a Jordu? Eg seige: Nei, helldur Sundur þyckiu. Þviad hiedañ i frá munu Fim̃ verda i einu Hwse Sundurþycker, Þrijr i moote Tveimur, og Tveir i moote Þremur. Fadereñ mun verda i moote Syneñum, og Sonureñ i moote Fodurnum, og Moodureñ i moote Doottureñe, og Doottureñ i moote Moodureñe, og Moodir Mañsins i moote Sonar-Konuñe, og Sonar-Konañ i moote Moodur Mañsins. Eñ hañ sagde til Folksins: Hvonær þier siaed Sky uppgaanga i Vestre, þa seiged þier jafnskiott ad Regn kome, og þad skier so, og nær þier siaed Suñañ-Vind blaasa, þa seiged þier Hita verda, og þad skier. Þier Hræsnarar, Asynd Himens og Jardar kuñed þier ad prooffa. Eñ þvi prooffed þier ei þeñañ Tijma? Eda fyrer þvi dæmed þier ei a sialfum ydur, hvad Riettast er? Eñ nær þu geingur med þijnum Sokudoolg fyrer Hofdingiañ, þa kosta Kapps at Veigenum, ad þu loser þig fraa honum, og eige dræge hañ þig fyrer Doomarañ, og Doomareñ selie þig Ressaranum, og Ressareñ kaste þier so i

Dyblissu. Eg seige þier: Ad eige muntu komast wt badañ, þar til þu borgar eirneñ hiñ Sijdasta Skarf.

# XXIII. Capitule.

## Alvarleg Amiñing Christi til Ydranar, wt af Dæme þeirra Galversku Maña, sem Pilatus liet deyda, Og þeirra, yfer hvøria ad fiell Turneñ i Sylo. Item Epterlijking um̃ þad Avaxtarlausa Fijkiu-Trie, og Lækning þeirrar Kreptu Konuñar a Sabbathsdege

Luc. 13.

ENN i þañ sama Tijma voru þar nockrer vider Kuñgiørdu honum fraa þeim i Galilea, hvørra Bloode Pilatus hafde blandad vid þeirra Foorner. JEsus svarade og sagde til þeirra: Meined þier ad þesser Galilei være syrer øllum Galileis Synduger, þoott þeir þyldu þetta? Ea seige: Nei, helldur ef þier giøred eige Ydran, þa fyrerfareſt þier lijka aller eins. Eda meined þier ad þeir Atiaan a hvøria Turneñ i Sylo hrapade og drap, hafe Sakader vered framar øllum Møñum er byggia til Jerusalem? Eg seige ydur: Nei, Helldur ef þier giøred eige Ydran, munud þier eirneñ aller so fyrerfaraſt.

OG hañ sagde þeim þessa Epterlijking: Þar hafde Eirn Eitt Fijkiu-Trie plantad i sijnum Vijngarde, hañ kom og leitade Avaxtar a þvi, og fañ eige. Pa sagde hañ til Vijngards-Mañsins.

Siat,

Sicꝏ, nu i Priu Ar hef eg Ariega komed, og leitad Avaxtar af þessu Fijkiu-Trie og funded eige, Hogg þad þvi af, Hvar til hindrar þad Gardlended? Eñ hañ svarade og sagde til hañs: HErra, Lofa þvi ad standa þetta Ared, þar til eg gref um þad og læt ad Myke, ef þad villde svo Avoxt færa, Eñ ef eige, þa hogg þad epterꝏ af.

OG hañ kiende i Einu af Samkundu-Hwsunum ꝏ Sabbathsdeige. Og siꝏed, ad þar var Ein Kona er (haft) hafde Krꝏnkleiks Anda i Atiꝏn Ar, og hun var Biwg, og olldungis ecke gat hun uppliteð. Eñ er JEsus leit hana, Kallade hañ hana til sijn, og sagde til heñar: Pu Kona, Vert laus af Krꝏnkdæme þijnu, og lagde Hendur yfer hana, og jafnskiott reiste hun sig upp, og Dyrkade Gud. Pa svarade Yfer-Madur Samkundu-Hwssens, og þyckteſt vid, þad JEsus lækn-ade ꝏ Sabbaths-Deige, og sagde til Lijdsins: Sex Dagar eru þeir, ꝏ hvorium hæfer ad viña, Komed þier ꝏ þeim ad lꝏta Lækna ydur, eñ eige ꝏ Sabbaths-Deige. DRottẽ svarade hønum og sagde: Pu Hræsnare, Leyser eige hvor ydar Eirn ꝏ Sabbaths-Deige Naut sitt og Asna fra Stallenum, og leider til Vatns? Eñ skyllde þesse eige leysast ꝏ Sabbaths-Deige, sem þo er Abrahams Dootter, af þvi Bande, er Andskotẽ hefur hana fiatrad i Atiꝏn Ar? Og er hañ sagde þetta, skomudust sijn aller hañs Mootmælendur, og allt Folked gladdest yfer þeim ollum Dijrdar-Verk-

um, er af honum giorduſt.

OG hañ ſagde: Hvorium er Guds Riike liikt, og hvoriu ſkal eg þvi ſamjafna? Liikt er þad Muſtards Korne, hvort Madur took og varpade i Grasgard ſiñ, þad ſpratt upp og vard mikid Trie, og Fuglar Himens biuggu under þeſs Kviſtum. Og eñ ſagde hañ: Hvoriu ſkal eg ſamliikia Guds Riike? Liikt er þad Swrdeige þvi er Kona took, og falde þad medal Þriggia Mælera Miøls, þar til þad ſyrdeſt allt.

# XXIV Capitule.

## Um̃ Reiſuna Chriſti til Jeruſalem og Lækning þeſs Mañs er blindur var Fæddur.

Luc. 13. Iohann. 9

OG (c) hañ gieck i giegnum Borger og Kauptun, og kiende, og giorde ſijna Reyſu til Jeruſalem.

OG d þa JEſus gieck fram̃hia, ſaa hañ þañ eirn Mañ, ſem Blindur var boreñ. Hañs Læreſveinar ſpurdu hañ þa ad og ſøgdu: Meiſtare; Hvor braut? Hañ edur hañs Foreldrar, ad hañ fæddeſt blindur? JEſus ſvarade: Hvorke hañ nie hañs Foreldrar, helldur ad Guds Verk augluſeſt aa honum. Mier byriar ad verka hañs Verk, þeſs er mig ſende, aa medañ Dagureñ er, Nootteñ kiemur nær eingeñ fær verkad. So leinge ſem eg er i Verølldeñe, þa em eg Lioos Verølldar.

alldar. Pa hañ hafde þetta sagt: Spytte hañ a Jordena, og giørde af Hrækanum Saur, og smurde Saurnum a Augu hins blinda, og sagde honum, far þu til Dykesins Syloa, (hvad ed þijdest sendur) og þvo þier, þa gieck hañ og þvode sier, og kom siaande. Pa søgdu Naagrañar hañs, og þeir sem hañ høfdu adur sied, ad hañ var Blindur; Er þad eige sa sem sat og beidde? Sumer søgdu, hañ er þad, eñ adrer søgdu: Lijkur er hañ honum, hañ sialfur sagde: eg em sa. Peir søgdu þa vid hañ; Hvorneñ eru þijn Augu uppløkeñ? Hañ svarade og sagde: sa Madur sem nefnest JEsus, giørde sier Saur, og reid a mijn Augu, og hañ sagde mier, far þu til Dykesins Syloa, og þvo þier, eg gieck burt, og þvode mier, og fieck Synena. Peir søgdu til hañs: Hvar er hañ? Hañ sagde, eg veit eige. Pa leiddu þeir hañ fyrer Phariseos, sem leinge hafde blindur vered. Eñ þa var Sabbaths-Dagur er JEsus giørde þañ Saureñ, og opnade hañs Augu. Pa spurdu Pharisei hañ eñ ad, hvorneñ hañ hefde orded siaande. Eñ hañ sagde þeim: Saur laade hañ a mijn Augu og eg þvode mier, og nu sie eg. Pa søgdu sumer af Phariseis, eige er þesse Madur af Gude þviad hañ helldur eige Sabbatz-Dageñ, eñ adrer søgdu: Hvorneñ maa Syndugur Madur giøra þvilijk Teikn? Og þar vard Sundurþyckia þeirra a mille. Pa søgdu þeir aptur til hins Blinda: Hvad seiger þu af honum, þad hañ opnade

ade þyn Augu? Eñ hañ sagde: Spaamadur er hañ.

Gydingar trwdu eige um̃ hañ, ad hañ hefde Blindur vered, og være nu Skign vordeñ, þan-gad til þeir kolludu a hañs Forelldra, sem Syn-ena hafde feinged, og spurdu þa ad so seigiande: Er hañ yckar Son, hvørn þier seiged Blindañ bor-eñ vera, eda hvørneñ sier hañ nu? Hañs Forelld-rar svørudu þeim og søgdu: Vid vitum ad þesse er ockar Sonur, og þad hañ var Blindur boreñ, eñ med hvørium Hætte hañ sier nu, þad vitum vid ei, eda hvør hañs Augu opnade, þad vitum vid ei, hañ hefur siaalfur Alldur til, spyried hañ ad og lat-ted hañ siaalfañ tala fyrer sig. Þetta søgdu hañs Fedgin, af þvi ad þau ottuduſt Gydinga, þviad Gydingar høfdu þa þegar sambunded med sier, þad ef nockur medkiende hañ fyrer Christum, ad sa skyllde wtrekaſt af þeirra Samkundum. Fyrer þvi søgdu hañs Fedgin, hañ er noogu gamall, spyr-ied hañ ad. Þa kolludu þeir aptur i ødru Siñe a þañ Mañ sem Blindur hafde vered, og søgdu høn-um: Gief Gude Heidureñ, vier vitum ad þesse Madur er Syndugur. Hañ svarade og sagde: Er hañ Syndugur, þad veit eg ecke, eitt veit eg, ad eg var Blindur og nu sie eg. Þeir søgdu þa til ha-ñs: Hvad giørde hañ þier, edur hvørneñ lauk hañ upp þijnum Augum? Hañ svarade þeim, eg sagde ydur nu þad; Hafed þier ecke heyrt þad? Til hvørs vilied þier heyra þad aptur? Eda vilied þier

verda

verda hans Lærefveinar? Pa bølvudu þeir hon⸗
um, og ſøgdu: Pu ert hans Lærefveirn, en vær
erum Moyſis Lærefveinar. Vier vitum ad Gud
talade vid Moyſen, en vier vitum eige hvadan þeſſe
er, ſa Madur ſvarade og ſagde þeim: Pad er und⸗
arlegur Hlutur, ad þier vited eige hvadan han er,
og þo lauk han upp mijnum Augum? En vier
vitum ad Gud heyrer eige Synduga, helldur þad
ef nockur er Guds Dyrkare, og giører epter hans
Vilia, þan heyrer han. Fra Veralldareñar Upp⸗
hafe hefur þad eige heyrt vered, ad nockur hafe upp⸗
loked þeſs Mans Augum ſem Blindur var boren,
være þeſſe eige af Gude, þa mætte han eckert giora.
Pa ſvorudu þeir og ſøgdu til hans, allur ertu i
Synd alen, og þu kiener oſs; Og þa ráku þeir
han wt. Pa JEſus heyrde þad, ad þeir høfdu
han wtreked, og er han fan han, þa ſagde han til
hans, trwer þu a Guds Son? Han ſvarade og
ſagde til hns: Herra, Hvør er hn, ſo eg trwe a hn?
JEſus ſagde til hans: Pu ſaaſt han, og han ſem
talar vid þig, ſa er han. Han ſvarade: Herra eg
trwe, og han tilbad han. JEſus ſagde: Til Do⸗
oms kom eg i þenan Heim, ad þeir ſem ecke ſiáa,
ſkylldu verda Siáande, og ad þeir verde Blind⸗
er ſem ſiá. Og nockrer af Phariſeis heyrdu þetta,
ſem hiá honum voru, og ſøgdu til hans: Hvort
erum vier þa Blinder? JEſus ſagde þeim: Ef
þier værud Blinder, þa hefdud þier aungva Sy⸗
nd; Nu fyrſt þier ſeiged, vier ſiáum, þa blijfur
ydar Synd. N 5 XXV.

# XXV. Capitule.

Epterlijking um̃ Sauda-Hwsed og þañ Gooda Hirder, Item um̃ Musteris Vijgsluna i Jerusalem; Hvar JEsus medkiende sig ad vera Messiam, eñ Gydingar tooku upp Steina ad Gryta hañ.

Iohann. 10.

Sañlega sañlega seige eg ydur, hver hañ geingur eige iñ um̃ Dyrnar i Sauda-Hwsed, helldur stijgur hañ iñ añarstadar, sa er Þioofur, og Mordinge. Eñ sa sem geingur iñ um̃ Dyrnar, hañ er Hirder Saudaña, fyrer honum lijkur Dyra-Vordureñ upp, og Sauderner heyra hañs Rodd, og hañ kallar sijna Saude med Nafne, og leider þaa wt. Og þa hañ hefur sijna Saude wtlæted, geingur hañ frame fyrer þeim, Sauderner fylgia og honum epter, þviad þeir þeckia hañs Rodd, eñ ødrum Añarlegum fylgia þeir ei epter, helldur flya þeir fra honum, þviad þeir þeckia eige okuñugra Rodd. Þeñañ Ordskvid talade JEsus til þeirra, eñ þeir skylldu eige hvad þad var er hñ sagde þeim. Þa sagde JEsus eñ aptur til þeirra; Sañlega sañlega seige eg ydur, eg em Dyr Saudaña. Aller hvorier hellst fyrer mier eru komner, þeir voru Þioofar og Mordingiar, og Sauderner hlijddu þeim eige; Eg em Dyrnar, ef nockur geingur iñ fyrer mig, sa mun frelsast, hañ mun og gaanga wt og iñ, og fiña sitt Foodur. Þioof-

ureñ kiemur ei til añars, eñ hañ stele, drepe og fordiarfe; Eg em komeñ til þess ad þeir skylldu hafa Lijf og fulla Nægd.

Eg em goodur Hirder, goodur Hirder giefur sitt Lijf wt fyrer Saudena, eñ Leigu-Madureñ sa ei er Hirder, og hvørs Sauderner eru ei eigeñleger, hañ sier Ulfeñ koma, og yfergiefur Saudena og flijr, eñ Ulfureñ grijpur þa og sundurdreifer Saudunum, eñ Leigu-Madureñ flijr, af þvi ad hañ er Leigu-Madur, og hyrder ekkert um Saudena. Eg em goodur Hirder, og eg þecke mijna Saude, og eg þeckest af mijnum, so sem ad miñ Fader þecker mig, og eg þecke Fødureñ, og mitt Lijf legg eg wt fyrer Saudena. Eg hefe og eñ adra Saude sem ei eru af þessu Sauda-Hwse, þa byriar mier



og hijngad ad leida, og þeir munu heyra mijna Rødd, og þar man verda eitt Sauda-Hws og eirn.

eirn Hirder. Fyrer þvi elskar mig miñ Fader, ad eg legg wt mitt Lijf, uppa þad eg take þad og aptur. Eingeñ tekur þad af mier, helldur legg eg þad af mier sialfur. Eg hefe Valld til þad af ad leggia, eg hefe og Valld til þad aptur ad taka; Þetta Bodord fieck eg af mijnum Fødur. Þa vard eñ Sundurþyckia millum Gydinga, fyrer Saker þessara Orda. Eñ marger af þeim søgdu: Diøful eñ hefur hañ, og er Affiña, til hvørs heyred þier honum? Adrer søgdu: Þesse Ord eru einskis Ods Mañs, fær Diøfulleñ nockud Blinds Mañs Aug um uppløked?

OG þar giørdest Musteris Vijgsla i Jerusalem, þad var uṁ Vetur. Og JEsus gieck i Musterenu i Forbyrge Salomonis. Þa uṁkryngdu hañ Judar og søgdu til hañs: Hvørsu leinge þa helldur þu vorre Sálu uppe? Ef þu ert Christur, þa seig oss þad Berlega: JEsus svarade þeim: Eg sagda ydur þad, eñ þier trwed eige, þaug Verk er eg giøre i mijns Fødurs Nafne, bera Vitne af mier, eñ þier trwed eige, þvi ad þier erud eige mijner Sauder, so sem eg sagde ydur. Mijner Sauder heyra mijna Rødd, Eg þecke þá, og þeir fylgia mier epter, og eg gief þeim Eilijft Lijf, og alldrei skulu þeir fyrerfarast, Eingeñ skal þá og slijta wr miñe Hende. Fader miñ sem gaf mier þá, er øllum Hlutum meire, og eingeñ kañ ad slijta þá af mijns Fødurs Hende. Eg og Faderen erum Eitt, Þa tooku Gydingar eñ Steina upp, ad grijta hañ. JEsus svarade þeim: Mørg good Verk synde eg

ÿdur af mijnum Fødur, fyrer hvørs þeirra Verka Saker, gryted þier mig? Gydingar svorudu hønum, og søgdu: Fyrer gott Verk grijtum vær þig eige, helldur fyrer Gudlastan, ad þu sem ert Madur, giörer þig sialfañ ad Gude. JEsus svarade þeim: Stendur þad eige skrifad i ydru Løgmaale? Eg sagde þad þier erud Guder. Nu ef þier kalled þaa Gude, til hvørra Guds Ord eru skied, og Ritningeñ maa eige Riwfast, eñ vid þañ sem Fadereñ



Helgade, og i Heimeñ sende, þa seiged þier: Þu Gudlastar, af þvi eg sagde: Eg em Sonur Guds. Ef eg giöre ecke mijns Fødurs Verk, þa trwed mier ecke, Nu fyrst eg giöre þaug, þa trwed Verkunum, þo þier vilied mier ei trwa, so ad þier þecked og trwed, þad Fadereñ sie i mier, og eg i hønum. Þeir sooktu þa eñ til ad grijpa hañ, Eñ hañ gieck wt fraa þeirra Høndum.

# Fimte Partur.

Seiger fra þvi er vidbored hefur a Fioorda Are Predikunar Embættis HErrans Christi, allt til þess hans Pijna byriadest.

## I. Capitule.

Um Reisu Christi fra Jerusalem yfer um Jordan, til þess Stadar hvar Johannes hafde adur Skijrt. Item um þann þraungva Veg er liggur til Lijffins, og hvørnen Pharisei vørudu Christum vid, ad Herodes villde Lijflata hann.

Iohann. 10. Luc. 13.

OG (d) JEsus foor aptur i þann Stad, hinumeigenn Jordanar, þar sem Johannes hafde adur Skijrt, og var þar. Marger komu til hans, og sogdu: Johannes giørde eckert Teikn, enn allt hvad Johannes sagde af þessum, þa er satt. Og marger trwdu þar a hann. (c) Enn þar sagde nockur til hans: HErra, meinar þu eige, ad þeir sieu faaer sem hialpast? Enn hann sagde til þeirra: Kieppest epter inn ad ganga um hid þraungva Hlided, þvi marger (þad seige eg ydur) munu sækia til þar inn ad ganga og fa ei gietad

etad. Fraa þvi er Hwsbondeñ er uppstadeñ, og hefur Dyrnar aptürlucktar: Þa munud þier taka til þar fyrer utañ ad standa, og aa Dyrnar ad knya, so seigiande: HErra, HErra, luktu upp fyrer oss: Hañ mun svara og seigia til ydar: Eige þecke eg ydur hvadañ þier erud, Þa munud þier hefia upp ad seigia: Vær hofum eted hiaa þier og drucked, og aa Strætum vorum kiender þu, eñ hañ mun seigia, eg seige ydur: Þad ei þecke eg ydur, hvadañ þier erud, fared fraa mier aller, þier Illgiorda Meñ, þar mun vera Op og Tañagnystran. Nær þier siaaed Abraham Isaac og Jacob, og alla Spaameñ i Guds Rijke, ad þier erud wtrekner. Og þeir wr Austre og Vestre, Nordre og Sudre, munu koma og til Bords sitia i Guds Rijke. Og siaaed, þar eru þeir sijdaster sem verda munu fyrster, og þeir ed eru fyrster, munu verda sijdaster.

A Þeim sama Deige geingu nockrer af Phariseis iñ og sogdu honum: Vijk þu burt og gack hi edañ, þviad Herodes vill afliifa þig. Hañ sagde til þeirra: Fared þier og seiged þeim Ref, Siaaed, ad eg rek wt Diofla og lækna i Dag og aa Morgun, eñ aa Pridia Deige mun eg taka Enda, þo mun eg gaanga i Dag og a Morgun og Dageñ þar eptir, þviad þad fær eige skied ad nockur Spaamadur farest, utañ i Jerusalem.

JErusalem Jerusalem, þu sem afliifar Spaameñena, og grijter þaa Steinum er til þijn verda

da sender: Hvorsu opt hef eg viliad samañsafna Bornum þijnum? Lijka sem Hæna sijnum Ungum under Vænge sier, og þier hafed eige viliad? Siaed, ydvart Hws skal ydur þvi eyde læted ver da, þvi eg seige ydur: Pad eige munud þier mig siaa, þar til þad kiemur er þier munud seigia: Lofadur sie saa sem kiemur i Nafne DRottens.

# II. Capitule.

Um̃ Giestabod hiaa Einum Phariseara Hofdinaia, hvar Christur Læknade þañ Vatnssiwka Mañeñ aa Sabbaths-Deige, og framsette Eina Epterlijking, um̃ þa stooru Kvølldmaaltijd, og Afsøkun þeirra er bodner voru. Item Predikun Christi um̃ þad hvorier hentuger være ad vera hañs Læresveinar.

Luc. 14.

OG þad skiede, ad hañ kom aa Sabbaths-Deige iñ i Hws nockurs þess sem var Yferbodare Phariseorum Brauds ad neyta, og þeir høfdu Vørd aa honum. Og siaa ad Madur nockur saa Vatns-Soott hafde var þar frame fyrer honum, og JEsus ansade og sagde til Løg-Spekinga, og Phariseaña, so seigiande: Er þad nockud riett ad Lækna aa Sabbaths-Døgum? Eñ þeir þøgdu vid, hañ took þa aa honum og Læknade hañ, og liet burt fara; Svarade og sagde til þeirra: Hvør er aa medal ydar, hvørs Uxe edur Asne sem fellur i Bruñ, ad hañ ei jafnsnart drage

hañ

hañ upp a Sabbaths-Deige? Og þeir gaatu honum aungvo þar til svarad.



ENN Eina Epterlijking sagde hañ til Bods-Mañaña, þa hañ formerkte hvorneñ þeir wrwoldu efst ad sitia. Og hañ sagde til þeirra: Nær þu verdur bodeñ af nockrum til Brwdkaups, þa set þig eige efst, Kañ skie ad Eirn Heidarlegre eñ þu sie bodeñ af honum, og kome sa sem þier bäud og honum og seige til þijn: Gief þessum Rwm, og hlioot-er þu þa med Kiñroda ad hallda hiñ ytsta Sess. Helldur nær þu verdur bodeñ, Þa far og set þig nedst, so ad nær sa kiemur er þier bäud, seige hañ til þijn: Vinur, þoka þier upp betur, So mun þier veitast Heidur fyrer þijnum Sessunautum. Þvi ad, Hvor sig sialfur upphefur, hañ mun nidurlægiast, og hvor sig sialfur nidurlæckar, hañ skal

upphefiast. Hañ sagde til hañs: Er honum haf-
de bodeð. Nær þu helldur Middags Verð edur
Kvolldmaaltijd, þa skalltu eige biooda Vinum þij-
num nie Brædrum, eige Frændum þijnum nie Na-
grøñum, þeim sem Rijker eru, ad eige bioode þeir
þier heim til sijn aptur Einhvorn Tijma, og sie þier
þa Endurgollded. Helldur, nær þu giører Heim-
bod, þa biood Fatækum, Vonudum, Holltum og
Blindum, þa ertu Sæll, þvi ad þeir hafa ei til þier
aptur ad lwka, Eñ þad mun þier Endurgollded
verda i Upprisu Riettlaatra.

ENN er þetta heyrde eirn af þeim er til Bordsins
sat, sagde hañ til hañs, sæll er sa Madur sem et-
ur Braud i Guds Rijke.

Eñ hañ sagde til hañs: Nockur Madur var sa
er giørde mikla Kvolldmaaltijd, og baud mørg-
um til heñar, og sende wt siñ Pioon um Kvolld-
maals Tijmañ, ad hañ segde Bodsmoñunum,
komed, þviad allt er nu reidubwed. Eñ þeir too-
ku þa aller til hvor epter añañ ad afsaka sig. Hiñ
fyrste sagde til hañs: Akur keypte eg, og mun eg
fara wt ad siaa hañ, eg bid þig afsaka mig. Og
añar sagde: fim Por Akneyta Keypte eg, og fer
eg nu wt ad skoda þaug, eg bid þig afsaka mig. Hiñ
þridie sagde: Konu hef eg mier festa, fyrer þvi kañ
eg eige koma. Og Pioonustu-Madureñ kom,
og undervijsade þad sijnum Herra aptur. Þa va-
rd Hwsbondeñ reidur, og sagde til sijns Pioons:
Far snarlega wt a Stræte og Gotur Borgar-

eñar,

eñar, og leid Volada, Vanada, Hallta og Blinda hijnaad iñ, og Piooneñ sagde: Herra,



þad er giort hvad þu skipader, og þo er eñ nu Rwm. Og Herrañ sagde til Pioonsins, far þu wt a Vioodbrauter, og uñ Twn-Garda, og naudga þeim hier iñ ad koma so mitt Hws verde fullt, eñ eg seige ydur þad, ad eingeñ þeirra Maña sem bodner voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

EN margt Foolk gieck med honum, og hañ snere sier vid og sagde til þeirra: Ef nockur kiemur til mijn, og hatar eige Fødur siñ og Moodur, Konu og Børn, Brædur og Systur, og þar til sitt eiged Lijf, hañ fær eige miñ Læresveirn vered, og hvør hañ eige ber siñ Kroß og fylger mier epter, sa gietur eige miñ Læresveirn vered.

ÞVI hvør er sa a medal ydar, sem Turn vill uppbyggia, og situr eige adur og samañreiknar

Kostnaden? Hvort hañ hefur ad fullkomna þad med. So ad ef hañ leggur Grundvollen, og gietur ei fullkomnad, þa skulu ecke aller þeir sem þad siaa, taka ad dæra hañ, og seigia: Þesse Madur took ad byggia, og gietur ei vidloked. Eda hvør Kongur geingur wt ad hallda Orustu giegn ødrum Konunge, situr hañ eige aadur og hyxar uñ med sier hvort hañ gietur med tyu Þusunder mætt honum, er med tuttugu Þusunder kiemur moote honum? Eñ ef ei, þa sender hañ Bodskap wt, þa þegar hiñ er þo fiarlægur, og bidur Fridar, so og lijka sierhvør ydar sem eige affseiger ollu þvi hañ aa, fær eige miñ Læresveirn vered.

Salltid er gott, eñ ef Salltid dofnar, med hvøriu kridded þier þa? Þviad þad er þa hvørke aa Twn-Jord nie Tad-Hauga þarflegt, helldur verdur þvi wt-varpad. Hvør eyru hefur ad heyra, hañ heyre.

## III. Capitule.

### Epterlijking um þañ tijnda Saud og Pening. Item um þañ Fortapada Son.

Luc. 15.

EN aller Tollheimtumeñ og Bersynduger naalægdust hñ, ad heyra honum. Og Phariseí og Skriftlærder møgludu og søgdu: Þesse medtekur Synduga, og etur med þeim. Eñ hañ sagde þessa Epterlijking til þeirra, og sagde.

HVvor er sa medal ydar, sem hefur Hundrad Saude, og ef hañ tijner einum af þeim, ad hañ lære ei epter þa Nyu og Nyutygu i Eydemørku, og fer epter þeim er tijndest, þangad til hañ siñur hañ? Og nær hañ hefur funded, leggur hañ hañ upp med Fagnade sier a Herdar. Og er hañ kiemur heim kallar hañ samañ sijna Vine og Nagraña, og seiger til þeirra: Glediest med mier, þui ad eg hefe miñ Saud aptur funded, sem tapadur var. Eg seige ydur: Ad lijka so mun Fognudur vera a Himnum, yfer einum Syndugum þeim er Ydran giorer, meir eñ yfer þeim Nyu og



Nyutygu Riettlætum, er eige þurfa Yferbootar vid. Eda hvør er sw Kona sem hefur Tyu Peninga, og ef hun tijner Einum þeirra, kveiker hun eige Lioos, og soopar Hwsed og leitar vandlega,

þar til hun fiñur hañ? Og nær hun hefur funded hañ, Samañkallar hun Vinkonur sijnar og Grañkonur og seiger: Samgledieſt med mier, þviad eg hefe miñ Pening aptur funded, hvorium eg hafde tijndt. Lijka so seige eg ydur: Ad Fognudur mun vera fyrer Einglum Guds, yfer Einum Syndugum sem Ydran giorer.

OG hañ sagde: Nockur Madur hafde Tvo Syne. Og hiñ Yngre af þeim sagde til Fodurs sins: Gief mier Fader þa Deilld af Gotzenu sem mier ber, og hañ ſkipte med þeim Gotzenu. Og ſkomu þar epter, þa dro hiñ yngre Sonureñ allt til samans og reiſte laungt burt wr Landenu, og fortærde þar sijnu Gotze i Sydſlulegum Lifnade. Og þa hañ hafde nu ollu sooad þvi hañ ætte, giordeſt mikel Dyrtijd i ollu þvi sama Lande, so hañ took ad ſkorta. Hañ foor og hiellt til hiaa einum Borgara þar i Landenu, hañ sende hañ wt a siñ Akur, ad hañ giætte Svijna. Og hañ gyrndteſt ad sedia siñ Maga af Drafe þvi Svijneñ ætu, og eingen gaf honum þar. Þa þeynkte hañ med sier, og sagde: Hvad marga Daglaunameñ hefur miñ Fader? Þeir ed hafa Nægd a Braude, eñ eg ferſt i Hwngre. Þvi ſkal eg uppſtanda og fara til Fodur mijns, og seigia til hañs: Fader, eg synd gade i Himeniñ og fyrer þier. Þvi er eg ei frammar meir verdugur ad kallaſt þiñ Sonur, gior mig þvi sem eirn af þijnum Daglauna-Moñum. Hañ Reis upp, og kom til Fodur sijns. Og er hañ þar

var eñ langt i burt þädañ, leit hañ Fader hans, og sa aumur a honum, hlioop ad, og fiell uñ Hals honum, og kyßte hañ. Eñ Sonureñ sagde til hañs: Fader, Eg syndgade i Himeniñ og fyrer þier, og þvi em eg nu ei verdugur ad kallast þiñ Sonur. Eñ Fadereñ sagde til Þioona siña: Bered hijngad hiñ besta Klædnad, og færed hañ i, og giefed Hrijng a hañs Hond, og Skoo a hañs Fætur. Sæked aleñ Kalf og slatred, og Neytum og verum kater. Þviad þesse miñ Sonur var daudur, og er Endurlifnadur, hañ tijndest, og er nu fundeñ. Og þeir tooku ad glediast.

EN hiñ elldre Sonur hañs var a Akre, og er hañ kom og nalægdest Hwsed, heyrde hañ Kvedskap, og Dans-Læte, og kallade eirn af Þioonustumoñunum til sijn, og spurde hvad þetta være. Sa sagde: Brooder þiñ er komeñ, og slatrade Fader þiñ oldum Kalfe, þad hañ fieck hañ heilañ aptur. Eñ hañ reiddest vid, og villde eige iñgaanga; Þa gieck Fader hañs wt, og baud honum. Eñ hañ svarade og sagde til Fodur sijns: Sia, svo morg Ar þioona eg þier? Og hefe alldrei eñ yfertroded þijn Bodord, og þu gafst mier eñ alldrei Kid, so ad eg mætte med mijnum Vinum gladur vera. Eñ nu þesse þiñ Sonur er komeñ, hvør ed hafde svælt sijnu Gotze medur Hoorum, þa slatrader þu honum aleñ Kalf. Eñ hañ sagde honum: Son miñ, þu ert jafnañ hia mier, og allt hvad mitt er, þa er þitt. Þvi

ætter þu nu ad vera kaatur, og fagna, þvi þesse þin Brooder var daudur, og endurlifnade, hañ tijndest og er aptur fundeñ.

# IV. Capitule.

## Epterlijking um þañ Raanglaata Raadsmañ, og þañ Rijka Mañ og Lazarum.

Luc. 16.

ENN hañ sagde til siña Læresveina: Audugur Madur nockur var sa, sem sier hafde Raadsmañ, og sa vard Rægdur vid hañ, ad hañ hefde fargad hañs Gotze, og hañ



kallade hañ til sijn, og sagde til hañs: Þvi heyre eg þetta um þig? Gior Reikningskap þiñar Raadsmeñsku, þviad þu maatt eige hiedañ af Raadsmeñsku hafa. Eñ Raadsmadureñ sagde med sialfum

um sier: Hvad skal eg tilgiora, med þvi min Herra svipter mig Embættenu? Eg giet ei grafed, eñ eg skamast mijn ad bidia. Eg veit vel hvad eg skal giora, nær eg verd Embættenu affettur, so þad þeir medtake mig i sijn Hws. Og hañ kallade til sijn alla Skullda-Meñ sijns Herra, og sagde til hins Fyrsta: Hvorsu miked ertu skylldugur mijnum Herra? Hañ sagde: Hundrad Tuñur Vidsmiørs. Hañ sagde þa til hañs: Tak þitt Bref, set þig og skrifa strax Fimtyger. Epter þad sagde hañ til hins Añars: Eñ ertu miked skylldugur? Sa sagde: Hundrad Mælera Hveitis. Pa sagde hañ til hañs: Tak þitt Bref og skrifa Atta tyger. Og Herrañ losade þañ Ranglaata Raadsmañ, þad hañ hafde so Forsialega giort, Þviad Born þessarar Veralldar eru kiænare Bornum Liossens i siñe Kynslood. Og eg seige ydur: Giored ydur Vine af hinum Ranglaata Mañon, So nær þier vidþurfed, ad þeir medtake ydur i Eilijfar Tialldbwder. Hvor Trwr er i Minstu, sa er Trwr i Miklu, og hvor Rangsnweñ er i þvi Minsta, hañ er Rangsnweñ i Miklu. Þviad ef þier erud eige Trwer i hinum Rangferduga Mañon, hvor vill trwa ydur þa til þess sem Sañarlegt er? Og ef þier erud ei Trwer i Añarlegu, Hvor mun giefa ydur þa hvad ydart er? Eingeñ Heimilis Pioon gietur Tveimur Herrum señ þioonad, utañ hañ añadhvort hate hañ Eina, og elske hiñ Añañ, eda þijdest hañ Eina og forsmaae

hiñ Añañ: Pier gieted eige Gude þioonad og Mamon.
EN N þeir Pharisei heyrdu allt þetta, sem au-giarner voru, og dæarudu hañ, þa sagde hañ til þeirra: Pier erud þeir sem ydur Riettlæted siaulfer fyrer Moñunum, Eñ Gud þecker Hiortu ydar, Þviad hvad hætt er hiaa Moñunum, þad er Svij-virdelegt fyrer Gude. Logmaaled og Propheter-ner spaadu allt til Johañem, eñ upp fraa þeim Tij-ma predikast Guds Rijke fyrer Evangelium, Og sierhvør Madur þreinger sier þar iñ med Magt. Eñ liettfelldra er ad Himeñ og Jord forgaange, eñ Eirn Titell af Logmaalenu falle. Hvør sijna Eig-eñ Konu forlætur, og giptest Añare, Saa dryger Hoor, og hvør ed giptest þeirre er fraa Mañe er skil-eñ, hañ dryger og so Hoor.
NOckur Mañ Rijkur var þar, Saa ed klæddest med Purpura, og Kostulegum Lijn-Klædum, og lifde hvorn Dag kostulega og i Glede. Eñ þar var Eirn Faatækur Madur, sem Lazarus vat ad Nafne, hvør ed wte laa fyrer hañs Dyrum, fullur Kauna. Og hañ gyrntest ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Bordum hins Rijka, Þar komu og Hundar og sleiktu hañs Saar. Eñ so vard, ad hiñ Volade doo, og var boreñ af Eing-lum i Skaut Abrahams, Hiñ Rijke doo lijka, og vard Jardadur. Og sem hañ var nu i Helvijte og Kvølunum, þa hoof hañ upp sijn Augu og leit Abraham laangt burt, og Lazarum i hañs Skaute.
Þa

Pa hroopade hañ og sagde: Fader Abraham Myskuna mier, og send Lazarum, ad hañ drepe hi=



nu fremsta sins Fijngurs i Vatn, og kiæle Tungu mijna, þviad eg kvelst þwnglega i þessum Loga, eñ Abraham sagde: Hugleid þu Sonur, ad þu med=tookst þiñ Gooda i Lijfs=Tijd þiñe, og Lazarus þar i moot medtook hid Vonda. Eñ nu verdur hañ Huggadur, eñ þu Pijndur. Og fram yfer allt þetta, er i mille vor og ydar miked Dijwp stadfest, so ad þeir sem vilia hiedañ fara nidur til ydar, gieta þad ei, og þeir eige þadañ fraa ydur upp hijngad til vor fared. Pa sagde hañ: Pa bid eg þig Fader, ad þu sender hañ i mijns Fødurs Hws. Þviad eg hefe Fim Brædur, ad hañ kuñe ad vitna fyrer þeim, so ad eige kome þeir og svo i þeñañ Kvalastad. Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moysen og

Spaamenena, heyre þeir þeim. Eñ hañ sagde: Nei, Abraham Fader, helldur ef Eirn Framlid-eña fære til þeirra, þa munde þeir betra sig, hañ sagde honum: Ef þeir heyra ei Moysi og Spamoñunum, þa munu þeir og eige helldur trwa, þo nockur af Dauda uppriise.

# V. Capitule.

Predikun Christi, ad varast Hneyxle, um̃ Brooðurlega Saatt, um̃ Trwarenar Art og Náttúru og Skyldu þeirra Trwudu. Item um̃ Lækning Tygu Spitelskra Maña a Veigenum, og Predikun Christi um̃ Tilkomu Guds Riikis.

Luc. 17.

Og hañ sagde til siña Lærisveina: Omogulegt er ad þar skullde eige koma Hneixlaner, eñ Vei þeim fyrer hvorn þær koma, Þarfara være honum ad Kvarnar-Steirn heingdest um̃ Hals honum, og være honum i Sioo kastad, eñ þad hañ hneixle Eirn af þessum Smælingium. Vakted ydur, ef Brooder þiñ briitur vid þig, þa ætel hañ, og ef hañ ydrast þa fyrergief honum þad. Og þo hañ brioote Sio Siñum at Deige vid þig, og kiæme Sio Siñum aptur at Deige til þiin, og segde: Þad ydrar mig, þa skallt tu fyrergiefa honum þad. Og Postularner sögdu til DRottens: Auk þu oss Trwna, Eñ DRotten sagde: Ef þier hefdud Trw sem añad Mustarðs Korn,

Korn, og segdud þessu Morberia Trie: Uppræt þig, og Rootset þig i Sioonum, þa skyllde þad ydur hlijda.

HVor er ꝏ medal ydar, sem hefur eirn Pioon, er plæger, edur Fienad hyrder, nær ed hañ kiemur heim af Akre, ad hañ seige honum þa, far strax og set þig til Bords? Er þad eige so? Ad hañ seige til hañs? Bw til þad eg skal neyta i Kvölld, og stytt þig upp og þioona mier, þar til ad eg hefe eted og drucked, og epter ꝏ þa skalltu eta og drecka. Packar hañ nockud þeim Pioon, þo hañ giöre hvad honum var boded. Eg meina Nei. So og þier lijka, nær þier hafed allt þad giort hvad ydur var boded, þa seiged, Onijter Pionar erum vier, þvi hvad vær ꝏttum med Skylldu ad giöra, þad giordum vier.

PAd skiede og þa hañ foor til Jerusalem, ad hañ ferdadest midt i giegnum Samariam, og Galileam. Og er hañ kom i nockurt Kauptun mættu honum Tygu Lijkþraær Meñ, hvorier ed stoodu langt fra, hoofu upp sijna Raust og sögdu: JEsu kiære Meistare Myskuna þu oss. Og er hñ sa þær, sagde hañ til þeirra: Fared þier og syned ydur Prestunum, og þad skiede þa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu hreiner. Eñ eirn af þeim, nær hañ sa þad hañ var heilbrygdur vordiñ, snere hañ aptur, og lofade Gud med hæꝛre Raust, fiell fram ꝏ sijna Asioonu fyrer Fætur honum og þackade honum, og þesse var Samverskur. Eñ

JEsus svarade og sagde, erud þier eige Tiju Hreinsader? Eñ hvar eru þeir Nÿju? Fundust onga-



ver adrer þeir aptur sneri, og giæfe Gude Dyrdena, nema þesse Utlendingur? Og hañ sagde til hañs: Statt upp og far hiedañ, þijn Trw giørde þig hoolpeñ.

ENN er hañ var adspurdur af Phariseis, hvenær ad Guds Rijke kiæme, svarade hañ þeim og sagde: Guds Rijke kiemur ei med ytre Headan sem Meñ kuña ad taka Vakt uppaa. Par mun og eige seigiast, siaa, hier eda þar er þad, þvi siaaed, ad Guds Rijke er hid Jñra i ydur.

Þa sagde hañ til Læresveinaña, þær Stunder koma, þad þier munud gyrnast ad siaa eirn Dag Mañsins Sonar, og munud hañ eige siaa. Og þeir munu seigia til ydar, siaa hier, siaa þar, gangid ei þangad, og eige helldur fylged. Þviad so sem

sem Elding af Himne ofañ leyptrar, og lyser yfer allt þad sem er under Himnenum, lijka so mun Mañsins Sonur vera a sijnum Deige. Eñ hønum byriar fyrst margt ad þola, og wtskwfadur verda af þessare Kynslood, Og so sem þad skiede i Tijd Noa, lijka so mun skie a Døgum Mañsins Sonar. Þeir atu og drucku, þeir kvonguduſt og lietu sig gipta, allt til þess Dags ad Noe gieck i Orkena, og Flooded kom og tortijnde þeim øllum. Eirneñ lijka so sem þad skiede i Tijd Loths, þeir atu og drucku, þeir keyptu og seldu, þeir plontudu, og uppbygdu. Eñ a þeim Døgum er Loth foor wt af Sodoma, rignde ofañ Elde og Breñestei-ne af Himne, og fyrerfoor þeim øllum. Epter slijkum Hætte mun þad tilganga a þeim Døg-um, er Mañsins Sonur mun openberaſt. Hv-ør hañ verdur a þeim sama Deige a Ræfre stadd-ur, og sie hañs Bwsgagn i Hwsenu, þa stijge hañ ei ofañ þad ad sækia. So og eirneñ, sa hañ er a Akre, þa snwe hañ ei aptur, epter þvi sem a Bake hønum er. Miñest þier a Konu Loths. Hvør hellst sem sæker epter sijna Ønd ad forva-ra, sa misser hana, og hvør hellst hañ misser ha-na sa hiaalpar heñe til Lijffins. Eg seige ydur, a þeirre Nott munu tveir liggia a eirnre Sæng, mun eirn medtekeñ, og añar forlateñ, og tvær munu ma la til samans, mun ein medtekeñ og oñur forlateñ. Þeir svorudu og sogdu til hañs: Hvar þa Herra? Eñ hñ sagde til þeirra; Hvar hellst ad Hræed er, þangad safnaſt og Ernerner. VI.

# VI. Capitule.

## Epterlijking um̃ þañ Rangláta Doomara, og um̃ Framhalld Bænareñar. Item um̃ Phariseañ og Tollheimtumañeñ sem Baaduſt fyrer.

Luc. 18.

ENN hañ ſagde Eina Epterlijking til þeirra þar uppá, ad Meñ ſkylldu jafnañ Bidia, og ei aflaata, Og ſagde. Þar var Doomare i nockre Borg, ſem eige Ottadeſt Gud, og eige ſkeitte um̃ neirn Mañ. Eñ Eckia nockur var þar i ſomu Borg, og hun kom til hañs og ſagde: Hiaalpa mier fra mijnum Mootſtodu Mañe. Og leinge villde hañ ei. Eñ epterat þeinkte hañ med ſiaalfum ſier: Þo eg Otteſt ei Gud nie ſkeite um̃ ongvañ Mañ, þo fyrer þad ad þeſſe Eckia giorer mier O-Naad ſo mikla, þa vil eg hiaalpa heñe, So ad hun kome ei ad Siiduſtu, og naude a mier. Þa ſagde DRotteñ: Heyred hier hvad ſa Rangláte Doomare ſeiger. Skyllde Gud ei giora Frelſan ſiña Utvalldra þeirra ſem Noott og Dag til hañs kalla? Eñ þo hañ hafe Poleñmæde þar yfer? Eñ eg ſeige ydur, þad hañ mun braadlega giora þeirra Frelſan Eñ þo nær Mañſins Sonur mun koma, meinar þu ad hañ mune Trw ſiña a Jordu?

ENN hañ ſagde til nockra þeirra ſem treyſtu uppa ſiaalfa ſig, ad þeir være Riettlaater, og fore

forsmaadu adra, Soddan Epterlijking.

Tveir Men geingu upp i Mustered ad bidiast fyrer, Eirn var Phariseus en Anar Tollheimtu-



Madur, Pharisearen stood og badst þanen fyrer med sialfum sier: Gud, Eg þacka þier, ad eg em eige so sem adrer Men, Ræningiar, O-Riettferd-uger, Hoordooms Men, edur so sem þesse Tollheimtu-Madur, Eg fasta Tvisvar i Viku, og gief Tijunder af ollu þvi eg aa. Og Tollheimtu-Madur-en stood langt i fraa, og villde eige upphefia sijn Augu til Himens, helldur barde han aa sitt Brioost og sagde: Gud Vertu Mier Syndugum Lykna samur. Og eg seige ydur: Ad þesse foor Riettlaatur framar hinum odrum nidur i sitt Hws. Þvi hvor sig sialfan upphefur, han mun niður-þryckiast, og hvor sialfum sier niðurþrycker han mun upphafen verda.

# VII. Capitule.

Disputatia Pharisearanã vid Christum um̃ Hioo-nabands Skilnaden̄, Item um̃ Ung-Børnen̄ færd til Christum.

Matth. 19 Marc. 10. Luc. 18.

OG (a) Pad skiede sem JEsus hafde lycktad þessar Rædur, ad han̄ for af Galilea. [b] Og han̄ biooſt burt og kom til Landamerkia Juda Lands, hinumeigen̄ Jordanar. [a] Og margt Foolk fylgde honum epter, og þar læknade han̄ þaa. [b] Par kom og en̄ aptur Flockum saman̄ Foolked til hans, og sem han̄ plagade, þa took han̄ en̄ aptur ad kien̄a þeim. [e] Pa geingu Pharisei til hans, spurdu han̄ ad, freystudu hans og sögdu til hans: Er þad nockud riett, ad Maduren̄ skilie sig vid sijna Eigen̄-Konu fyrer hvoria sem eina Sok? En̄ han̄ svarade og sagde, [b] Hvad hefur Moyses bodid ydur? Peir sögdu: Moyses leyfde Skilnadar Bref ad skrifa og vid ad skilia. [a] En̄ han̄ svarade og sagde til þeirra: hafed þier ei lesed, ad sa er i Upphafe skapade Man̄en̄, han̄ giørde þad, ad vera skyllde eirn Madur og Kona? Og sagde: Fyrer þvi mun Maduren̄ forlaata Fodur og Moodur, og vera hia Eigen̄-Konu sin̄e, og þaug tvo munu eitt Hold vera. So eru þaug nu eige tvo, helldur eitt Hold. Par fyrer, hvad Gud hefur samteingt, þad skal Maduren̄ eige i sundur skilia. Pa

sögdu

sogdu þeir, fyrer þvi baud Moyses þa ad giefast skyllde Skilnadar Skraa, og skilia sig vid hana? [b] Og JEsus svarade og sagde til þeirra: [c] Moyses hefur fyrer Hardwd ydars Hiarta skrifad ydur þetta Bodord, (og) leift ydur ad forlaata Hws-Freyur ydar, eñ af Upphafe Skiepnuñar var þad ecke so. [a] Eñ eg seige ydur þad, hvor sijna Eigeñ-Konu forlætur (nema þad sie fyrer Hoorunar Søk) og giptest añare, sa dryger Hoor. Og hvor frasfiliñe giptest, sa dryger og so Hoor. [b] Og Heima spurdu hañs Læresveinar aptur ad um̃ hid sama, og hañ sagde þeim: Hvor sem skilst vid sijna Eigeñ-Konu og giptest añare, sa dryger Hoor med heñe. Og ef Kouañ forlætur siñ eigeñ Mañ, og giptest ødrum, hun Hoorast. [a] Þa sogdu Læresveinarner til hañs, ef svo er haattad Mañsins Maalefnum vid Eigeñ-Konuna, þa er eige gott ad giptast. Eñ hañ sagde til þeirra: Þetta Ord faa ei aller hondlad, helldur þeir hvorium þad er giefed. Þviad þar eru nockrer Gielldingar, sem so verda af Moodur-Kvide fædder, og þeir Gielldingar eru nockrer, hvorier af Møñum eru gielldter, og þar eru, og lijka þeir Gielldingar, sem sig siaalfa hafa giellt fyrer Himnarijkis Saker, sa griped gietur hañ grijpe þad.

OG [1] þa færdu þeir Ung-Born til hañs, ad hañ aahrærde þaug, legde Hendur yfer þaug og bædest fyrer. [c] Og er þad saau hañs Læresvein-

sveinar, [l] aviitudu þeir þaa sem þaug baaru. [b] Og er JEsus sa þad, reiddest hañ. Og [a] hañ kallade þaug til sijn, og sagde til þeirra: (Læ-



resveinaña) leifed (1) Bornunum til mijn ad koma, og bañed þeim þad eige, þviad þvilijkra er Guds Rijke. [h] Sañlega seige eg ydur, hvør hañ medtekur eige Guds Rijke sem añad Ung-Barn, sa mun eige iñganga i þad. [b] Og hañ took þaug i Faang, og lagde Hendur yfer þaug, og blessade þaug. [a] Og er hañ hafde Hendur yfer þaug lagt, gieck hañ þadañ.

* * *

VIII.

# VIII. Capitule.

## Uñ Spurning þeſs Unga Rijka Mañs, hvorneñ hañ kyñe ad odlaſt eilijft Lijf. Item um Verdlaun Poſtulaña, og þeirra er Chriſto eyterfylgia.

Matth. 19. Marc. 10. Luc. 18.

OG (a) ſtaa (b) þa hañ var wtgeingeñ uppaa Veigeñ, [I] ad eirn af Hofdingiunum hliop þar fram, gieck ad honum, og fiell aa Knie fyrer honum, ſpurde hañ ad og ſagde: Goode Meiſtare, Hvad ſkal eg þeſs gott giora, ad eg erfe eilijft Lijf? Eñ JEſus ſagde til hañs: Hvad kallar þu mig goodañ? Eingeñ er goodur nema Gud eirn, [a] eñ ef þu villt til Lijfsins iñgaanga, ſo halltu Bodordeñ. Hañ ſagde þa til hañs: Hvor hellſt? JEſus ſaade [h] Bodordeñ veitſtu: [I] Þu ſkallt eige Hoordoom drygia, eige Mañ vega, eige Stela, eige Liwgvitne mæla, þu ſkallt aungvañ Svijkia, Heidra ſkalltu þiñ Fodur, og þijna Moodur, [a] og elſka ſkalltu Naunga þiñ ſem ſiaalfañ þig. [I] Þa ſvarade og ſagde Unge Madureñ til hañs: Meiſtare, allt þetta hef eg vardveitt i fraa Barnæſku miñe, [a] Hvad breſtur mig þa? Eñ þa JEſus heyrde þad, horfde (hañ) aa hañ, elſkade hañ og ſagde til hañs: Eitt breſtur þig eñ, [a] ef þu villt algiørdur vera, far burt [I] og ſel allt hvad þu hefur, og gief Fatækum og muntu þa hafa Siood a Himne, og kom

og ylg mier epter, [b] og tak Krossen uppa þig.
[f] Og er hin Unge Madur heyrde þad Ord, vard
han miøg hryggur, [e] og gieck þadan syrgiande,
þviad han hafde miklar Eigner. [c] En er JEs-
us sa han hryggvan orden, [b] leit han kringum
sig, og sagde til sina Læresveina: [h] Hversu
torvelldt er þeim inn ad gaunga i Guds Rijke sem
Rijkdoom hafa? [a] Sannlega seige eg ydur: Ad
eirn Rijkur Madur kiemur torvelldlega i Himna-
Rijke. [b] En Læresveinarner hrædduſt hans
Ord, en JEsus ansade en aptur, og sagde til þeir-
ra, kiæru Born: Hversu Torvelldt er þeim sem
treysta a Rijkdoomen, inn ad gaunga i Guds Rij-
ke? [a] Og en seige eg ydur: [l] Þad, audvelld
ara er Ulfalldanum ad gaunga i giegnum Naalar
Auga, en Rijkum Manne ad komaſt inn i Guds Rij-
ke. [a] Og er hans Læresveinar heyrdu þad,
[e] Ottuduſt þeir en meir. [l] Þa sogdu þeir
sijn a mille sem til heyrdu: Hvør sær þa hialp-
aſt? [e] En JEsus leit vid þeim og sagde til þeir-
ra: Hia Monnum er þad Omøgulegt, [b] en ei-
ge hia Gude, þviad allt [c] hvad Omøgulegt er
fyrer Monnum, þad er Møgulegt hia Gude.
ÞA [l] svarade Petur [e] og sagde til hans:
Sia vier forlietum allt, og fylgdum þier epter,
[a] Hvad skulum vier þa hafa i Staden? [l] En
JEsus svarade og sagde til þeirra: [a] Sannlega
seige eg ydur: Ad þier hverier mier hafed epter-
fylgt, þier skulud i Endurfædingunne, þa er Man-
sins

sins Sonur situr a Stoole sinar Tignar, sitia eirnen a Toolf Stoolum, dæmande Toolf Kyn-kvijsler Israels, og hvor han forlætur Hws eda Brædur, Systur, Fodur eda Moodur, eda Eigenkonu, eda Børn, eda Akra fyrer mijns Nafns Saker, sa mun Hundradfallt i Staden taka, og erfa eilijft Lijf. [h] Sanlega seige eg ydur: Ad eingen er sa, hvor ad fyrerlætur Hws eda Bradur, eda Systur eda Fodur, eda Moodur eda Eigenkonu, eda Børn, eda Akra fyrer mijnar Saker, Evangelii [c] og Guds Rijkis, ad han medtake þad ei margfalldt aptur [h] a þessum Tijma, [b] Hws, Brædur og Systur, Mood-ur og Børn, og Akra med Offooknum, [h] og i ødrum Heime eilijft Lijf. [e] En marger þeir sem eru Fyrster, verda Sijdaster, og þeir sem Sijd aster eru, verda hiner Fyrstu.

# IX. Capitule.

Epterlijking um Verkamenena sem Leigder voru i Vijngarden, og hvørnen Maria og Martha kungiørdu IEsu, ad Brooder þeirra Lazarus være Siwkur.

Matth. 20. Iohann.. 11.

Himnarijke (a) er lijkt þeim Hws-Fodur, sem wtgieck um Morgunen, Ver-kamen ad leigia i Vijngard sin. En ad giørdum Samninge vid Verkamenena um Eirn Pening til Dag-Launa, sende han þa i sin Vijn-

gard. Og nær Pridiu Stund gieck han wt, og



leit adra Ydiulausa standa a Torgenu, og sagde til þeirra: Fared þier og so i Vijngardenn, og hvad Riett er mun eg giefa ydur. Þeir geingu og þangad. Og enn gieck hann wt aptur, umm Siottu og Nyundu Stund, og giorde so lijka. Enn umm Ellefu Stund gieck hann wt, og fann enn adra standa Ydiulausa, og sagde til þeirra: Hvar fyrer standed þier hier allann Dag ydiulauser? Þeir sögdu til hans: Þviad eingenn hefur leigt oss, hann sagde til þeirra; Fared þier og i Vijngardinn, og hvad riett er skulud þier faa. Enn þa Kvolld var komed, sagde Herrann Vijngardsins til sijns Raadsmanns, kalladu Verkamennena, og giallð þeim Verdkaupeð. Og tak til a enum seinasta, og allt til hins fyrsta. Þa komu þeir sem umm elleftu Stund le-

igdet

igder voru, og hvor fieck siñ Pening. Eñ er hin-
er fyrstu komu, meintu þeir þad, þeir mundu fa
meira, og hvor þeirra fieck siñ Pening, og þa er
þeir hofdu hañ medtekid, mogludu þeir a moote
Hws-Fodurnum og sogdu: Þesser seinustu ha-
fa eina Stund ervidad, og þu giorder þa oss jaf-
na, vier sem bored hofum Byrde og Hita Dag-
sins. Eñ hañ svarade og sagde til eins þeirra:
Vinur eige giore eg þier O-riett. Ertu eige a-
sattur orden vid mig um eirn Pening? Tak hv-
ad þitt er, og far burt. Eñ þessum seinasta vil eg
giefa so sem þier, eda hef eg ecke Magt til ad giora
af mijnu hvad eg vil? Ertu þar fyrer rangeygd-
ur, þo ad eg sie goodgiarn? So munu sijdaster
verda hiner fyrstu, og fyrster hiner sijdustu. Þvi
ad marger eru kallader, eñ faer wtvallder.

ÞOÐ [d] þar la eirn siwkur Madur, Lazarus
ad Nafne, af Bethania, i Hijbijlum Mariu,
og heñar Systur Marthæ. Eñ Maria var su
sem Herrañ hafde smurt med Salve og þurkad ha-
ns Fætur med sijnum Hærlockum hvorrar Bro-
der var sa Lazarus sem Siwkur la. Systur
hañs sendu þa til JEsu, svo seigiande: Herra,
sia nu sa þu elskar, hañ liggur Siwkur. Þa
JEsus heyrde þad, sagde hañ: Þesse Soott er
eige til Dauda, helldur til Guds Dyrdar, so ad
Guds Sonur verde þar af prijsadur. Eñ JE-
sus elskade Martham og Systur heñar, og so Laz-
arum. Þa hañ hafde þad heyrt, ad hañ var Siw-

kur, bleif hañ samt tvo Daga i þeim Stad sem hañ var. Epter þad talar hañ til siña Læresveina, gaungum vier aptur i Judeam. Pa sögdu hañs Læresveinar til hañs: Meistare, næst þa villdu Judar grijta þig, og þo villtu fara þangad aptur? JEsus svarade: Eru eige tolf Stunder i Deige? Hvor hañ geingur um Dageñ sa steiter sig eige, þviad hañ sier þessa Heims Lioos. Eñ hvor hañ geingur um Nætur sa steiter sig, þvi þar er eckert Lioos i honum. Þetta mællte hañ, og epter þad sagde hañ til þeirra, Lazarus Vinur vor hañ sefur, eñ eg fer ad vekia hañ. Pa sögdu hañs Læresveinar: Herra, ef hañ sefur, þa batnar honum. Eñ JEsus talade um hañs Dauda, eñ þeir otludu ad hañ munde segia, um Lijkamlegañ Svefn. Pa sagde JEsus þeim openberlega: Lazarus er lateñ. Og eg fagna fyrer ydar Saker, þad eg var ei þar, so ad þier trwed, eñ latum oss nu ferdast til hañs. Pa sagde Thomas sem kalladest Tvijbure, til Læresveinaña, gongum vær med, so ad vier deyum med honum.

* * * * * *

# X. Capitule.

Um Reysu Christi til Jerusalem, og hvorneñ hañ sagde Postulunum fyrer a Veigenum um sijna Pijnu og Dauda, Eirneñ Ośk Moodur þeirra Zebedæi Sona, og Lækning Blinds Mañs, nær Borgeñe Hiericho.

Match.

Matth. 20. Marc. 10. Luc. 18.

ENN (b) þeir voru aa Veigenum, og fooru upp til Jerusalem, og JEsus gieck fyrer þeim, og þaa sette hliooda vid, fylgiande hꝍnum þo epter, og Ottuduſt. (a) Og hañ ferdadeſt upp til Jerusalem, (l) og took aptur þaa Toolf Lærefveina, ſier i Lage til ſijn aa Veigenum, og ſagde þeim, Hvad yfer hañ munde koma. Siaa ed, Vier forum nu upp til Jerusalem, (e) Og Mañſins Son mun Ofurſeliaſt Preſta-Hoſdingium og Skriftlærdum, og þeir munu fordæma hañ til Dauda, (c) og þad mun allt fullkomnad verda, hvad ſkrifad er fyrer Spaameñena af Mañſins Syne. Þvi hañ mun framſelldur verda Heidingium, (a) til ad Spottaſt, Hwdſtrijkiaſt, og Kroſſfeſtaſt, (c) og hañ mun Smaadur verda,(b) Þeir munu og Spijta aa hañ, og Lijſlaata (c) og aa þridia Deige mun hañ upp aptur Rijſa. Eñ þeir underſtoodu eckert þar af, og ſu Ræda var huleñ fyrer þeim, og eige viſſu þeir hvad ed ſagt var.

ÞA (a) gieck Mooder Zebedei Barna til hañs med Sonu ſijna, Fallande fyrer hañ fram, og bad nockurs af hꝍnum. Og hañ ſagde til heñar: Hvad villtu? Hun ſagde til hañs: Laat þeſſa mijna Tvo Sonu ſitia i Rijke þijnu, Eirn til þiñar Hægre Handar, og Añañ til þiñar Vinſtre Handar. (h) Þa geingu þeir Jacobus og Johañes, Syner Zebedei til hañs, og ſogdu: Meyſtare, vid

vil-

villium ad þu giorer fyrer ockur þad, sem vid bidium
þig. Hañ sagde til þeirra: Hvad vilie þid ad eg
skule giora yckur? Þeir segdu til hañs: Gief ock-
ur ad vid sitium i þiñe Dyrd, Eirn til Hægre Hlid-
ar þier, og Añar til hiñar Vinstre. (e) Eñ JE-
sus svarade og sagde til þeirra: Þier vited ei hvors
þier bidied: Kuñed þier ad drecka þañ Kaleik, hvo-



rn eg mun drecka, og skijrast þeirre Skijrn, hvørre
eg mun Skijrast? Þeir segdu til hañs: Þad giet
um vid. JESus sagde þa til þeirra: Ad soñu
munud þid drecka miñ Kaleik, hvørn eg dreck, og
medur þeirre Skijrn skijrder verda, hvørre eg mun
skijrast. Eñ þad ad sitia til miñar Hægre og Vin
stre Handar er eige mijn ad giefa yckur, helldur þe-
im sem þad er fyrerbwed, af mijnum Fødur. Og
þa er þeir Tiju heyrdu þad, misþocknadest þeim vid
þa Tvo Brædur Jacobum og Johañem. Eñ
JEsus

JEsus kallade þaa til sijn, og sagde til þeirra: Pier vited þad, ad Veralldleger Hofdingiar drottna, og Wollduger aa medal þeirra hafa Walld. Eñ þad skal ei so vera ydar aa mille, helldur hvor hañ vill vera mikell ydar aa mille, saa skal ydar Pienare vera, og hvor hañ vill ydar aa mille Ædstur vera, saa skal allra ydar Pioon vera. Pviad lijka so sem Mañsins Sonur er eige komeñ til þess ad laata þiona sier, helldur þad, ad hañ þioonade og giæfe sitt Lijf wt, til Endurlausnar Betalings fyrer marga.

ENN (c) þad skiede þa hañ took ad nalgast Jericho, ad nockur Mañ Blindur sat vid Veigeñ, og bad Ælmusu. Eñ þa er hañ heyrde Foolked sem þar fram hiaa gieck, Spurde hañ ad, hvad þad være? Peir søgdu honum: Ad JEsus af Nazareth geinge þar hiaa. Pa kallade hañ og sagde: JEsus Sonur Davids Myskuna þu mier. Eñ þeir sem undañ geingu, høstudu aa hañ, ad hañ þegde. Hañ kallade þvi meir, Sonur Davids Miskuna þu mier. Pa stood JEsus kyrr og baud ad leida hañ til sijn, og er hañ var komeñ hart nær honum, spurde hañ hañ ad og sagde: Hvad villtu eg giøre þier? Hañ sagde: HErra, þad eg mætte sia, JEsus sagde til hañs: Vert skign, þijn Trw giorde þig hoolpeñ. Og jafnsnart fieck hañ Synena og fylgde honum og epter, Vegsamande Gud, Og allt þad Foolk er þetta saa, Lofade Gud.

XI.

# XI. Capitule,

## Um̃ Zacheum Tollheimtuman̄, og Eptertlijking um̃ þaug Tiju Pund. Item Lækning þeirra Blindu, þegar Christur ferdadest fraa Jericho.

Luc. 19. Matth. 20. Marc. 10.

OG (c) han̄ foor burt, og gieck i giegnum Jericho, og siaa, ad Madur saa er Zacheus var ad Nafne, hvør ed var Foringe Tollheimtuman̄a, og var audugur. Han̄ gyrntest ad siaa JEsum hvør han̄ være, og gat eige fyrer Foolkenu, þviad han̄ var lijtell Vepte, han̄ hlioop þa fram̄ undan̄, og klifrade upp i nockurt Morberia-Trie, so ad han̄ giæte sied han̄, þvi þar ætte han̄ fram̄ um̃ ad fara. Og sem JEsus kom ad þeim sama Stad, leit han̄ upp, og vard han̄s var, og sagde til han̄s: Zachee stijg þu med Skinde ofan̄, þviad i Dag skal eg koma i þitt Hws. Og han̄ stie Skindelega ofan̄, og took vid honum fagnande. Og er þeir saau þad, mogludu þeir aller, þad han̄ kyllde Herbergia sig hiaa Bersyndugum Man̄e. En̄ Zacheus gieck fram̄ og sagde til DRottens: Siaa þu HErra, Helftena min̄a Eigna gief eg Faatækum, og ef eg hef nockurn tælt, þa gief eg Ferfallt aptur. JEsus sagde til han̄s: J Dag þa veitest þessu Hwse Saaluhiaalp, med þvi ad han̄ er Abrahams Sonur, þvi ad Man̄sins Sonur er komen̄ epter ad leita, og Saaluhoolped ad giora þad sem tapad er.

þA þeir nu tilheyrdu, ſagde hañ þeim framveigis Eina Epterlijking, af þvi ad hañ var hart nærre Jeruſalem, og þad þeir ætludu ad Guds Rijke munde þa ſtrax Openbert verda, Og ſagde.

Nockur Edalborēñ Madur ferdadeſt i fiarlægt Land, ad hañ aflade ſier Rijkis, og kiæme ſo aptur. Þeſſe kallade a Tiju ſijna Pioona, og fieck þeim Tiju Pund, og ſagde til þeirra: Syſled þar med til þeſs eg kiem aptur. Eñ hañs Borgar-Meñ hǫtudu hañ, og ſendu Bod epter hǫnum, og lietu ſeigia hǫnum: Vær vilium ei þeñañ rijkia laata yfer oſs. Þad ſkiede og þa hañ kom aptur, ſem hañ hafde Rijked under ſig teked, ſkipade hañ ad kalla a þaa ſomu Pioona, hvǫrium hañ hafde Fied feinged, ſo ad hañ viſſe hvad miked hvǫr hafde ſyſlad. Hiñ Fyrſte kom og ſagde: Herra, þitt Pund hefur afrekad Tiju Pund. Hañ ſagde til hañs: Eya þu Goode Pioon, af þvi þu varſt Trwr i Minſtu, ſkalltu Valld hafa yfer Tiju Borgum. Hiñ Añar kom eirneñ, og ſagde: Herra, þitt Pund hefur ſamañ dreiged Fim̃ Pund. Til hañs ſagde hañ eirneñ: Og þu ſkallt vera yfer Fim̃ Borgum. Og hiñ Þridie kom og ſagde: Herra, Sia hier, þar er þitt Pund, hvǫrt eg hefe i Sveita Dwke foolged, Eg hræddunſt þig, þvi þu ert eirn hardur Madur, tekur þad upp hvad þu hefur eige nidurlagt, og uppſkier þad hvad þu ſaader eige. Hañ ſagde til hañs: Af þijnum Muñe þa dæme eg þig, Þu Skalkur, Viſſer þu þad, ad eg er hardur

Madur

Madur, takande þad hvad eg lagde eige nidur, og uppskierande þad hvad eg saade eige. Hvar fyrer gafstu eige miñ Pening að Mangarans Bord? Ad nær eg kiæme, hefde eg þess med Okre krafed. Og hañ sagde til þeirra, sem þar hiaa stoodu: Takid þad Pund fra honum, og faaed þeim sem Tiju Pund hefur, Þeir sögdu honum: Herra, Tiju Pund hefur hañ. Eñ eg seige ydur þad: Ad hver ed hefur, honum mun giefed verda, eñ fra þeim sem ecke hefur, mun þad burtnumed verda, hvad hañ hefur. Þo þaa mijna Ovine, sem eige villdu mig rijkia lata yfer sier, Leided hijngad, og deyded þaa hier frame fyrer mier. Og sem hañ sagde nu þetta, foor hañ afram, og ferdadest upp til Jerusalem.

OG (a) þa er þeir geingu wt af Jericho, fylgde honum margt Foolk epter. Og sia ad Tveir Blinder satu vid Veigeñ, og þa þeir heyrdu þad ad JEsus gieck þar fram hia, Kølludu þeir og sögdu: O HErra Sonur Davids, Myskuna þu ockur. Eñ Foolked hastade a þaa, ad þeir þegde, eñ þeir kølludu þvi meir og sögdu: O HErra Sonur Davids Myskuna þu ockur. Og JEsus Stadnæmdest, Kallade a þaa og sagde: Hvad vilied þid ad eg skule giora ydur? Þeir sögdu til hans: HErra, þad, ad ockar Augu upplwkest. Eñ JEsus sa þar Aumur a, snart Augu þeirra, og jafnskiott urdu þeirra Augu siaande aptur, og fylgdu honum epter.

Og

OG (b) ad honum burtfarande wr Jericho, og hans Læresveinum, og miklum Foolks-Fiolda, Sat Eirn Blindur Bartimeus Son Timei vid Veigeñ, og baꝛ Aulmusu. Og er hañ heyrde ad þad var JEsus af Nazareth, took hañ til ad kalla, og seigia: JEsus Sonur Davids Myskuna þu mier. Og marger hostudu aꝛ hañ, ad hañ skyllde þeigia. Eñ hañ kallade þess miklu meir, Sonur Davids Myskuna þu mier. Og JEsus stood vid, og liet kalla aꝛ hañ. Og þeir kolludu aꝛ hiñ Blinda, Seigiande til hañs: Vertu med goodu Giede, statt upp, Hañ kallar aꝛ þig. Og hañ kast ade siinum Klædum af sier, stood upp, og kom til JEsu. JEsus svarade og sagde til hañs: Hvad villtu ad eg skulegiora þier? Eñ hiñ Blinde sagde honum: Rabboni, þad eg yrde siaꝛande. JEsus sagde til hañs: Gack hiedañ, þijn Trwa giorde þig hoolpeñ, og strax þa saꝛ hañ, og fylgde honum epter aꝛ Veigeñ

# XII. Capitule.

Uñ Apturkomu JEsu til Bethaniam; Og Uppvakning Lazari af Dauda, Item Pharisearañа Raadslagun ad fyrerkoma honum og lijflaata hañ.

Iohann. 11.

JEsus kom þa (til Bethaniam) og fañ ad (Lazarus) hafde þegar fioora Daga i Grofeñe leiged. Eñ Bethania laꝛ hart

nærre Jerusalem, so sem Funtan Akra=Leingd. Marger Gydingar voru þar komner til Martham og Mariu, ad þeir huggudu þær epter siñ Brooður. Sem Martha heyrer ad JEsus kiemur, reñ ur hun i moote honum, eñ Maria sat heima. Þa sagde Martha vid JEsum: HErra, ef þu hefðer vered hier, þa være Brooder miñ ei Lataeñ, eñ eg veit eñ nu, ad hvørs þu beidest af Gude, þad giefur Gud þier. JEsus sagde til heñar: Brooder þiñ skal uppriisa. Martha sagde til hañs: Eg veit vel ad hañ mun Rijsa upp i Uppriisuñe a efsta Deige. JEsus sagde vid hana: Eg em Uppriisañ og Lijsed, hvør hañ trwer a mig, saa mun lifa þoott hañ deye, og hvør hañ lifer og trwer a mig, saa skal alldrei deya; Trwer þu þessu? Hun sagde til hañs: Jaa HErra, eg trwe ad þu ert saa Christus Sonur Guds, sem i Heimeñ er komeñ.

ÞA hun hafde þetta sagt: Foor hun og kallade heimuglega a Systur sijna Mariu, so seigiande: Meistareñ er þar og kallar a þig. Þa hun heyrde þad, stood hun skyndelega upp og kom til hañs. Þviad JEsus var eñ ei komeñ i Þorped, helldur var hañ eñ i þeim Stad sem Martha hafde i moote honum komed. Eñ þeir Judar sem i Hwsenu voru hiaa heñe, og hana huggudu, þa þeir saau Mariam, þad hun stood so fliott upp og gieck wt, fylgdu þeir heñe epter, oc sögdu: Hun fer til Grafareñar ad graata þar. Þa Maria kom nu þangad sem JEsus var, og hun leit hañ, fiell hun

hun til Foota hans og sagde honum Herra: Ef þu hefder hier vered, þa være Brooder min ei lateñ.



Sem JEsus saa hana gráata, og þaa Gydinga lijka grætande, er med heñe komu, bysteſt hañ vid i Andanum og ængradeſt þrynglega. Og sagde:

Hvar hafe þier lagt hañ? Þeir søgdu hønum: Her-
rra kom og skoda. Þa tarfellde JEsus, þa søg-
du Gydingar: sia, hvorsu kiæran hañ hefur haft
hañ. Eñ adrer af þeim søgdu: Mætte hañ sem
opnade Blinds Mañs Augu, eige giøra vid þvi
ad þesse hefde ecke dæed? JEsus bisteft þa eñ med
siaalfum sier, og kom til Grafareñar, eñ þad var
ein Grifia, og eirn Steirn var þar og yfer lagdur.
JEsus sagde: Taked af Steineñ, þa sagde Mar-
tha, Syster hins Dauda til hañs; Herra, hañ
lycktar nu illa, þviad hañ hefur leiged fioora Daga.
JEsus sagde til heñar. Sagde eg þier ecke ad ef
þu tryder, þa munder þu siaa Guds Dyrd? Þa
tooku þeir Steineñ af þar sem hiñ Daude laa. Eñ
JEsus hoof þa sijn Augu upp og sagde: Fader eg
þacka þier, ad þu Bænheyrder mig, eñ eg veit þo
ad þu heyrder mig jafnañ, helldur fyrer Foolksins
Saker, sem hier stendur i kriing, þa seige eg þad,
so ad þad trwe þvi ad þu sender mig. Þa hañ haf-
de þetta sagt: Kallade hañ hærre Roddu; Laz-
are kom þu wt hiingad. Og sa Daude kom wt,
reyrdur med Lijk-Bondum ad Hondum og Foot-
um, og uñ hañs Asiaan, var sveipad med Svei-
tadwke. JEsus sagde til þeirra: Leysed hañ og
laated hañ ganga. Marger af Gydingum sem
komed høfdu til Mariam, og saau hvad JEsus gi-
ørde, trwdu aa hañ. Eñ sumer af þeim geingu
burt til Phariseæaña, og søgdu þeim hvad JEsus
hafde giort.

Þa

Þa sofnudu Kiennemanna-Hofdingiar og Phariseinu Raade, og sogdu : Hvad skulum vær tilgiora? Þvi þesse Madur giorer morg Teikn. Og ef vier sleppum honum so, þa trwa aller a hañ, og þa koma Roomveriar og taka fra oss Lond og Lijde. Eñ eirn af þeim Caiphas, sa sem þad sama Ar var ypparste Prestur, sagde til þeirra: Þier vited eckert og hugleided ecke, ad betra er fyrer oss ad eirn Madur deye fyrer Foolked, eñ ad allur Lijdur tapest. Eñ þetta saade hañ ei af sialfsum sier, helldur af þvi ad hañ var þess Ars ædste Prestur, þa spaade hañ ad JEsus skyllde deya fyrer Foolked, ei einasta fyrer þad Foolk, helldur þad ad hañ safnade i Eitt þeim Guds Bornum, er sundur voru dreyfd. Og upp fra þeim Deige, samtooku þeir med sier, hvorneñ þeir giæte Lijflated hañ.

JEsus gieck þa ei þadañ af berlega hiaa Gydingum, helldur foor hñ burt i eitt Bygdarlag, nærre Eydemorku i eina Borg sem kallast Ephraim, og þar dvaldist hañ med sijnum Læresveinum. Eñ þa voru Paaskar Gydinga nalæger, og marger wr þeirre Sveit geingu upp til Jerusalem fyrer Paaskana, ad hreinsa sig. Þeir spurdu þa epter JEsu, og toludu sijn a mille i Musterenu, hvad synest ydur þad hañ kiemur ei til Hatijdareñar? Eñ Hofud Prestarner og Pharisei hofdu lated þad Bod wtganga, ef nockur visse hvar hañ være, þa skyllde underviisa þeim, so ad þeir mættu hondla hañ.

# XIII. Capitule

Christus verdur Smurdur i Bethania af Maria, Hofud-Prestarner taka Raad saman ad lijflaata Lazarum.

Matth. 26. Marc. 14. Ioh. 12.

SEx (d) Døgum fyrer Paaska kom JEsus i Bethaniam, þar sem Lazarus hiñ Framlidne var, hvørn ed JEsus uppvakte af Dauda. Eñ þeir biuggu hønum þar eina Kvølldmaaltijd, og Martha þioonade, Lazarus var eirn af þeim sem til Bordsins sat med hønum. [e] Eñ þa JEsus var nu i Bethania, i Hwse Simonis hins Spitelska og sat vid Bord, kom ein Kona Maria, hafande Alabastrum, [m] og took eitt Pund Salve af Omeingudu dyrmætu Nardus, gieck ad hønum, [d] og smurde med Fæturnar JEsu, og þurkade so hañs Fætur med sijnu Haare, [b] hun braut Glased, og hellte þvi yfer Hofud hønum, [a] þar hañ sat vid Borded, [d] Hwsed fyllteft og upp af Ilm Smyrslaña. Þa sagde eirn af hañs Læresveinum: Judas Simonsisson Iscarioth, saa er hañ sveik þar epter. Fyrer þvi er þetta Salve ei sellt fyrer Þriu Hundrud Peninga, og giefed Faatækum? Þetta sagde hañ eige af þvi ad hañ hirdte um Faatæka, helldur var hañ Þioofur, og hafde Fie-Pyngiuna, og bar þad sem giefed var. [e] Eñ er þad saau nockrer hañs Læresveinar, þycktust þeir vid og sogdu: Til hvørs

skal

skal þesse Spilling? Hvad þetta Salve mætte seliast meir eñ fyrer Þriw Hundrud Peninga, og giefast Fætækum, og þeir deilldu æ hana. Eñ þa JEsus fornam þad, sagde hañ til þeirra: Hvad erud þier ysner vid þessa Konu? Læted hana i Fride, þvi gott Verk giörde hun æ mier. Fætæka hafed þier jafnañ hiæ ydur, og nær þier vilied, meiged þier giöra þeim gott, eñ mig þa hafed þier ei jafnañ. [b] Hun giörde þad hun kuñe. [a] Pad hun hellte siinu Smyrsla-Vatne yfer miñ Liikama, þad giörde hun ad eg yrde greptradur, [d] þetta geymde hun til mijns Greptrunar-Dags, [b] hun kom fyrerfrañ ad smyria miñ Liikama til Greptrunar. [e] Sañlega seige eg ydur: Hvar helst i Heime øllum þetta Gudspiall verdur predikad, þa mun seigiast i heñar Miñing hvad hun nu giörde. [d] Eñ er Fiollde mikell af Gydingum fornam ad hañ var þar, komu þeir ei alleinasta þangad fyrer JEsu Saker, helldur ad þeir sæe Lazarum þañ sem hañ hafde af Dauda reist. Eñ Presta-Hofdingiarner æsettu sier ad slæ i Hel Lazarum, þviad fyrer hañs Saker geingu marger wtaf Gydingum þangad, og trwdu æ JEsum.

# XIV. Capitule.

Uñ Konunglega Iñreid Christi i Borgena Jerusalem, og hvorneñ hañ Griet yfer Borgeñe, og wtrak þæ sem Selldu og Keyptu i Musterenu.

Matth.

Matth. 21. Marc. 11. Luc. 19. Ioh. 12.

OG (c) þad skiede, (d) Añañ Dag
epter, (l) þa er þeir nu komu nærre Jeru-
salem, og voru komner til Betphage og Be
thaniam vid Fialled Oliveti, Sende JEsus wt
Tvo af sijnum Læresveinum og sagde til þeirra, far-
ed þid i þad Kauptun, hvort giegnt yckur er, og
strax er þid komed þar iñ, munud þid fiña Ausnu
bundna, og Fola bundeñ hiaa heñe, aa hvorium
alldrei eñ nu hefur nockur Madur seted, leysed þaug
og leided hijngad til mijn, og ef Einhvor seiger nock-
ud til yckar, og spyr yckur, þvi giored þier þetta?
Þvi leysed þier (þaug?) Þa seiged honum so: Ad
HErrañ hafe þeirra Þørf, og strax mun hañ laata
þaug laus; og senda hijngad. (a) Eñ allt þetta
skiede so ad uppfyllltest hvad sagt er fyrer Spaamañ
eñ er seiger: Seiged Doottureñe Zion. Siaa,
þiñ Kongur kiemur til þijn Hoogvær, sitiande aa
Ausnu og aa Fola Klifbærrar Ausnu. (l) Eñ
Læresveinarner sem sender voru geingu i burt, og
giørdu so sem JEsus hafde boded þeim, og fundu
sem hañ hafde sagt þeim, (b) Folañ bundeñ hiaa
Dyrunum wte aa Gatna Mootenu og leystu hañ.
(h) Og er þeir leystu Folañ, søgdu hañs Drottnar
og nockrer af þeim þar stoodu, til þeirra. Hvad
giored þid leysande Folañ? (b) Eñ þeir søgdu til
þeirra so sem JEsus hafde þeim boded, (c) HErr-
añ þarf hañs vid, (b) og þeir leifdu þeim þad, (l)
og þeir færdu Ausnuna og Folañ til JEsum, og

søgdu

logdu yfer þaug sijn Klæde, og settu JEsum þar uppa. (d) En̄ er JEsus fieck Ausnuna, Reid



han̄ þar a, so sem ad skrifad er: Ottast eige þu Dootter Zion, sia, þin̄ Kongur kiemur, Rijdande a Einum Ausnu-Fola. En̄ þetta skilldu eige ha-

ñs Læresveinar i Fyrstu, helldur þa ed JEsus var Auglystur, þa Hugleiddu þeir ad þetta var af honum skrifad, og þeir hofdu honum þetta giort. (c) Eñ er hañ foor af Stad, (l) breidde margt af Foolkenu sijn Klæde a Veigeñ, (e) og adrer hiuggu Kvistu af Triamum, og dreyfdu þeim a Veigeñ. (d) Pa er þad mikla Foolk heyrde, sem til Hatijdardagsins var komed, ad JEsus kom til Jerusalem. Pa tooku þeir sier Kviste af Paalma-Vide, og geingu wt i moote honum. (c) Og þa hañ took ad nalgast, og foor ofañ af Fiallenu, hoof upp allur Flockur hañs Læresveina af Fagnade, Gud ad Lofa med haarre Roddu, yfer ollum þeim Furdu-Verkum, sem þeir hofdu sied. (d) Eñ þad Foolk hroosade hañs Gierninge, sem hia honum var, þa hañ kallade Lazarum wr Grofeñe, og af Dauda uppvakte. Af þvi gieck og Foolked wt i moote honum, ad þad heyrde ad hañ hafde giort soddañ Teikn, [e] eñ þeir er fyrergeingu, og hiner sem epterfylgdu, [p] kolludu og sogdu: Hosaña [a] Syne Davids, [p] lofadur sie sa sem kiemur i Nafne DRottens, [d] Kongur Jsraels, [b] og lofad sie Rijke Fodurs vors Davids, þad ed kiemur i Nafne DRottens, [e] Hosiaña i hædstum Hædum. [c] Fridur sie a Himne, og Dyrd a Upp-Hædum. Og nockrer af Phariseis þeir ed voru med Foolkenu sogdu til hañs: Meistare, straffa þijna Læresveina, hañ svarade og sagde til þeirra: Eg seige ydur þad, ef

þesser

þesser þegdu, þa mundu Steinarner, hliooda.

OG sem hañ took meir ad nœlgast, sœ hañ œ Borgena, og griet yfer heñe, og sagde: Ef þu visser þad, munder þu a þessum Tijma hugleida hvad til þijns Fridar þienade, eñ nu er þad duled fyrer þijnum Augum. Þviad sa Tijme mun yfer þig koma, þad þijner Ovíner munu uũ þig Skialldborg setia, og þier Uũsaat veita, og œ alla Vegu ad þier þreingia, og þeir munu þig Eydeleggia, og þijn Born med þier, og ei munu þeir lœta eirn Stein yfer odrum standa, af þvi ad þu þeckter eige þiñ Vitiunar Tijma.

OG (a) er hañ foor iñ i Jerusalem, var oll Borgeñ uppvægd, og sagde: Hver er þesse? Eñ Foolked sagde: Þetta er JEsus Spœmadur af Nazareth wr Galilea. (d) Eñ Pharisei sogdu sijn a mille, þier siœed nu, ad þier orked ongvu; Sie, allur Heimur hleypur epter honum. (l) Og JEsus gieck iñ i Musteret Guds, (b) uũskygnde alla Hlute, (f) og took wt ad reka alla þœ sem selldu og keyptu þar iñe, (a) og Bordum Verslunar-Maña, og Stoolum þeirra er Dwfur selldu hratt hañ uũ, (f) og sagde til þeirra: Skrifad er, mitt Hws skal Bœna Hws kallast, eñ þier hafed giort þad ad Spillvirkia Bœle. (a) Og til hañs geingu Blinder og Hallter i Musterid, og hañ lœknade þa. Eñ er Kieñemaña Hofdingiar og Skriptlærder sœu þœ dœsamlega Giorninga, er hañ giorde, og þad Borneñ kolludu i

Musterenu og sogdu: Hosiana heim Syne Davids, reiddust þeir og sogdu til hans: Heyrer þu nockud hvad þesser seigia? JEsus sagde til þeirra: Hafed þier alldrei lesed þad, af Munne Ungbarna og Briosstmylkinga hefur þu Lofed tilreidt? (c) Og hvers Daglega kiende hann i Musterenu, enn Kiennemanna Hofdingiar og Skriftlærder og Villdar-Menn Lijdsins, sooktu efter ad fyrerkoma honum, og fundu ei hvad þeir skylldu honum giora, þviad allt Foolked var honum aahaangande og heyrde honum.

# XV. Capitule.

Grysker gyrnast ad siaa JEsum, Enn ad Morgne Formæler hann þvi Avaxtarlausa Fijkiu-Trie, og hreinsar Mustered enn ad nyu, og Predikar fyrer sijnum Læresveinum umm Krapt og Verkan Trwarennar, wt af þvi uppvisnada Fijkiu-Trie.

Matth. 21. Marc. 11. Iohann. 12.

OG (d) þar voru nockrer Grysker, medur þeim sem upp hofdu fared, ad tilbidia umm Haatijdena. Þeir geingu til Philippum, hvor ed var wr Bethsaida af Galilæa, baadu hann og sogdu: Herra, Vier villdum faa ad siaa JEsum. Philippus kom og sagde þad Andreas, Enn Philippus og Andreas sogdu þad JEsu. Enn JEsus ansade þeim og sagde: Saa Tijme er nu komenn, ad Mannsins Sonur auglijsest.

Saa-

Sañlega, Sañlega seige eg ydur: Nema þad ad Hveite-Korned falle i Jordena, og deye, þa blijfur þad Einsamallt, eñ ef þad deyr, þa fœrer þad mikeñ Avoxt. Hvor hañ elskar sitt Lijf, hañ glatar þvi, eñ hvor hañ hatar sitt Lijf i þessum Heime, Sa vardveiter þad til Eilijfs Lijfs. Ef nockur vill mier þioona, þa fylge hañ mier epter, og hvar eg em, þar skal og miñ Pienare vera, Ef nockur þioonar mier, þa mun miñ Fader hañ heidra.

NU Sala er nu hrygg, og hvad skal eg seigia? Fader, Hialpa mier af þessum Tijma, eñ fyrer þvi kom eg þo i þeñañ Tijma. Fader, Byrtu Nafn þitt, þa kom Rödd af Himne: Eg hefe þad uppbyrt, og eg skal þad eñ aptur uppbyrta. Þa sagde Foolked sem hia stood, og a heyrde, þar urdu Reidarþrumur: Adrer sogdu: Eingelleñ talade vid hañ. JEsus svarade og sagde: Eige kom þesse Rödd fyrer mijnar Saker, helldur fyrer ydar Saker. Nu byriast Doomur yfer þessum Heime. Nu mun og þessa Heims Hofdinge wtrekast. Og þegar eg verd upphafeñ fra Jordu, þa mun eg draga alla til mijn: Eñ þetta sagde hañ, Teiknande med hvorium Dauda ec hañ skyllde deya. Þa svarade Foolked hønum: Vier hofum heyrt i Logmalenu, ad Christur blijfe ad Eilijfu. Hvorneñ seiger þu þa ad Mañsins Syne byriar upp ad hefiast? Hvor er sa Mañsins Son ur? Þa sagde JEsus til þeirra: Liooseð er eñ litla Stund hia ydur. Gianged þvi a medañ þier

hafed

